# Eptirmæli Atjándu Aldar

eptir Krists hingaðburð,

frá

Ey-konunni

# Íslandi.

Í þessarar nafni framvørpuð

af



Magnúsi Stephensen,

Konúngl. Hátignar virkilegu Júſtitsrádi og Justitiario í þeim konúngl. íslendſka Lands-yfirretti.

Kosta almennt bundin, 68 ſkildínga.

Leirárgørdum vid Leirá, 1806.

Prentud, á Forlag Íslands opinberu Vísinda-Stiptunar,

af Bókþryckjara G. J. Schagfjord.

*Hiſtoria — teſtis temporum, lux veritatis, vita memoriae, magiſtra vitae, nuntia vetuſtatis, qua voce alia, niſi oratoris, immortalitati commendatur?*

Cicero de Oratore Libr. II, 9.

## Til Lesarans!

Eptir tilmælum nockurra Lærdóms-vina, lagdi eg, fyrir meir enn 3ur árum, í Eyjunnar **Islands** nafni, fyrstu hønd á ad skrásetja einhværja Utfarar minníngu þeirrar Atjándu Aldar frá **Krists** hingadburdi, þó med á-



formi, ad minnast einúngis þess allra merkilegasta um hennar skeid, sem þess-ari eyju vidkómi, og um leid ad láta þetta stutta Yfirlit Hellsku vidburda, verda nockud meira enn magurt Re-gistur þess hellsta, er sú, Landi voru í mörgu markverdasta, og nýlega framlid-na Atjánda Öld framleiddi til skodunar á vorn íslendska sjóndeildar-hríng, og þó batt áformid og fyrsta byrjanin mig, á-samt þeim þraungu takmörkum, er eg vard ad skapa þessum Eptirmælum vid þeirra, framyfir mína fyrstu ímindun, ódum vaxandi stærd, til allvída ad láta

þau

þau verda lítid meira enn Registur. Ofþreyti þau samt minna Lesara þolinmædi, tel eg þau ordin helst um of laung, einkum med tilliti til þess þreytanda lestrs og erfidis, sem þau sjálf hafa í lángañ tíma orsakad mér, framyfir añad ritgjördum vidkomandi, er eg híngad til hefi lagt hönd á, þar öll áhöld og faung til þeirra framvarps, vóru mér svo torfengin, mörg lángsom yfirferdar og seinfundin.

Á hvörju min Eptirmæli eginlega grundvallast, hefi eg í skýríngar=areinum nedan undir vída hvar tilrísad, en þó vída

 fund=



fundid þetta of lángsamt og ógjørlegt, einkum hvar æfisögu brot merkis-manna og adrar frásögur eru af mér vída ad, jafnvel úr mørgum skrifudum skjølum samanlesnar, svo sem 267-69, 276, 288, 319-21 skíríngar-greinir, er eg af mørgum nefni til dæmis, og hvad um Commissionir er framsett, bls. 440-62; bækur í ýmsum lærdómum, bls. 540-55, auk svo margs annars. Nockrir þeirra Annála, er gjørdu þeim ódaudlega Biskupi Dr. Hannesi Finnssyni fært, ad géfa Løndum vorum sitt lærdóms-ríka rit um Mannfæckun af Hallærum, og þó eink-





einkum þetta ágjæta rit lengst af, léttu mér hardærá toluna í þessum Eptirmæl-um. Stiptamtmanna, Biskupa, Amtmanna, Lögmanna, Landfógeta, Lögþíngisskrifara rödina, var audveldast af öllu ad finna, bædi eptir Kóngsbréfa Registrum, og því, er Fedgarnir, Jón Prófastur Halldórsson, Dr. Finnur Jónsson Biskup og Vigfús Profastur Jónsson hafa hér um eptir sig látid, en — svo lítid sem eckért af þeirra æfisögum hefi eg eptir þeim framfært, þar eg undir eins sá, ad Eptirmælin, áavordud til stutts yfirlits þess all[illegible] merkilegast[illegible]



Oldinni, kjæmust oflángt frá þeirra eginlega augnamidi og nidurskipun, ef hér um minduðust í Æfi= og adrar sögur, og mundu þar vid skjótt vara til margfaldrar stærdar. Þó hefi eg á einstøkum stødum leyft mér í skíríngar-greinum ad bjóda fáein æfisøgu-brot, til upplýsíngar merkis atrida, einkum þau, er eg fann flesta adra hafa þegjandi ad mestu eda allt ødruvísi yfirfarid, en sem lestur ýmislegra rita og skjala gáfu mér efnid í, vonandi ad Landar mínir finni þau í fleiru enn einu tilliti ecki øldúngis ófródleg.

Til Stipt=prófasta talsins fann ég litla hjálp; en því miklu meiri til Prófastanna, þar sem ég hafdi þeirra rod fyrir mér fyrir Skálholts-stipti allt ad 1790, í Biskups Drs. Hannesar Finnssonar Sóknarpresta talí Skálholts-stiptis, hvorja ég átti audveldt ad fullkomna fyrir 10 Aldarinnar sídustu ár; en fyrir Hóla-stipti á ég ad þakka Prófasta talid Hra. Biskups Geirs Vídalíns gódvild, í því ad ljá Mag. Hálfdánar Einarssonar eptirlátna Safn til Presta-tals Hóla-stiptis, ásamt nockrum Embættis=bréfa bókum frá því



Stipti, en Hra. Assessors B. Gröndals vinsamlegú adstod, úr þessum bókum öllum ad útdraga þád, sem blf. 277 = 94 hér-adlútandi halda, þegar eg undantek 2 eda 3 skríngar-greinir. Hra. Biskupinum á eg og einstakar upplýsíngar ad þacka um Prófasta og Rectóres á seinustu árunum, líka enn ítarlegri Fólks-tölu Töblu, enn þá sem finnst blf. 219, en vegna tölustafa fædar vid Prentverkid, of margbrotna til prentunar. Auk þess, sem hún, eins og sú prentada heldur, tel eg í henni markverdast, ad um Alda-mótin vóru á öllu landinu





6231 sveinborn og 6300 meyborn 10 árum hngri, 158 karlar yfir áttrædt og 6 yfir nírædt, en 285 konur yfir áttrædt og 35 yfir nírædt.* Mestur fjøldi fullordins fólks á milli tvítugs og þrítugs, nefnilega: 3385 karlmenn og 4060 konur. Til Rectóra-talsins fann eg gódann studníng fram til 1740 í Histor. Eccles. Isl., en sídan hefi eg þad eptir Kóngs-bréfum og úrskurdum, og Hra. Prófasts Gudlaugs Sveinssonar Vatnsfjardar Annál sídari, sem eg ad gjøf fíns lærda høfunds á, fengid fullkomnad: um seinni helmíng

Aid.



Aldariñar gaf hañ mér og í mörgu fleiru ágjæta vegleidslu, einkum vid þad vandrædasama Sýslumanna-tal, til hvørs eg alls enga áreidanlega hjálp fyrir mér fann, heldur vard sjálfur eptir lánga og ítrekada lestra flestra Logþíngis-bóka, gamalla Dóma-bóka, Annála, Kóngs-bréfa-safna og annara skjala, frá upphafi ad samantaka þad, sem hér nú finnst, og vída ad beidast upplýsíngar med bréfum, um vafasøm atridi nockur. Mitt gjørda útkast til þess vann og góda upplýsíngu vid þess yfirlestur af mínum elskulega Fødur, Herra Stiptamtmanni Olafi,

Ste

Stephåns syni, og samburd vid Stipts- og Amta-bækur og bréf ymisleg; lika og vid þess sendíngu til Hra. Syslumanns Skúla Magnússonar, ad þvi leiti sem hann, til adgætslu, lédi mér gódsamlegast nockur blød, á hvor Fadir hans hafdi, sér til minnis, ymislegt héradlútandi laus-lega uppteiknad, en ósamanhángandi, hellst eldri tídum, en 18du Old minnå viðvíkjandi, ad ára-tolunni óvísst, og um Nordurland ad mestollu vantandi, en fyrsta audsjáaulegt laust útkast, sem þó vard mér til gloggvari leidarvísirs í morgu, einkum því, sem nockrar skríngar-grein-



greinir vid Sýslumanna-talid inni-
halda. Mitt seina fyrirtœki einninn ad
géfa Lesurum mínum í hendur Registur
Sýslumanna á Atjándu Öld, svo sem
Landsins Yfirvalda, svipti mig, tímans
naumleika vegna, fœri.á ad ódlast þess
umbót frá Hra. Sýslumanns Jóns Ja-
cobssonar hendi, þó eg sannspurt hafi,
ad hann nockra stund safnadi til Sýslu-
manna-tals fyrir Nordurland, en
mér eckert ord af því audnast enn ad sjá,
og þó eg engannveginn efa þyrfti vel-
vild þessa gódfrœga Lærdóms-vinar, ad
styrkja til fullkomnunar þessara, sem
ann-

annara lærdóms vidburda, hefdi eg gét-
ad hennar leitad. Avísan um nockur
árstøl sídustu Sýslumanna-skipta, og
útvegur um Vestur-amts-Collect-
anna upphæd, ber mér ad þacka Studi-
oso Hra. Sigurdi Björnssyni Thor-
grimsen, og siálfra Collectu-reikn-
ínganna meddeilíngu hlutadegandi Hrra.
Amtmanna gódvild. Þó hefir enginn
svo itarlega adstodad mig til þessa mér
erfida verks, sem sá vel-gáfadi, vidles-
ni, minnugi og, vid søfn fródlegra og
minnisverdra uppteiknana, ástundunar-
sami Bókþryckjari Hra. Gudmundur
Schag-



Schagfiord, sem góðfúslega hefir léð mér margt upplýsandi og áreiðanlegt af þesshattar söfnum, og við Eptirmælanna samanteknngu gefið mér óræka vissu um margt, sem áður var mér efasamt eða ókunnugt. Einstakar aðrar styrkjandi ávisanir á eg og við fleiri að vyrða, en of fáar eða litilsverðar til sérlegs þakklætis hér, hvört eg alúðlegt framber fyrir veitta góða aðstoð, fyrrnefndum vyrdta vinum og velunnurum. Hra. Assessors B. Gröndals leyfi uþti eg mér, til að láta hans Snylli-qvæði, eður Samtal

Atján-




Atjándu og Nitjándu Aldanna, Eptirmælunum fylgja til prýdis.

Presta-tal á Atjándu Øld og Conrectóra hefdi eg ecki látid vanta í þessi Eptirmæli, sem framtelja því nær alla adra Embættis menn, hefdi eg treyst mér til, án þess ad draga útkomu Bókarinnar enn þá eitt ár, ad géfa þad út áreidanlegt eda fullkomid. Fyrir Skálholts-stipti hafdi eg þad ad sønnu prentad til, allt ad 1790, í Drs. Hannesar Finnssonar Sóknar-

 presta-



prestsa tali, og gat audveldlega framhaldid því til aldamótanna, en — fyrir Hóla-stipti vantadi mig allt, og fann þad, fyrir Eptirmælanna útkomu ófáanlegt, líka vandrædi vid Conrectóranna tal, eptir réttu árstali og áreidanlegu. En — þó eg síst ætti sjálfur ad gjora ráð fyrir svo ólíklegu, sem því, ad Eptirmæli þessi yrdu svo medtækileg hjá Löndum mínum, ad nýtt upplag þeirra kynni væntast ádur enn mjög lángt um lídur, — nema med tilliti til

mínn=

minnar þjódar vídfrægu velunnunar til sagnafræda, og til þess, ad Eptirmælanna efni vyrdast mætti fullverdugt yfirveguñar af skynugum mönum, og ecki óhagfeldt til ad rysja upp merkis tilburdi fyrir nockrum, ellegar til ad kynna þá úngum og ófródum, og þar med, til endurminnîngar og yfirlits í einu, ad fá heila framlidña, en minnisstæda Old dregna á ný fram til skodunar á sjónarplátsid, enn þótt hér í daufri skugg-



sjá, — þá er þánkinn um þeirra mögulegt upplag á ný, þó engin óhæfa, einkum þar hann leidir hér til óskarinnar, ad þau þá mættu enn fullkomnari fá birtst í allsherjar ljósi, enn nú í bráð frá mínum daufa penna; í hvörri von eg alúdlegast vil umbidja lærda og góda menn, hid fyrsta ad géfa mér á glöggvum rökum og skilríkjum byggda ávísun um sérhvad, er þeir finna mættu efasamt, rángt, vantandi og ábótavant, sem þacklátlega skal af

af mér sídar notast. Þygg eg þá og fús adstod og upplýsíngu um Conrectóra hér á landi á Atjándu Old, eptir vidlíku formi og Rectóra-talid nú sýnir, og ef menn sakna Presta-tals á Atjándu Old í Eptirmælunum, veit eg fyrir víst, ad enginn á hægra med áreidanlega úr því ad bæta, enn vidkomandi Herr. Prófastar, ef hvörr fyrir sitt Prófastsdæmi vildi láta sér þócknast, eptir Ministerial-bókunum, ad uppteikna lista yfir Presta og Presta-



skipti í hvörju kalli um Átjándu Öld, og Prófasta í sömu tíd, med styttsta Efi-ágripi um þad merkilegasta, eptir áþeckn formi því, sem Sýslumanna- eda Hóla-Prófasta-tölin hér sýna. Imynda eg mér þá, ad Eptirmæli þessi, þanninn aukin og umbætt gætu á ný útgéfin lokfins talist med markverdari frædi-bókum hjá oss, yfir mjög svo minnis- og eptirþánka-verd efni. En — uppá ljúfa eda óljúfa medtöku þessa míns vidburdar, kémur þó einúng-

úngis, bædi hvørt Eptirmæli þessi byrtast uppþýngd á ný nockurntíma, og hvørt þeirra lengíng med Presta- og Conrectóra-tali og lengri æfi-ágripum annara Yfirmanna og Frædara, gétur skadleysu von; og med henni Høfundi þeirra lýst til þessarar umbótar.

Án manngreinar álits, án tillits til vildar- edur óvildar-manna, án áforms ad meida nockurn, án minnstu egingagns eda ávinnings vonar, hefi eg



eptir beſtu vitund og hreinſkilnuſtu eg-
in ſannfæríngu, med fylgislauſu yfir-
liti framvarpad þeſſum Eptirmælum
til fródleiks og ſkémtunar þeim Lönd-
um mínum, ſem þau vilja þar til
nýta; til minníngar merkis-vidburda
á Atjándu Old; til uppvakníngar
um leidréttíngu margvíslegrar óreglu,
margvíslegs hyrduleyſis, óráds, fylg-
is- ſamheldis- og húg-leyſis í bjarg-
rædis útvegum; til lagfæríngar mid-
ur vandads ſidferdis og þeńkíngar-hátt-

ar

ar, og til nidurkjæfingar hjátrúar og fordóma, flockadrátta og eydileggjandi ósamlyndis, sem eru sídada menn midur sæmandi. Med Sagnaritarans vidqvæma athygli, og sida-vandlætarans hlutlausa, en bèndanda umdæmi, hefi eg eptir bestu þeckingu og vitund viljad framsetja og meta hvad eitt, snortid bresti, leidt fyrir sjónir hid vanvyrdanda í rógi, og ødrum samfara vømm-



um*), en viðurkénnt framfarir til góðs og sérhvört loflegt fyrirtæki, án þess með lofi eða lasti um nafngreinda lif- andi

*) Vel má eg annars undirtaka með Þjóðskáldinu Eggert Olafssyni hans Endurqvæðu 59:60 Erindi:

> Þessarar aldar eðli blindt,
> Um stór fram ei hefi
> Lastað, eða Land áminnt,
> Láti Guð, hvað rjett er innt,
> Blessast æ og bestann ávöxt gefi!
> Hitt se grafið í gleymsku sjó — —

andi Landa mína (til hvørs eg þó ecki tel alþeckt sannmæli um einstök Lærdóms-efni), ad gjøra mitt umdæmi grunsamt; vidurkénnt velgjørdir og vidreisnar áhyggju vid mitt kjæra Fødurland, og, ef ecki er annad, hefi eg í øllu **Eptirmælanna** margbreytta efni, géfid Løndum mínum fullnóg vidurkénníngar og þacklætis efni vid guddómlega Forsjón, allt eins í þeim margvíslegu og stórkostlegu



legu umbiltingum, sem Atjánda Öld-in einninn hjá oss framleiddi. Ad því leiti, ef ecki ødru, óska og vona eg ad Lesarinn ecki ydrist eptir yfirferd hennar Eptirmæla.

Innrahólmi, þann 1ta Júnii 1806.

M. Stephensen.

Inni,

# Innihald Eptirmælanna.



Korn-





[Taxt-







Ferda-

Þú ert framliðin, eilíflega ertú mér horfin, þú 18da Krists Öld! þú, sem ert mér minnisstæðust af öldunum, af því þú varst hin síðasta, sem eg misti, og breytilegasta einhvör að lunderni, hraðaðir þér á fund þinna eldri systra, geckst til hvíldar hjá þeim fá seinustu nótt ársins 1800, en rís aldrei framar upp mér til yndis edur aðstoðar. Mér ertú horfin, kjæra öld! á

27da ári ennar 10du aldar frá minni byggíngu vardst þú øll. Hýrleitari miklu qvaddir þú mig, enn þegar þú fyrst heilsadir; þú fridkadir hvad mest í ellinni, nema þar, sem ángdóms-skrámur þínar stæckad høfdu og nýjar ábættist. Yndæl varstú mér undir skilnadinn, og stúrandi horfdi eg lengi eptir þér, á medan eg í sídasta sinni feck litid purpura geisla þíns skrautlega búníngs. Mig ángradi þá, ad þú vildir yfirgéfa mig svo einmana, þegar sídasta qvøldid í árinu 1800 dró upp sitt dymma nætur-tjald yfir høfud á mér, svo ad eg aldrei framar fengi þig litid. — Þú hafdir ad sønnu til skilnadar heitid mér hugri systur þinni til umsjónar eptir þig, en — vódalega hafdi mig til hennar dreymt, þóktist eg sjá hana taka vid stórvexnum Lurki af hendi þinni, en heyra þig undir eins segja: láttú

láttú Jsland til Lurka finna! kom hún svo til mín med lurkinn uppreiddann, eins og eldri systir þín [1]), og hótadi mér hørdu, sem hún. Eg qvídi því fyrir misjafnri medferd af henni. — Fagur er ad sønnu búníngur þeirrar 19du Aldar, lísflegur úngdómur hennar, blíd og ástúdleg hennar allrafyrsta qvedja, þar sem hún nú brunar fram á gullrodnum skýjum og med himneskri dýrd stígur ofan til mín. Føgnudur fylgir hennar komu; jafnvel ørvasa karlar lifna vid; hátídleg veitsla er til reidu í hvørri krá; feitir uxar og géld-saudir steiktir eda reyktir á bordum, og nægd af sambodnum øl-faungum.—



[1]) Seytjánda øldin hófst árid 1601 med miklum hardinda-vetri, sem því nefndist Lurkur, eptir hvørn fylgdi Ylfings-vetur árid 1602, en Eymdar-ár 1604.

um. — Mínir Yfirmenn, mínir synir og þær dætur mínar búast um í besta skart, sumar í nýbreyttann búníng; minn Biskup skundar í flugjels-vængjudum heidurs-skrúda og mjall-hvítum kraga af þrennum pípna-rödum, til ad kunngjøra í minni Dómkirkju, í tveimur kirkjum sama dag, ad nú se mikil Fagnadar- og Júbil-hátíd og mikid um dýrdir; ýmsir Kennimenn mínir erú málsnjallir nóg um sama, hvørr í sinni kirkju; skjært hvella Orgel-pípurnar, hundrudum saman, vid adkomu hennar; klukkna- og hljódfæra- og hátídlegra saungva-glaumur bodar mér vída ad, nýkomna Fagnadar- og Júbil-hátíd. — Hér og hvar vid flædar-mál mitt leyptra fallstyckin og þruma út þenna fögnud, og þar blakta øll fløgg í sømu minníngu; á skraut-mennin blánkar af fegurd; hvítir mjøl-

 púd-

þúdurs meckir krýna þeirra kolla-kinda til ad auka dýrdina; glæsileg hýbýli, kræst, ylmandi bord, ljúf-fengir dryckir, liprir dansar, fjøldi af litlum, stinnum, málludum blødum, gulls- og sylfur-brúgna glaumur vid þau á ríkismanna bordum, sjálf nóttin sumstadar dagbjørt af mørgum ljómandi ljósum og hátt blossandi, tjørgudum vitabrennum, allt — allt bodar mikla Fagnadarhátíd hjá mèr, þó fjøldi sona minna og Kènnimanna minnist hennar varla.

Mun allt þetta gjørt til heidurs þèr? mín framlidna! — ónei! til heidurs þinni nýfæddu systur! En hvørju er þá hellst fagnad? máskè því, ad þú, kjæra 18da Øld! ert mèr horfin til fulls, en yngri systir þín komin mèr til adstodar — æ! henni fæ eg ennþá ecki fagnad, því eg óttast ad

 hún



hún leyni Tyrkinum, sem mig dreymdi um undir Gull-skyckju sinni. Máské fagnad sé enn meiri heillum og minni óheillum, sem vini mína og syni dreymi fyrir í 19du aldarinnar heldur enn í þinni fylgd? Æ! fár veit hvørju fagna skal!

Þú ert samt framlidin, kjæra 18da øld! en — þó ad margir fagni því, og minnist þín litid hédan af, fagna eg þó hægt um sinn, en vil heldur minnast þín lengur og unna þér sannmæla: Þú varst nockud mislynd, sem þid allar Systurnar munid ega ætterni til, eptir módur yckar Tíd; mér varstú, eins og eg þess vegna mátti vidbúast, blíd og stygg á víxl, en hvørt heldur var optar eda lengur, vil eg nú stuttlega leida rök til af fáeinum merkisatridum, svo þaraf ráda megi: hvørt eg heldur hafi

hafi orsøk ad sakna þín, ellegar fagna komu systur þinnar. Þau skulu undir eins vera þér makleguſt Eptirmæli frá mér!

---

Árferdid, er þú leiddir yfir mig, vil eg, yfir høfud reiknad, ecki svo umqvarta; eldri systur þínar hafa ollad lakara. Þó fátt verdi talid af velti-árum til lands, sem sérlega milda vetra høfdu í fylgd sinni á þínum fyrra helmíngi, svo ad þeir ecki legduſt med þúnsu móti þúngt i bein mín og illa í nockra útlimi mína, mátti árferdid yfir høfud ad segja, all-sæmilegt heita frá 1702 til 1736, bærilegt til 1750, en fyrstu illúdlegu qvedju þína 1701 og afleidíngar hennar fram á árid 1702 undanskil eg, því þad er gamall þvandi

 yck-

yckar systra ad heilsa mér illa; [2]) eins má eg ecki mjøg um árferdis óvedráttu qvarta frá 1758 til þess 1777, eda sídan 1785, þegar eg undanskil bágu árin 1791 og 1792, man eg það líka, ad vedra-spek og blíd vóru árin 1765—66 um veturinn, 1781 um sumarid og 1782—3 til vordaganna, 1785—86 og—87 til vors, 1789, 1797 frá Þorra. og seinasta ár þitt 1799—til vors 1800, senn velti-ár ad mildi og gjædum.

[2]) Upphaf 11tu og eins 12tu aldarinnar var hardt, 13du og 14du hallærasamt, 15du ásamt mannskjædt af stórsótt 1402, 16du hardt, 17du Lurka, Pínings- og Eymdar-ár (sjá nærst undangengna skýringar-gr.); svo 9000 manna fjellu fyrstu árin af hardindum, 18du 1701 sár-hardt med miklu mannfalli (sjá Biskups Drs. H. Finnssonar Rit um Mannfæckun af hallærum á Íslandi, í 14da B. ens konúngl. ísl. Lærd. L. Fjelags Rita). Hvornin 19da øldin byrjadi, sýnir Tídindanna II. B. bls. 420-24.



En — vegna afleidínganna fyrir mig og børn mín, verda mér samt, minnis-stæd hallærin. Þó eg nú ecki telji hèr øll ár, sem ad eins ángradu nockra útlimi mína hèr og hvar, og orsøkudu þar manntjón nockurt eda penings-fellir og bágindi manna á milli, en ecki almennt stórkostlegt hallæri, eins og árid 1701, eda hallæra-bálkarnir 1750—57, og 1777—85, einkum bjargrædis-skort, þá børnin mín fellu þúsundum saman af vesæld og húngri, á eptir lifs-bjargar-stofni þeirra, peninginum, set eg samt á hardæra listann þessi: 1701, 1715, 1716, 1718, 1722, 1728, 1737—39, 1741—43, 1745—47, 1751—57, 1764—66, 1770—73, 1777—85, 1791—92 og 1798, af því þú á þessum árum annadhvert sendir mér þúngt veduráttu-far, eda adra óþægd, svo eg átti þá erfidt uppdráttar med fjølskyldu

 mína



mína og lifandi peníng, sem féll hrønnum árin 1701, 1742, 1752, 1754—55, 1766, 1770, 1772, 1778, 1781, 1784—5, 1791—92, og mistst ist þarhjá hraparlega af størkostlegum skad-rædis-vedrum og óhøppum, er þú sendir 1752, 1779, 1797 og 1800. Vard þad á stundum undra margt, sem ad mér settist til ad auka sár-un, fæcka nidjum mínum og raka burt álnum mínum, medan þú rédir fyrir. — Nadk léstú nockrum sinnum naga burt gródur af mér, einkum 1701, 1735 og 1784. Haf-ísa léstú ydugleg hncckja høuum, auka hardæri og óvedráttu, orsaka penings-fall, loka fyrir mér hafsins nægtabúri, og halda mér gamalli einatt í kaldri og hardleikinni hryggspeynu lengi; eg er nú ordin henni svo von, ad eg tel ecki allt smá-skángsid; en, man eg enn til fyrstu skennunnar 1701 og hinna seinni

seinni 1705, 1729, 1741—42, 1745, 1754—56, 1766, 1781—84, 1786, 1791, 1796 og 1798. Arid 1755 sleppti haf-ísinn mér ecki fyrri enn 3ja Sept., og þrisvár um þinn 100 ára aldur, eda árin 1745, 1766 og 1791 hardspennti hann mig allt um kríng, vestan frá Látra-bjargi, nordan-, austan- og sunnan-verda, allt ad Reykjanesi. Keld vóru líka undir skilnadinn fadmleg eldri systur þinnar; þegar hún med frost-grimdum, árin 1695 og 1699, hlód lagnadar-ísum svo utan um kalin bein mín, ad Hvit-á í Borgarfirdi lagdi upp undir Stóra-ás, og ridid var úr Gardi sydra yfir Stacksfjørd inn á Vatnsleysu-strønd, en gengid úr Skaga á Akranesi í Reykjavík, en ecki varstú ølla hlýrri árid 1717 eda 1742, þegar gengid var yfir mitt Breida-sund og milli allra

allra Breidafjardar-eyja, og hvergi sást í Borgarfirdi út fyrir lagnadar-ísa fyrir framan dýpstu fiski-mid [3]). Ecki rauk ad sennu af hýru þinni einatt þar á milli og sídan, svo sem árid 1784, þó fannst mér þú býsna køld í bragdi árid 1792, þegar og var gengid hér á ísum milli allra eyja hjá Seltjarnar-nesi, frá Videyju ad Hofi á Kjalarnesi, yfir Hvalfjørd frá Klafa-stada-grund; en ridid í Fardøgum frá Skrid-nes-enni ad Skálholts-vík fyrir framan Bit-runa í Stranda-sýslu, og vertídar-loka-hestar vóru reknir á ísi yfir Hvítá í Arness-sýslu, en klaki

[3]) Þó hefir frosta-veturinn mikli árid 1348 tekid øllum fram, þegar ríða mátti vídast hvar á ísum kríngum allt land.

klaki aldrei fór úr jørdu þad ár[4]). At manna- og peníngs-fellirinn, er af ǫllu þessu leiddi, mun eg sídar minnast, þegar fleira hefi talid, er ad sama studdi, svo sem nockurra ára fiskileysi, má eg þó síst álasa þér fyrir fjáargagnid, kjæra øld! því drjúg-hendt varstu í skamti þess optast vid mig, svo eg minnist hér ecki á almenn-sérlega bág fiski-ár ønnur, enn 1701—2, 1746—47, 1753—55, frá Messum 1783 til þess ad ver-tídar-lokum leid 1784, og árin 1791—92, þó abli stundum optar brugdist hafi á ýmsum út-sveit-

[4]) Sjá um þetta og fleira hjer eptir árferdinu vid-víkjandi og mann-fellir og fólks-tølu á 18dn øld-inni, fyrrgreint Biskups Drs. H. Finnssonar Rit, um Mannfæckun af hallærum.

sveitum, medfram sekum ísa og ógæfta [5]). Engu ad sídur beid eg allopt stór-skada af sjó, á víxl vid stór-høpp af hvala- og trjá-rekum, svo sem af miklum sjáar-ágángi og stór-flódum árid 1766, 1779 af Eskudags-flódinu vid Eyrarbacka, nefni eg lika árid 1796 [6]), og þó lángt yfir ell mikla skadrædis-vedrid og offa-flódid 1799 fyrst á árinu, þegar af mér brant allri sunnan- og vestan-verdri í briminu tøluverdt, og fjøldi býla minna skémmdust stórlega eda legdust af, en uppeptir mér slæddi allri 5 álnum dypri sjór venju framar, svo uppá føt min raun sumstadar 300 fadma, sumstadar 600 og allt ad 1500

[5]) Sjá Hra. Stiptamtmanns O. Stephánssonar Rit, um Sjáar-abla, í 7da B. Isl. Lærd. lista Fel. Rita.

[6]) Sjá Tídindanna I. Bindi bls. 249.

1500 faðma lángt, hvar þau aldrei fyrri höfðu sjóvøknað, en urðu nú sand-orpin og útsvívyrdt; átti eg aldrei fyrri í að vaða svo djúpann sjó, sem atadi út bestu fötin mín. Fuku þá um koll 2 reisuglegar óþarfa-kirkjur mínar á Nesi og Hvalsnesi, sem eg ecki syrgi, en eptir miklum Kaupmanna-húsum og störum búðum á Eyrarbacka, Bátsøndum, Rèblavik, Búðum og Olafsvík, bæjum, hjellum, góðum tøðu-vøllum, ver-gøgnum, hèr um 200 skipum, miklum heyja- og matar-fanngum barna minna, 200 fjár, fleiri enn 60 hrossum og nockrum kúm, sem sjór eda störvidri kollvørpudu, skémmdu, mølvudu og hripsudu frá mèr med ofbeldi, sje eg enn [7]). Sømuleidis beid eg tjón af miklum skip-tøpum og manna-missir med þeim, af hvørjum mèr enn

[7]) Sjá Tíðindanna II. B. bls. 106-117.



enn svída sárast 15 skiptapar árid 1752, 11 árid 1757, 9 árid 1758 á Sudurnesjum med 44 mönnum, og 3 skiptapar vestra; margir skiptapar á sunnanverdri mér árid 1767, þegar eg á 2 daga á vertídinni misti þar í sjó fleiri enn 80 manna, þat ofaná 1785 hér um 50, sem þad árid druknudu, en árin 1791 og 1792 med sama móti 72, og árin 1793 og 1794 hér um 60. Til 13 skip-tapa um árin 1795 og 1796 rekur mig enn minni, 3ja 1797, 4ra 1798, en þó einkanlega til þinnar seinustu hrak-qvedju med 8ta skiptøpum og drucknun fleiri enn 60 manna árid 1800. Hefi eg þó ekkért minnst hér á kaupfara-tjón, eda manna-missir med þeim þá eda fyrri, og sjáldnast hin árin samantalid þá, er fórust í ám og vøtnum, því hellst ofmargt er þannin týnt af mínum atorkusømustu børnum,

hvørra

hvorra mér finnst eg lengi sakna megl. — Skal eg nú, eptir allt þetta, hæla breytni þinni og viðskilnaði við mig? bista Öld! — nei, hægt ser eg mér að hólinu! — Skal eg heldur fagna komu systur þinnar? — **Sárt veit hvørju fagna skal!**

Arferðis-skygglyndi þitt með køblum til lands og sjáar, hefði eg efalaust síður á band fest, og ecki hefði það eins illa lagst í mín øldrudu bein, hefðir þú ecki þess á milli aukið þar ofaná øðru verra, og qveikt upp Brennusteins-elda umbrot í yðrum mínum, hvar af eg ýmist féck skaðlegar ryckingar og óstjórnlegann skjálfta, ellegar brennandi uppkøst, sem sviðu og svívyrdtu føt mín og ásýnd, snérist þar við hallæra-sóttin til miklu verra, og magnaðist hún þá fyrst algjørlega hjá børnum mínum. Einatt varð eg af þér

eptirminnilega hrjád med þessu móti; minnist eg nú fyrst á Elda umbrotin, og nefni til árid 1716, þegar qviknadi í mér þar, sem votast var þó um, í sjálfum Gríms-vötnunum, en ári seinna, edur 1717 þar, sem einna óeldsimast vyrdast mætti, í Austur-jöklum, svo eg upp um þá vard loks ad spúa sandi yfir Þíngeyjar-sýslu og Eyjafjörd, med myrkvidri og stór-brestum. Um vorid 1721 fengu ný stórkostlegri elds-umbrot útrás um Kötlugjárs-jökul-mynnid med braki og stór-brestum, sand-mecki, svælu og elds-gusum, vatnsflódi ógnarlegu og jekla-hlaupum, yfir Mýrdals-sand til hafs, og ollu þau bædi miklum skada og hardæri strax eptir. Arid 1724 brann hún Krabla mín; Mývatn þornadi upp ad mestu um tíma, en nálæg hérød skémmdust stórum, einkum 1728, því sami eldgángur héldst

þar vid í grend lengst af til 1730, hvist í Krøblu, Leirhnjúki eda Bjarnar-flagi og þar um pláts. Arid 1727 sprack eg um Ørœfa-jøkul med offalegri vatns-útrás, svo ad stór jøkul-stycki, líkust smá-fjøllum veltust þar utan af mér fram yfir undir-lendid; bæi tók af, 3 menn fórust, 600 fjár og 160 hestar [8]). Eldgusunum spjó eg sídan upp um jøkulinn litlu þar á eptir. Meinsemdin tók sig upp aptur í Mýrdals-jøkli undir veturnæturnar árid 1755, þegar eg sprack þar á ný med stór-jøkul-hlaupum og vatna-gángi og eldgusum út um Køtlugjár-mynnid, fékk eg þá enn hardar ryckingar med stór-brestum og dynkjum, skjálfta og spennum, svo upp úr mér lagdi logandi bál, sem lengi eptir þad tók hátt til himins, hvist med reykjar-svælu



[8]) Olavii oekonomiske Reise, Khavn. 1780, S. 602.

eda glóanda sand= og grjót=flugi yfir nálæg hér= ød, hvar ecki sá dags=skímu dægrum samán. Sáu margir 6 og jafnvel 8 þingmannaleidir þadan logann upp úr mér, en sand=gusurnar, sem féllu á jørd nidur, steyptu þar út um mig med snjó= krepju gul= og eyr=litadri storku, sem tók alla bjørg frá peníngunum, og jafnvel seinna hérduni hrauna=hrúdri; urdu 2 børn mín vid uppkest þessi reid=eldum lostin til dauds, en klettar brædd ir; legdust vid þetta 50 býli í audn um tíma, børnin mín sýktust og dóu hrønnum, en lifandi peníngur strá=féll nidur.

Enn féck eg nýja ígérd, sem í 18da sinni gjørdi út um Heklu mína á einmánudi árid 1766. géck þá vidlíkt eda enn meira á og vid eld=gosit úr Køtlu, jardir legdust í eydi, fólk og peníng

r= ur brundi nidur, ár og sjór sunnanlands fyllt=
u ust vikri, skógar og lend mikil eyddust, en á
n Húnavatns= og Skagafjardar=sýslur bar vind=
lu urinn mest sandfallid, vard og skadinn þar allra
ó= mestur. Þegar eg hafdi einna besta bata=von
la fengid af þesshattar meinsemdum dróguſt nýjar
n enn saman: um vorid 1783 rauk upp úr legheit=
st um sjó fyrir framan Reykjanes mitt, því mér
d= var þar heitt undir fötum, hafdi eg einhvörntíma
a, ólétt ordid, med öllum meinlætunum, sókti mig
di því jódsótt og fæddi eg þar Dóttur, sem Kóng=
ur minn Kristján enn sjöundi, skírdi Ný=eyju,
sáu hana margir sjó=farenda um vorid og segdu
n hana mér nærsta svipada og fjörmikla, hafdi hún
6 strax brjóst=hita mikinn, svo hún andadi upp elds=
st gusum, en af því hún veiktist, svo henni ílla nidri=
g eldst, seldi hún upp miklum vikri og ödrum ó=
u



heil=

heilindum. Almenníngs qvitt, síðan hún skömmu seinna hvarf þar frá mér, veit eg þann, að þú, öfundsjúka Öld! hafir þá kjæst í s'ó þenna króga minn, og var það all-líkt annari breytni þinni og systra þinna við mig.

Mesta meinsemdin mín tók sig upp sama árið í Skaptár-jökli og vall út um hann undir Jóns messu árið 1783; stór-vötn og bygdir fylltust glóandi hrauna-leðjum, sem runnu fram og steyptust út yfir besta skart-búníng minn, sviðu hann þar allann og storknuðu svo, að eg sjálf hræðist þar á mig að líta síðan; á 2 nálægar kirkjur mínar rann sama eldsteypan, svo þær urðu undir henni, 8 jarðir tók að mestu af, 29 að auki skémmdust stórum, og lögðust 15 þeirra strax í auðn, ásamt Kálfafells-sókn, 70 búend-

ur

ur í grend flúdu, fjøldi fólks komst á vergáng 1784, margir dóu, flestir í nálægd sýktust, ásamt peníngunum, sem kolféll bædi þar og vídast um mig 2 ár eptir; fjalla-grøs rætti sandfall og øskan allvídast upp um nockur ár, mel-korn mikid týndist, menn og sképnur mistu frid, heilsu, vidurværi og líf, fuglar flúdu mig, enginn þoldi af mér ódauninn, mistri og þokum var eg hulin, sólin skein mér ecki opt nema blódraud ígégnum reykjar- og sand-módu, sumstadar var enginn til ad jarda børnin mín, vóru mørg lík þeirra einatt kistulaus búnkud saman undir einhvørn flíkar-garm minn *). Aldrei gleymi eg sídan húngurs-qveinstefum barna-sképnanna, sem tóku

B 4 mig

*) Sjá Magn. Stephensens Beskrivelse over den nye Vulkans Ildsprudning i Vester-Skaptefjelds Syssel. Khavn. 1785.

mig til hjartans, og sú sára sjón að líta víðast hópa af fall=búnum, þornuðum beina=grindum þeirra og qvikfjárins. Ecki fæ eg nú útmálað mitt eymdar=ástand þá, sem ber, og ecki hjarta=sorg mína. Það var øll von, þó allir þá fældust mig óhreina og øfkuga upp yfir høfuð, hræ=um hlaðna, sorgbitna, sjúka, lotlega, tøtrum búna og óþockalega ásýndum. Hvørja konu hafðir þú svo aumkunarlega útleikið, bista øld! sem mig 1784? harðvidra grimd gjørdi mér him=in og lopt hørd, sem stál, sjálf varð eg sem kopar=rend af svellum og hálku, sem drápu marga annars alfæra skepnu, sem auk þessa steyptist í gjótur og gil fram af klettum og bøckum. Lopt=ið eytradir þú mér og málleysingjum mínum, og sjálfa mig. Sumstaðar brann eg, en víðast kól mig til stór=skemmda, lengi heldstú mér í harðri haf=

haf= og lagnadar-ísa- spennu ad vanda, eg vard øll, sem kollrøkud og med járni svidin; húngurs- og drep-sótta sárbeitt sverd, øllum hernadi skad-vænna, sendir þú mér og børnum mínum, sem átu marghåttud óholl og ódaleg óæti, pest- og hor-fallin, skémmd og gømul hrossa-hræ, sjúktust og féllu á eptir, ellegar skáru fjølda hrossa og legd-ust í óhóflegt hrossakjøts-át, og þau tók daudinn alla einna fyrst; líkt fór um qvikfénadinn: hest-ar átu daud hross, hauga, veggi, stodir og þil, saudféd ullu sína, hvørttveggja veiktist og féll, eins og nautpeningur, af hor, lida-veiki, brísl-um, innanmeinum og ýmsum meinsemdum; fæck-udu árid 1784, børn mín um 4 þúsundir og 289 og þó nálægt 1000 enn fleiri árid eptir; hross mín um 28 þúsundir, nautkindur mínar um

11 þúsundir og 461, og saudfé mitt um 190 þúsundir og 488 [10]).

Med øllum eldgusum hefi eg ad sønnu fengid megnann skjálfta og tídar ryckingar fyrr og sídar, eins medan þú dvaldir hjá mér, þó hefi eg líka bædi nockru undan þeim og eptir fengid hørd køldu-køst med óstjórnlegum skjálfta, einkum árid 1706 nockrum sinnum, tók þó sumarmála kastid þá yfir øll, þar mørg býli hrundu um Ølves og Flóa, hús og veggir umveltust, matbjørg skémmdist, en kýr og fénadur drápust þarmed sumstadar. Eitthvert lángmesta skjálftakastid frá því eg fyrst bygdist, fékk eg um midjann Augúst mánud 1784, lagdi þad jafnvel út

í hvørn

[10]) Philosophische Schilderung der gegenwärtigen Verfassung von Island. S. 392.

í hvern minn lid og lim, sunnan- og vestan-megin, hrundu bæir margvída, þó mest í Ráng-árvalla- og Arness-sýslum; í þeirri fyrri fell Haga-kirkja og 29 bæir í grunn, og hér um 100 hús ennur; í Arness-sýslu kollhrundu 69 bæir, 64 skémmdust stórkostlega, og hér um 330 hús, ennur enn hvar koll-hrun vard, loskudust mikid; 4 kirkjur féllu þar í grunn, 4 því nær ad auki og 3 brákudust mjøg og skéktust. Eg géck upp og nidur, féck ryckingar, titradi, lék á reidi-skjálsi, bern mín kollverpudust mørg, 3 dóu undir rústum, 1 mardist, mørg urdu litt skémmd úr þeim uppgrasin, mátbjørg og búsgagn spilltist, klettar sprúngu, skridur féllu á hrønnum, jardvegur raskadist, svo vída vard eg hørunds-ber, og féck í kropp minn stór-sprúngur, nockrar 5 álna djúpar, hverar og stødu-vetn hvursu vída, en

ný

uḣ komu upp, kéldur og vatnsdældir þornudu, en sumar urdu ad votnum, botnudu mér ecki koldu-flog þessi til fulls, fyrri enn leid undir Jóla-festu.

Seinast féck eg mikil skjálfta-køst um sumarid 1789, med líku sóttar-ferli, og fyrri, svo undra skadi vard ad, seig þá nidur vestari grund-vollurinn undir Almanna-gjá, hrundi hún vída, en midgrundvøllur hennar hæckadi og breyttist, med hædum, sprúngum og holum, eins hraunid vída fyrir austan og kríngum Þíngvelli, gjár og stígar, og vatnid þar, sem dýptist allt nord-austan-verdt og flódi á land upp, en grynntist vestan-verdt, og þornadi sumstadar. Forduđust hefdíngjar mínir sídan, þeir sem hjá komist gátu, ad sækja þar Alþíng, uns þeir fengu þad flutt og nú aflagt med øllu. Þettann tel eg fyrir þad þann litla skada minn! Hvørt

Hvørt mun mér nú skyldara, eptir svo margar og þúngbærar afstaðnar ólukkur um þína hérveru, að syrgja þig, framliðna Öld! elleg- ar að fagna við útför þína? Að syrgja þig fæ eg ekki af mér, á meðan til alls þessa man, en — fáir vita hvørju fagna skal!

Það sier nú hvørr, sem opin hefir aug- un, að eg fyrir þetta hallmæli þér ekki um of, né heldur skal eg drepa dulur á það, sem gott var af þinni hendi til mín, grimma Öld! því eg ber vottinn á sjálfri mér, og mundi nú þeim, sem þeckti mig fyrri í systra þinna tíð, þykja munur, ef sæu, á yfirbragði, burðum, búnaði og efnum mínum þá eða nú. Svo hafa þín hallæri og ísa-spennur að mér geng- ið, of-viðri slitið fötum mínum, kulda-næð- -íngar

lingar tálgad af mér hold og gjört mig ber-
beinada, sjáar-umrót af útlimum mínum skéllt
og svívyrdt föt mín nedan, eldspýjur steypt út
um mig hrauna-hrúdri, skjálfta-flog afmynudad
mig og hleypt undir skridur og aur ásamt
vatna- og jökla-gángi, stór-fellirar rakad burt
börnum, lifandi peníngi og álnum mínum, ad
eg fæliſt nú ad líta í spegilinn, þegar sólin skín
á hann í logni umhverfis mig, og ad sjá í hon-
um hvörsu eg tek nú ad gángast fyrir. Þó
nægdist þér ecki þetta allt, né heldur véikindi
þau, sem skortur og bágindi, óvedrátta og eld-
gusur af sér leiddu fyrir menn og fénad, því
þú fluttir til mín drepsóttir þaradauki fyrir
hvörttveggja. Á fjár-fellirinn minnist eg sídar,
en nú vil eg nefna til næma sjúkdóma og sér-
legar drep-sóttir, er þú leiddir yfir fóstur-
börn mín. Mann-

Mannskjædar Landfarsóttir fæckudu þeim einkum árin 1701, 1739—40, 1747, 1752, 1767—68, 1773, 1780—81, 1784 og 1785, vóru sumar ad vísu hardinda afleidíngar, eda orsakadar af báginduм, óhollri fædu og íllum adbúnadi, svo sem nockrar þær, er gengu um hardærin, sem ollu þarhjá margvíslegum hor-sóttum, blódsótt, skyrbjúgi, kreppu- og hettusóttum og annari vesæld, einkum heldt allt þetta ákafa fylgd saman í hallærunum 1751—57, 1784 og 85, og bágindi fólks árid 1781, sem þá neyddu þad frekt til ódýrra bygg-kaupa, en leysdu því sekum skorts, ecki nógu grandvarlega ad úrsikta strá þess og belgi, leiddu þar med almenna blódsótt og maga-syki yfir margar sveitir mínar. Líka hafa þá flest børn min brádqvødd ordid, er hardæri gengu, líklega af lélegri fædu, misjafn-



jafnlega verkudum og matbúnum óhollum sjó-faungum, sérílagi hákalls-nautn mikilli ad und-anförnu,-hellst nýlegum, þegar blá-vatn eitt hefir ordid med þesshattar mat ad drecka, og lítid af betri fædu var vid ad lifa. Marka eg þetta ecki síst á því, ad þar urdu börn mín optast bráð-qvödd, á vestan- og nordan-verdri mér, sem sú fæda var í eda nálægt verstedum hellst tídkud, vildi þar og bráð-dandi stundum til, þó árferdi væri gott. Eins hefi eg slæmann grun á miklu áti af nýjum og illa verkudum hási og úldnu hei-lag-fiski, ad þad nefnilega ollad hafi ýmsum spit-elsku eda ödrum veikleika á stundum.

A Ungu-fósturbörn mín legdust nockrum sinnum sérlegar sóttir og veikindi, nefni eg med-al þeirra til Ginklofann í Vestmannaeyjum, sem

sem árlega hefir nú lengi sálgad fjølda þeirra, er fædast. Sèt eg til ad óhollt vatn, stifelld misjøfn fisk-æti og óhentug sjó-fugla fæda fyrir mædur og børn, einkum af silúngi, sem mèr stendur þar hellst stuggur af; olla muni þessum óttalega barna-dauda, og gremst mèr ad litil rækt er enn løgd vid ad minka hann. Á seinni samverusárum ockar sókti þau úngbørn andar-teppa med hósta, svó þau mørg lidu burt árin 1772, 1792—94; en af fár-sótt 1779 hrønnum, af maga-sýki 1781, og af flecku- edur mislinga-sótt 1797—98, mèr fluttri, ad eg meina, med Vestmannaeyja skipi 1797[11]). — Um sømu mundir tóku geysilegar Taksóttir frá mèr fjølda eldri fóstur-barna minna, einkum árin 1772

C —73,

[11]) Minnisverd Tídindi, I. Bindi bls. 437. II. Bindi bls. 118-19.



—73, 1779—81 á nordanverdri mér; 1784 —85 enn fleiri af mér allri; 1788, 1790—91—93 geysadi þó takſóttin meſt, fyrſt 1788, 1790—91 ad nordanverdu og þar ſeinaſt 1793, 1791 og 1792 á veſtan- og ſunnan-verdri mér, eptir þad hún fluttiſt á mig med Styckisshólms ſkipi 1791, og var þá af mørgum mislinga-ſótt haldin, á hverri børn mín hefdu fyrſt hjá mér kennt árid 1644 úr Eyrarbacka ſkipi, og í henni fallid hrennum[12]. Nu miſti eg fyrr-nefnd ár 1788, 1790—93 hér um 587 børn mín af tak-ſótt eda tak- og mislinga-ſótt til ſamans, og var þad undra mikid mann-hrun, eptir ſvo nýlega afſtadid ſtórkoſtlegt mann-fall ádur 1781—87.

Enn

[12]) Bjørns á Skardsá Annálar, Tom. II. bls. 268.

Enn þá hefi eg þó ecki minnst á grimmustu mannudrápin þín, mordgjarna Øld! med bólu-sóttunum, þegar þú ofaná mitt lidna manntjón 1701, bættir Stóru-bólu 1707, og lagdir med henni 18 þúsundir fóstur-barna minna í gröfina, sendir mér þar eptir adra bólu-sótt 1742, þridju á árunum 1762—64, í hverjum eg aldrei feck rétt samantalid missir minn, sem þó vard undra mikill, og loksins lagdir mig nálægt hjarta med þeirri fjórdu og sídustu bólu-sótt árin 1785—87, tók mig þá því nær jafn-sárt missir 1500 efnilegustu fóstur-barna minna í henni, sem mig hellst hefdu mátt adstoda í ellinni, eins og fæckunin á 9,163 þeirra, eda þó fleirum á hallærunum 2 næst undanfarin ár 1784—85, þegar eg ecki med þeim tel 75 bólu-daud seinna árid,



med hverjum eg til vissu misti 9,238 [13]), því í hallærinu létti ásamt á mèr flestum ómegum og ónytjúngum, ørvasa, vanmeta, og óþrifa-kindum, sjúklingum, óhófs-skèpnum, hross-ætum, letimøgum og landhlaupurum, en í síðustu bólunni valdist úr mitt vænsta fólk á blómstrandi úngdóms skeidi, sem afborid hafdi hallærin.

Skal eg hèr þeigja um sóttirnar, eda skal eg nú nockud minnast á nýjann sjúkdóm, er þó optar enn einusinni, sendir einstøkum fóstur-børnum mínum til hádúngar á útlendum skipum? ecki verdskuldar sú og þvíumlík breytni þín vid mig, ad eg med øllu þegi um Fransósinn, sem þú svívyrdtir nockur þeirra med nálægt hefnum mínum,

[13]) Samanber bls. 38 og þar vid 14du skíríngar grein.

um, hvørs vegna eg lengi má skammast mín fyrir þig, hreckjótta Øld! eda vonar þú ad eg fyrir þetta og fyrrtaldar áráſir þínar vid mig, med marghâttudum sóttum, eda fyrir orsakad mikid mann-dráp, fái enn vyrdt þig og elskad, muni syrgja þig, mannskjæda Øld! nú vid útför þína, í stadinn fyrir ad fagna systur þinni? Í þessu tilliti mun eg þig aldrei syrgja, þó — fáir viti hvørju fagna skal!

Mér tekur svo mjeg ad førla um minni, ad eg fæ nú ecki rétt samantalid, hvad margt eg alls misti, eda hvad mér á ný bættst hefir af fóstur-børnum, medan þú varst hjá mér. Þó man eg gløggt, ad mestann fjølda misti eg árin 1701 og 1707, 1742, 1751—59, 1762—64, 1781, 1783—88, 1790—93, og 1797—98,

hvnist í hardrétti, eda bólu- og ødrum -sóttum. Í Stóru-bólu, árid 1707, sofnudu 18 þúsundir; af hallæri, sóttum og í sjó frá 1752 til 1759 hér um 9,744, þau sem mid-bólurnar 1742 og 1762 tóku frá mér, taldi 'eg ecki; árin 1780—81 fæckadi fólk mitt á 8 mánudum um 989, og árid 1784 einúngis Nordanlands um 3,327 á einu missiri med þeim, sem flúdu burt þadan, en 315 jardir løgdust í eydi, því alls dóu þar fleiri enn fæddust 2,244 árid 1784, og þeggr um mig alla er samantalid, fæckudu børn mín þad ár alls um 4,289, en ári seinna um 5,047, þad verda um bædi árin 1784 og 1785 alls: 9,336, flest á missiris tíma [14]).

Ein-

[14]) Eg hefi ad sonnu bls. 36 talid fólks-fæckunina þessi 2 ár, ad hafa verid 9,238, eptir Bisk. H. Finnss.

Einhvørr hinn fródasti fóstur-sona minna [15]) hefir annars talid: ad manntjón mitt frá 1779 —85 reiknast megi til 10 þúsunda og 354, hvggs eg þar medtalda 75, sem bólan tók seinasta árid, en eptir þad fæckadi hún 1786—87 minum 1,425 únglingum, og alls í 3 árin 1,500, eins og eg bls. 35 minntist á, en tak- og mislinga-sóttir 1790—93 hér um 587 þar á ofan, mun eg þó enn fleira mist hafa 1797—98 af únga-barna flecku-sóttinni, er eg umgat bls. 33, og tel eg þó ecki hér med annann missir minn á seinni

C 4 árun-

Finnsf. um Mannfæckun af hallærum §. 30. bls. 157, en eptir mannfæckuninni, sem nefnd er sjerílagi í bádum stiptum sjerhvørr þessara ára á somu bls þar, í 256 sk-ringar-grein, reiknast mjer hún verda 9,336, edur 98 mønnum meiri.

[15]) Biskup Dr. H. Finnsson á fyrrnefndum stad §. 31.

árunum, svo sem eldri börnin, er þá druknudu[16]) og ennur fleiri.

Fólks-fjøldanum vard, sem líklegt vár, ecki lítid ad hnigna vid Stóru-bólu mannhrun á 18,000

| | |
|---|---|
| vid mannfæckun hallæranna frá 1752—59, um | 9,744 |
| hallæranna frá 1779—85 ásamt bólu, um | 10,354 |
| Baradauki af bólu 1786—87, um | 1,425 |
| vid takſóttirnar 1790—93, um | 587 |
| Gétſki eg nú á, ad barna-flecku-sóttin 1797 til 1798, fyrir hver mig enn vantar greinilega lista yfir fædda og dauda, hafi burtu kippt hér um | 600 |
| | 49,710 |

og

[16]) Sjá hjer ad framan blſ. 16, um ſkiptapa sídan 1785.

og ád sídan 1785, til þess þú qvaddir mig, hafi drucknad fleiri enn 300 manna, þá verda þad fullar 41 þúsundir fallinna manna, og med því, sem bólu-sóttirnar 1742 og 1762 burt-tóku, fleiri enn 41 þúsund fóstur-barn, sem þú med hallærum, stór-sóttum og ymislegu ofriki hef-ir frá mér hrifsad.

Svo illa, sem systir þín, 17da Öldin, hafdi vid mig skilid[17]), og svo greylega, sem þú árid 1701 heilsadir mér siálf, átti eg þó árid 1703



[17]) Seinasti fiórdúngur seytjándu Aldarinnar var miøg svo hardur med mannfalli 1674-75 og eptir 1684, eins 1699 og 1700. Seinasta árid drucknudu Þaradanki 151 í Gullbríngu-sýslu; í Góu-lokin 129 þar af á eyktar-tima, en 22 undir Jøkli um sama tíma-bil.

1703 enn þá eptir 50 þúsundir og 444 fóstur-barna. Ad lidinni Stóru-bólu árid 1707 [18]), nádi tala þeirra vart 34 þúsundum; á nærstu 42 árum fiölgudu þau samt aptur svo ört, ad árid 1750 var Stóru-bólú skadinn mér bættur; eg hafdi þá jafnvel fleiri fósturbern grædt, enn árid 1703 vóru til, nefnilega: 50 þúsundir og 700 alls. Hallærin 1752—59 sviptu mig strax þar eptir, eins og fyrr segir, 9,744, bólan árid 1762 og Hekluhrunans afleidíngar árin 1766—68 med sóttum og mannfellir, mörgum faradauki, þó fundust enn hjá mér árid 1769, þegar talin vóru, 46 þúsundir fóstur-barna og 201 ad auki. Vid byrjun seinustu

[18]) Hún giørdi hier líklega mest mannfall í einu, sídan Svarta-dauda árid 1402, og drepsóttina 1495-96.

ustu hallæranna árid 1779, vóru þau aptur ordin 50 þúsundir 212 ad tølu, eptir því, sem árlegir listar yfir fædda og dauda frá manntalinu 1769 til 1778 votta; nádist sú tala árid 1778, en 50 þúsunda talan tók strax ad skérdast árid 1780, þó vóru børn mín enn árid 1783 undir Skaptár-jøkul gosid til vissu 49 þúsundir.

Um ockar samveru-tíma hefi eg eptir þessu, eins og þú sjálf veitst, þrisvar hast fleiri enn 50 þúsundir fóstur-barna, nefnilega: árin 1703 og allt ad Stóru bóln 1707; árid 1750 og árid 1779; í fyrsta sinni nádi tala þeirra sér aptur á 42 árum eptir 18 þúsunda fæckun arid 1707; í ødru sinni á 29 árum; eg gét ecki med vissu sagt, eptir hvørsu mikla mannfæckun, þó eg viti, ad hún vid hallærin 1752—59, bólunna

1762

1762—63 og manndauda 1767 fram á 1768, vard mikil.

Eptir Mann-fellirinn mikla af seinustu hallærunum og bólunni 1780—87, héldt eg ad sønnu eptir einum 38 þúsundum og 667 þetta sídast nefnda ár; en 4 árum sídar, eda árid 1791 vóru fóstur-børn mín þegar ordin 40 þúsundir 839, og 4 árum þar eptir, edur vid árslokin 1795, teldust mér þau 43 þúsundir 357. Þó mig nú skorti greinilega skírslu um fjølgun þeirra sídan, eda um seinustu 5 ár ockar samveru, mun eg þó nærri géta tølu þeirra nú, er þú qvaddir mig, þegar eg íhuga: ad árid 1794 fjølgudu þau um 782, árid 1795 um 986, en seinustu árin 5 vóru í Skálholts-stipti, eptir jafnadar tiltølu, hér um 500 fjølgud hvert ár,

og

og til þess þú qvaddir mig nálægt 2,500. Sama þykir mér líklegt um Nordur-hluta minn, svo ad viss er eg um, ad ecki tel eg um of til vidbætirs, þó eg reikni ad á hvørju ári af þinum seinustu 5, hafi mér bættst nálægt 700 barna til uppfóstrurs, ad minnsta kosti hér um 3,400 alls í þau 5 ár; tek eg þá medal-tølu fyrir Nordur-stipti mitt forna, af þeim 5 árum 1791—95, og reikna þar 224 børnum fjølgad á sérhvørju því ári, verda þá í 4 ár eptir 1795 þar vidbætt med sama reikníngi hér um 900, því 5ta árinu vil eg, til meiri varúdar, sleppa úr; vegna barna-daudans af Flecku- edur Mislínga-sótt edur og svo nefndri Skarlats-koldu 1797—98, og ecki telja uppá, ad um þann árstíma hafi þar fólk til muna fjølgad, uns eg visstara veit. Mér hafa því allstadar ad bættst

hér



hér um ; ; ; 3,400
í 5 árin 1796—1800, hvørja eg reikna
saman vid ; ; ; 43,357
sem, eptir ádursøgdu, bls. 44, vóru til
árid 1795, svo ; ; 46,757
eda hér um 46 þúsundir og 700 fóstur-børn ætti
eg nú ad annást vid komu systur þinnar, nít-
jándu Aldar.

Vard mér þanninn miklum mun skárri
qvedja þín enn koma, framlidna Öld! máské
betri qvedja þín enn koma yngri systur þinnar,
um hvørja eg má med sønnu segja: fárr veit
hvørju fagna skal!

Landkostum mínum hnignadi mjøg, eins
og ásýnd minni um ockar samveru-tíma, þar eg
er

er nú ordin svo beinaber og vedurbarin, hwist skollótt af jökla- og ísa-legnm, eda svidin og hraunsteypt af jard-eldum, sandorpin af eld-gusum fjalla, vatna- og jökla-hlaupum og sjáar-ágángi, hrufluð af skridu-föllum og út-svivyrdt af aura-ledjum. Snjó-hvíta koll-húu ber eg æ, ecki þó til vidhafnar, því eg vildi hana fegnust aldrei bera, en hún hefir oftlengi nidrí kolli mínum tollað mér til vansa, þó med annað slag sé, enn gulhvíta húán, hverja rusta-dómur lætur til adhlátars á stundum tolla nidrí kollum óvanda barna minna á mannfundum í einhverju vidhafnar skyni, en til bryxlis mér. Sét eg til að landkostir mínir muni nú engann framar af útlendum merkis mönnum áfýsa að flytja bygd sína algjörlega til mín, eins og þeir fýstu fjölda þeirra

fyrr-

fyrrum [19]), því mér vyrdist, sem egin børn mín meti þá nú harla litils; svo litla rækt løgdu þau nú, eiñkum á enum seinni árum þínum, vid land-yrkjuna, ad mér er raun ad rádlagi sumra þeirra; fjøldi yfirgaf góð-sveitir og flycktist út ad sjó sydra og vestra, lagdist þar í óhóf og ómennsku, vard mér til minkunar, mædu og útørmunar, ultu þau svo út af høpum saman fyrst allra í hallærum. Því løgdust mørg býli mín og í eydi, flest urdu lélega setin og yrkt, og penings-fá af fyri-vinnuleysi. Af øllu því leiddi dýrtíd mestu og allskonar óreglu. Ecki gættu þau børn í tíma sannmæla Karla vid Ingólf Arnarson fordum [20]): til ílls fórum vér

um

[19]) Egils Skallagrímssonar Saga, 25. Kap. Eyrbyggja, 3. Kap. Landn. b. I. P. 2. Kap.

[20]) Landnáma bók, I. P. Kap. 8.

Kalkverkan[103]), en eckért þÿddust þau af því, ellegar færdu sér í nyt, né heldur gêfna góda ávísun um Lérepta-bleikingar[104]), Límbrúkun og þess tilbúning[105]), fyrir hvad, einkum Húsblas-límid Landbústjórnar Félagid danska hefir þó álitlegum verdlaunum heitid í mørg ár; sárnar mér þad einkum þessvegna, ad mikil nægd fellur hér jafnast til af gódu húsblas-efni, sundmøguin, sem misjafnlega hyrdast og notast allvída, en øll adferd vid húsblas-gjørdina var þeim þó svo ýtarlega kênnd[106]). Sømu afdrif fengu ønnur heilrædi med Ljáa-

103) Sjá sama ritksfund hiernun í IX. B.
104) Sjá Assessórs B. Grøndals Rit í IX. B.
105) Sjá Próféss. Ol. Olafsson um Límtegundir í VI. B.
106) Sjá sama manns Rit í IX B. og Justitsráds Müllers í XI. B.

Kjáadengíngar á útlendra hátt [107]) til hlýdar vid mínar litlu skógar-leyfar og til framqvæmdar gódum heyskapi, svo mig skal ei furda, þó vinir mínir þreytist umsídir, ad leggja þeim rád, er eckért þvíumlíkt heyra vilja né hagnýta, en megla þó æ yfir megurd og ørbyrgd minni. Hefdir þú annars, framlidna øld! gjert þig eins fræga af sásri vidleitni ad laga hvad ábótavant var medal barna minna, ad reyna med náqvæmni og prófa þessi og ønnur rád mér til heilla, ad halda vid stedugri framqvæmd í byrjudum gagns-uppátækjum, ad vernda sérhverja loflega tilraun mót vanvitsku og øfundar nidurdrepi, eins og þú efalaust ert kunn ad vidburdum ad finna upp og leida fyrir sjónir margt þad, er mér mátti koma ad heidri og

H haldi,

[107]) Sjá Prófess. O. Olafssonar Rit í X. B.

haldi, þá væri mér meiri sæmd að þínum verðskuldudu *Eptirmælum.*

Ecki má það samt af þér draga, að ýmsar húss-ydnir framadir þú og efldir hjá mér. Mér til hamíngju sá eg snældurnar fæcka, en rocka aptur innleidast, þó skot-rockurinn sé mér aptur horfinn að mestu. Garnspuni varð til góðs gagns um tíma víða almennur, einkum á norðanverdri mér, og yrdi það framvegis þar og víðar, þegar börn mín sæu sér hagsmuni að í kaupverdslun. Uppbvatning fyrstu og ávísun hérum má eg, eins og þá ardsömu dönsku vefi, þacka Landfógeta mínum Skúla Magnússyni [108]), er leiddi klæða-vefsmidjuna inn í Reykjavík, en þó einkaulega gjafmildi

[108]) Sem gaf út prentada ávísun um Garnspuna í 4to.

mildi míns ódaudlega Konúngs Fridriks V, er ſkenkti mér efni til þeſſara og annara útvega minna, var þad ecki ſmáræði, er hann lét vid mig rakna af hendi til vidreiſtar mér þegar hann gaf til nýu innréttinganna í Reykjavík 61 þúſund og 300rd, og Landfógéta Skúla auk þeſſa 4800rd [109]). Og nú ſpyr eg med undrun: hvar ſjáſt nú menjar alls þeſſa? Hvad er ordid af allsháttar vefnadar tilfæríngum, farfa-verki og øllu þeſſum innréttíngum vidkomandi, reipſlagara-ſkinna-verkunar og ødrum handverkum, er, eptir ſtadfeſtri

H 2 ſam-

[109]) Sjá Deo, Regi, Patriæ, blſ. 321. Note R. en í þeirri Summu vóru líklega Duggurnar Fridriks-gáſa og Fridriks-óſk ſem nýju innrjettíngarnar fengu og Próſaſtur Gunnar Pálsſon þackadi í ljódum.

samþyckt þess íslendska Félags [110]), reynast attu og setjast í verk, og sem ásamt duggu-fiskirii, duggu-smídi og mørgu fleiru, svosem: jardar-, akur- og skógar-yrkju, var tilreynt med? [111]) sundurþyckja og Prócessar hafa því øllu gjøreydt og lagt leyfarnar í hnifra kaupskapar-félaga hendur, en — mér er þad alltsaman gjør-mist, nema framfør nockur barna minna og mun betri þecking síðan á spuna og vefnadi, edur medferd rocka og vefstóla, sem þó um þessar mundir koma þeim ad minna haldi, enn eg vildi, vegna kaupskapar- og annara breytinga.

Enn ad sídur fengu børn mín vid allt þetta þó meiri þeckingu og reynslu, og hvorts tvegg-

110) Sjá kóngl. stadfestingu af 4da Jan. 1752 þess samþyckta §. XIII.-XVI.

111) Sjá Deo, Regi, Patriæ, bls. 386-94.

tveggja hefir þvî leidt og mætti framvegis leida þau til enn betri eptirþánka, greindar og á=rædis og fæcka þeirra hleypidómum mót nýum framfarar vidburdum. Af annari nýbreytni sumri, er þú færdir mér, vard og gódur hag=ur. Ur þvî î óefnin var komid og þau sleppt hefdu vîda minni eldri og betri búnadar=reglu, ad komast af án mjølkaupa, en tóku svo mjøg ad freka þau sér til útørmunar, var þeim þó hagur ad kaupa heldur fyrir sama verd rúg= en mjøl=tunnu, edur 18 fjórdúnga rúg=tunnu ad minusta kosti, î stad 15 til 16 fjórd=únga, er mjøltunnur jafnast halda, en mala heldur sjálf sinn rúg, og fá svo betra mjøl, og þartil vóru handqvarnir þeim hagauleg=ar. Innleidsla þeirra vard skjótt almenn, þvî Kóngur minn gaf î nockur ár verdlaun fyrir

tilbúníng þeirra hjá mér og sendi í fyrstu 200 pör handqvarna géfins 112). Um betri tilbúníng þeirra reit ásamt Kaupmadur Busch 113), og Sýslumadur Bjarni Einarsson um Vatns-mylnur 114), sem þarvid sumstadar innleiddust og tóku hinum mjøg svo fram. Sástú og fáeinar Vind-mylnur hjá mér, en færri urdu þó ad gagni, flestar vinda-smidi. Litlar og mér yfrid heutugar Þófara-mylnur, en sárfáar komu og á gáng. Skraddara, skómakara, múrara, timburmenn, snickara, beikira, jurtagardsmenn, málara, handskamakara, sástú ad eins ad nafninu, en flestir hourfu

112) Sjá Justitsrád C. Pontoppidans Handels-Magasin for Isl. 2en Deel Pag. 24-30.
113) I Isl. Lærd. L. Fel. R. 4. B.
114) Ritid útkom í Kaupmannah. 1781.

hvurfu þér aptur eda heiktust vid handverk sín. Prentara átti eg lengi, en gódir bókbindarar bættust mér. Gull= og sylfur= og á járn smidir fjølgudu, og fengu heutuga vegleidslu, þeir fyrstu um gyllingu 115), þeir sídari um járn=smídi og stálherdslu 116). Frá Báta=smídi og veidibrellum Marstrendinga var þér sagt 117), og af Heyhlødu=bygging= um 118), en vønduð Bæa=byg ging synd 119). Á eg ad nefna rádin um Grenitrés=ræktun hjá mér 120)? minna tel eg miklu í þau varid

H 4 enn

115) Sjá Gullsmids Sig. Þorsteinssonar rit í Isl. Lærd. L. Fel. Rita I. B.
116) Eiríks Bjørnssonar rit í III. B.
117) Af Kammersecret. O. Olavius í II. B.
118) Af ónefndum í XII. B.
119) Af Prófasti Gudlaugi Sveinssyni í XI. B.
120) Sjá þar VI. B. edur Landfógeta Sk. Magnússon um Trjevøxt.

enn Sveitabónda sama sonar míns, með hans Aur Viðbætirum 121), eða Athugasemdirnar við hann 122); minna máské í tilliti til búnaðar-hátta minna, enn í Olavii Rit um gras-tegundir og fóður 123), eða Markúsar Prests Ejólfssonar Heyannir 124), ellegar Sæmundar Prests Hólms Meltak 125), og lángtum minna enn í Olavii qver um Litunar-gjörð 126), Smjörs- og Osta-búnað 127). Að eg nú ei nefni Bjarna Sýslu-
manns

121) Sjá sama í IV, V. og VI. B.
122) Sjá Sýslum. Magn. Ketilssonar Athugas. í VII. B.
123) J VIII. B.
124) J II. B.
125) J I. og II. B.
126) Útkomið í Kaupmannah. 1786.
127) Útkomið þar og 1780.

manns Einarssonar nýtsama rit um Terra-neufs og Klippfiskis-verkun 128), Jóns Sýslumanns Jacobssonar Mjólkur-not 129), Prófessor Ol. Olafssonar Matreidslu-Mjólkur etc. Ølbruggun, og Braudbøkun 130), eda Frú Assessorinnu Mørtu Maríu Stephensens Matreidslu Vasaqver 131), og fyrir utan ýmsar leturgjørdir, er eg hér ad framan hefi ástundum tilnefnt, tel eg mínum Landbúnadi mikla markverdari gêfin heilrædi og bendíngar um Vatns-veitíngu af Mýrum, Heyfordra-búra stofnun og Heyskapar míns
H 5 gagns-

128) Isl. Lærd. L. Fel. R. III. B.
129) S. XI. B.
130) S. XII. B.
131) Utkomid í Leirárgørdum 1800.

gagnsmuni í samburdi vid Kornafla 132), en þó einkum sama vyrdta vinar loflægu tillögur um Almennings Vista-búr til afléttirs húngurs naud í hallærum 133), lagdu fleiri vinir minir þá hid sama til 134) og þó fleiri ádur fyrri 135), en — litid hafa allir þessir vidburdir vina minna i þessa tilliti enn fengid útrétt; eg hefi ratad hvert mótlætid af ødru med

132) Sjá Amtmanns Stephans Þórarinssonar rit hierum í konúngl. ísl. Lærd. L. Fel. T. II. XIII. og XIV. B.

133) Sjá sama Tanker om Uaar og dets Virkninger etc. Kjøbenh. 1792.

134) Sjá l. Verkefni Lærd. L. Felagsins í þess Rita XI. B. bls. 296-305.

135) Nefnil. einna fyrstur Barón Hafsser eptir Deo, Regi, Patriæ, bls. 338. fyrir 1756; svo Anonymus

med hneckir margs þess, er þeirra og annara sona minna og vina margfeld góðvild gat upphugsað og uppástúngið mér til hagsmuna. Bundna kauphøndlanin og ýmsir þeir, er henni ar anda fylgdu fyrr og síðar, hafa kollvarpað mínum annars svo vonarfullu nýu innréttingum og flestu ødru með lángvarandi óvild og vidleitni ad kéfja sérhvørja framfarar vid-

mus i Anmærkn. til Udtog af J. Snorresen om Islænderes Agerdyrkn. indført i Oeconom. Journal 1758 Pag. 94, síðan Stiptamtmaður O. Stephánsson 1771. (sjá hans korte Underretning om den islandske Handels Førelse fra 874 til 1788 Kjøbenh. 1798. bls. 49-50). þareptir Stiptamtm. Pork. Fjeldsted 1783 i hans Prisriti om en nye Handels Indretning udi Island, Kjøbenh 1784 og 1787. Biskup Dr. Hannes Finnsson, sjá hans rit um Mannfækkun af Hallærum bls. 208. nótu 384.

vidleitni sona minna mér til vidreistar; þad er nægilega á prenti í ljós leidt í fiølda merguin ritgjørdum, af hverjum eg þó þyrdi ei hér ad nefna fleiri enn míns Amtmanns Magnúsar Gíslasonar uppáskrift þann 6ta Octóbr. 1757 á Supplicatsíu embættismannanna þann 12ta Septembr. sama ár, eins og hún sjest í míns Stiptamtmanns O. Stephánssonar Riti: Kort Underretning om den islandske Handels Førelse fra 874 til 1788, er útkom í Kaupmannahøfn 1798. bls. 55—57. í nótu r), en vísa þarhjá til nýnefnds Rits bls. 25 —26 og í stuttu máli til þess §. 5.

Undireins og eg þacklát vidurkénni strekada vidleitni margra minna ad hefja hag minn, medan þú dvaldir, gremst eg þinni øfundsýki gégn þeim og mér, þú ágenga og lausráda

18da öld! og syrgi þig ecki, en kys mér samt, ad hyngri systir þín færi mér marga jafnduglega og mér til verndar jafn-skörugleg vini og verndarmenn, en færri ösundsjúka. Eg vil um sinn lifa vid vonina, þó fáir viti hvörju fagna skal.

Þad er eitt medal annars, sem eg má hrósa þér fyrir, framyfir systur þínar, ad engin þeirra lét nálægt því eins mikid og þú af hendi rakna mér til vidreistar eptir eydileggjandi hardæri og í naudum, og engin vardi þvílíku, sem þú, til vidburda ad fá mér blómlegann búning. Þad verdur ecki allt talid af mér, sem mínir mildu fedur Konúngarnir, einkum V. Fridrik og VII. Christján svo örlátlega, lögdu til þess, og enn sídur þackad, sem ber, því ætti eg allt ad telja, sem í samburdi



burdi við annað meira, mest nú smálegt, yrði það undra mikið mál. Eg vil því hér að eins drepa á feðurlega umönnun þeirra við mig um og eptir miklu hallærin milli 1750—60 og eptir 1780, þó eg hér ei geti talið mér eginlega veitt, hvað þeirra mildi, jafnframt í tilliti til míns eymdar=ástands, optsinnis eptirgaf og skénkti ýmsum kaupverðslunar félegum, sem, ecki síður enn eg og ástundum máské einsömul, hefðu notið af.

Arið 1756 gaf Köngur minn Fridrik V. mér 3000 tunnur matvöru, til gésins útbýtingar og afléttirs geysilegs hallæris þá. Sama árið sendi hann mér Barón Hastfer með 10 engelska hrúta til betrunar minu fjárbragði 136), en— spönsku hrútana seinna vil eg ei

136) Sjá Prófasts Gudlaugs Sveinssonar Vatnsfjarðar Annál síðari.

nefna. Nockru ádur hafdi hann, sem ádur er sagt bls. 115, gèfid nyu innrèttingunum 61 Þúsund 300rdli, auk Þess er Landsógeti Skúli fèck. Litid tel eg mig stodad hafi kostnadurinn um sömu mundir og Þar eptir til byggínga ymsra múrhúsa hjá mèr svosem á Bessastödum, Nesi, Videy, Arnarhóli, hvar Tuckthúsid, stiptad 1759, á Kóngs og minn kostnad, átti ad hegna og sæcka vömmum óráðvandra og umgirda æru, líf, eigur og sidferdi manna, en aldrei fyrr nè sídar komst fullnærri Þessu augnamidi; skálkar sælduft Þad ei, heldur hrósudu Þar áftundum vist, nádum og frelsi, og sumir næ ldu Þar dáfallega. Þessi Þyrnir míns auga, hefir mèr ordid kostnadar og mædusamur, og horfir Þó svo, ad hann muni mig enn sárar stínga framvegis, en ei til batnadar

í bráð

í bráð, eða til viðréttingar laganna hnignandi heiðri. Ecki tel eg mér færi stórum fram við nýja Skólahúsið, eða nýju Múrkirkjuna í Reykjavík, heldur enn við Múrkirkjuna í Vestmannaeyum, eða þá sem reist var á Hólum frá 1757 til 1763, af ølmusum Danskra og Norskra kirkna og 300 til 400rdla. minna egin barna árlega í 6 ár 137), sé það satt, að kirkja þyki þar nú óþørf eða óhentug. Þar á mót ber mér að þacka Kóngslepsið þann 18da Martsí sama ár, eptir hvørju ølmusum var safnað allstaðar í Danmerkur og Norvegs kaupstøðum til viðréttingar Hóla Biskups-

137) Sjá sama Annál og Deo, Regi, Patriæ, bls. 322 nótu e. samanber og æfi Biskups Gísla Magnússonar prentaða með Líkpredikun yfir hann, Hólum 1779 bls. 28-29.

upps-stóli og skóla; af þessum medtók sá nafnfrægi Biskup í Sjálandi Dr. Balle árid 1783 leyfar, frek 900rd.[138]) af formanni sínum, þeim góda Biskupi Harboe, en nú er eg viss um, ad med þángad til og sídan áfellnum rentum; á eg þar ytra á rentu nálægt því tvöfaldt, svo hafa þessir peníngar varid undir þeirra umsjá mér til góds; og yfirmenn minir hafa árid 1797 sameiginlega rádlagt, ad til lærdóms framfara um mig alla, verdi þeim varid [139]). Seinna vil eg minnast nockud á gjafmildi Kónga minna og annara vid Presta mína, en flýta mér, nú ad nefna födurlega

 hjálp

[138]) Sjá Cancellie-bref af 24da Sept. 1796 til Stiptamtmanns, Biskupa og Amtmanna hier um þetta, og Biskups Dr. Balles Pligtanker 1793. S. 489-92.

[139]) Sjá nefndra svar uppá Cancellie-brefit 1797.

hjálp og umhyggju míns nú ríkjandi mildasta Konúngs VII. Christjáns, í seinustu miklu hallærum 1785. Litid þókti honum þá í fyrstu ad hafa gêfid 3oordli. til byggingar eydilagdra jarda í Þingeyar eda fleirum nordur- og austur-lands sýslum; litid ad hafa 1783 um haustid sendt hladid skip med gêfins tymbur og kornvorur til Hafnarfjardar til hjálpar þeim naudstoddustu húsvilltu, er flúid hofdu undan jardeldsins yfirgángi [140]; litid ad senda 80 lesta tymburfarm á Eyrarbacka 1785 til somu hjálpar þeim í Arnesss- og Rángárvalla-sýslum, sem miklu jardskjálftarnir 1784 hofdu svipt bæum og eignum og naud-

[140]) Sjá M. Stephensens Beskrivelse over den nye Vulcans Ildsprudning 1785 Form. bls. VII.

naudstaddir vóru [141]); litid ad. hafa sama ár skipad, ad særa 2 skipsfarma af fiski ad vestan til míns Nordurlands þurfa-manna, og 1 sunnan frá mér til austfjarda, hvørr flutnings kostnadur hljóp til 1,762rd. [142]) og ljed 2 kaupfør til annara innanlands naudsynja-flutnínga; hann lét auk alls þessa mikinn fisk á høfnum eptirstanda bjargarlausum til forsorgnnar; flytja norskann skipa-vid á Hafnarfjørd og Olafsvík handa slúnu sveita-fólki, ala ønn fyrir þess hús-nadi; baud ad veita þeim, er ei gætu borgad, lán í kaupstødum á hellstu lífsnaudsynjum þeirra; leyfdi fyrst þann

J 2 lodn

[141]) Sjá kóngl. Urskurd þann 9da Febr. í 5ta B. ísl. Lærd. L. Fel. R. bls. 291.

[142]) Sjá Jústitsr. Pontoppidans Magazin for almeennyttige Bidrag. II. Deel 1793 bls. 359.

10da Decembr. 1783 og aptur þann 9da Febr. 1785 ad safnad væri gódfúsum ølmusum um øll ríkin, til adstodar þeim, er í vesæld komust vid jardelda og landskjálfta þessi árin; gaf þann 15da Júní 1788 Íslands kauphøndlun 57 þúsund 462rdli 48 ß. til skada-bóta fyrir útsendingu árid ádur til mín, hellst til míns Nordurlands og Austfjarda og nockurs hluta Sudurlands, á yfrid miklum matvørum til bjargar børnum mínum [143]) Samþyckti þann 22ann sama mánadar og árs, ad kornværu sending þá til mín yrdi aukin til 26 eda 28 þúsund tunna [144]), og baud þann 13da Júlí sama ár ad senda Nordurlandi auka-forda af

3,499

[143]) Sjá Sama blf. 349-50 og sama Felags R. Bindi 5ta blf. 293.

[144]) Sjá sama blf. 291.

3,499 tunnum kornvern, er kostudu Hann 18 Þúsund 360rd. 72 ß. [145]), hefi eg þó enn ecki talid 700rd. árlega, sem þessi minn mildasti Fadir örlátlegast gaf í nockur, eg hygg 6 ár, til vidhalds Hóla Biskupsstóli og skóla, um sönn mundir, ne svo mikid sem nefnt, adrar Hans eldri og yngri óteljandi Nádargjafir, mér og mínum nærlngar-útvegum til vidrèttingar, hvad og yrdi hèr hellst ofslángt umtals-efni [146]), þar eg og sídar fæ framar tækifæri ad drepa á fedra minna staklegu nád vid ymsar

 slèttir

[145]) Sjá Pontoppidan á sama stad.

[146]) Um ýmsar nádargjafir Kónganna Fridriks V. og Christj. VII. bera þau nafnkjendu Rit: Deo, Regi, Patriæ, Forberedelsen til Olavii Reise, og konúngl. ísl. Lærd. Lista Ritin ásamt Lög-þíngisbókunum, augljósust vitni.

stéttir sérílagi mér til góds, svosem: Kénni-dóm, Læknara, Kaupmenn og fleiri, medal hvørra eg sist gleyma ætti ad þacka Hans stak-legu náð øfan á alla adra, eptir lidin hallæri ad skenkja 500rdli, ad mig minnir, til upp-réttingar farfa-verks og þófara-mylnu á nordan-verdri mér, til hvørs mørg fleiri børn mín løgdu og sina skérfi. Hans náð og þeirra góðvild var hin sama, þó allt þetta yrdi ad engu, mér til óbætanlegs ángur-meins. Hefdu menn látid sér nægja litlar þófara-mylnur, eins og hér fannst liklegt dæmi uppá, eda jafnvel einsamalt tunnu-þófid, sem fyrri, mátti farfa-verkid, sem mér var mest-árid-andi af øllu og hvørs eg lengi sárt sakna, vel komast á gáng, og børn mín mørg þarmed fri-ast frá útdráttarsømum, en óvøndudum klæda-

kaup-

kaupum med tímanum, og smá-venjast vid ad vinna sér þau flest sjálf; en — hér uppát møgur Khr pá feitu, stóra þófara-mylnan farfaverkid, af því kostnadurinn og var heldur seint samanreiknadur.

Ad dæmi Kónga minna breyttu mínir orlátu Brædur í Danmørku, Norvegi, Furstadæmunum, og nockrir egin synir mínir, er megnudu. Það skal votta um aldur og æfi miskun þeirra og mannkjærleika, sem þeir orlátlegast skenktu mér til vidréttingar 1784 og 1785, já fríviljuglega skenktu hvørr í kapp vid annann, þarsem Collectu-gáfan frá høfudstadnum Kaupmannahøfn eginlega til Skaptafells-syslu, vard . . . . = = 9,704rd 25½ ß. en frá ødrum ríkjum og løndum míns Kóngs, til mín

| | | |
|---|---|---|
| allrar | 31,831 | 52 |
| þad vóru alls | 41,535rd. | 77½ ß. |

Af þessu vóru mér til góda útilátin og brúkud 9,706rd 79½ß. til nýárs 1798, þó átti eg þá eptir á rentu standandi, og med þángad til vidlegdum afgángs rentum [147]) aukinn; Hefud-stól til 47,822rd. 53 ß.

Í því fór mér til vissu fram, um þinn hérvistar tíma, mín framlidna! ad aldrei átta eg fyrri peninga-summur á rentu standandi. Margir urdu til ad tolla mér, flestir af gódvild, nockr-

[147]) Sjá Lögþíngisbókina 1798 bls. 40-41, hvar þessi reikníngur gjörist enn vissari, enn í Instits-ráds Pontoppidans Magazini for almeennyttige Bidrag II, Deel S. 349-50.

nockrir af nauđúng. Eg vil telja fleiri af hinum fyrst, svo sem mér kjærri, og undir eins ecki gleyma þess vinar mins, ást og framqvæmd, sem máské eginlega vard fyrsta orsökin til þessarar drjúgu Collectu, eg meina hér forn=vin minn Jústitsráđ Carl Pontoppidan, sem hann 1ta Octóbr. 1783 sókti hjá Kongúngi minum um leyfi Hans til, ađ henni mætti safna [148]).

Ađ bæta úr bágindakjörum mins Kennidóms létu margir sér hugarhaldiđ um. Minn frægi Biskup Dr. Finnur Jónsson útvegađi þeim fátækustu Prestum í Skálholts=stipti árlega 200rdla til crónur reiknađa náđar=gjöf af Kóngi minum þeim sæla Fridrik V. áriđ 1754, þá þessi Biskup minn vígđist, hvorri ept=

I 5 ir=

[148]) Sjá hans Magazin for almeennyttige Bidrag II. Deel S. 325 í nótu.

irmadur ríkisins Christján Kóngur minn VII. enn framhelldur [149]); semuleidis framheldur hann enn síns kónglegá Födurs Fridriks V, árlegu gjöf 100ordm-cróner til fátækustu presta-kalla í Hóla-stipti, sem minn sæli Biskup Gísli Magnússon einninn útvegadi þeim, eptir þad hann vigdist til Biskups árid 1755 [150]), og auk þessarar árlegu nádar-gjafar, 700ordli til cróner, sem árid 1757 vóru á Flugumhrar presta-stefnu útskiptir til hjálpar fátækustu Prestum og prestagørdum, sem þá høfdu mest misst í hallærinu [151]). Hann ávann þad og, ad Kóngs-bref

[149]) Sjá Æfisøgn Drs. Finns Jónssonar, Kaupmannah. 1792 blš. 18.

[150]) Sjá Líkpredikun yfir Biskup Gísla Magnússon, Hólum 1779 blš. 29.

[151]) Hvert þessir 700ord. hafi verid partur af Collectunni sama ár, hvørrar gietid er hjer ad framan blš. 128, veit eg ei med vissu, þó þad se líklegt.

bréf vat útgéfid þann 18da Apr. 1761, ad allir Prestar, sem ei hefdu embættis adsetur, edda ættu bújörd í sókn sinni, skyldu fá útvalda hentuga bújörd. Minn sárt og lengi syrgdi Biskup Dr Hannes Finnsson birjadi og sitt Biskupsembætti, med því ad supplicera þann 17da Maí 1777, sám dægum eptir þad Hann vígdist í Kaupmannahøfn, til konúnglegrar Hátignar um adstod fyrir fátækar Prests-eckjur míniar, og fékk þarmed útvegad þeim árlega 200rdli í Skálholts og 100rdli í Hóla-stipti af Póstkassanum, sem nádar-giøf [152]). Kóngsbréf 2 um tillög af betra lagi Presta-køllum til útbentra fátækra Presta, útgéfin þann 14da Febr. 1705, léttu og nockud undir naud þessara,

[152]) Sjá Æfisögu Biskups Dr. Hannesar Finnssonar, pr. í Leirárgørdum 1797 bls. 24-25.



ara, einkum síðan Kóngsbréfin þann 7da Maí 1735 og 5ta Júní 1750 §. 7. gjörðu sesnuun þessara tillaga greiðari. Fátækra Presta-ekkna kjör bætti og Kóngsbréfið af 5ta Júní 1750, sem áqvarðar þeim Pensiónir af Presta-köllum, bújarðir og aðra aðstoð.

Biskup O. Tidemann í Christjansandsstipti í Norvegi glæddi svo góðvild síns stiptis Geistlegra til mín, að þeir 1775 og í mörg ár þareptir lögðu saman og sendu álitlegann peníngastyrk minum fátækustu Prestum, hvörn skenk Prófastur Gunnar Pálsson og Kolbeinn Prestur Þorsteinsson í allra nafni þökkuðu í látínskum ljóðmælum [153]). Seinasta gjöfin var til

[153]) Sjá þeirra Charis Islandica 1776, og Dr. H. Finnsson um Mannfækkun af Hallærum bls. 176 nótu 281 b).

til Presta í Hóla-stipti sérílagi, hvörja Stipts-prófastur Mag. Hálfdan Einarsson og Jón Prestur Jónsson einninn þeckudu í ljódum 1782 [154]), hvör minn sártsaknadi mikli ástvinur Conferentsrád Jón Eiríksson ári sídar lét prenta og sendi Biskupunum í bádum ríkjum med fyrirbón fyrir Presta mína. Af þessara gódfúsa orlæti bættist þeim fljótt álitleg summa, hvörrar útbýtingu og rádstöfun Kóngur minn þann 7da Apríl. 1784 fól vidkomandi Biskupi og Amtmanni á hendur, og lofsins vard hún eptir skilagrein, er Conferentsrád Jón Eiríksson þarum opinberlega gaf [155]) 1786, alls 4,586rd 21 ß. Er þetta þó minnst af því, er eg þacka mátti þessum mínum trygdreynda vini.

Hér-

[154]) Sjá Kóngsbref af 7. Apr. 1784 hjá Fogtmañi.
[155]) Í Minerva fyrir Octóbr. 1786 bls. 497-501.

... Hèrad enn minntist min árlega med tøluverdum gjøfum í nockur ár til fátækustu Prestsekkna, sem ómøgum bundnar vóru, og til kostgjæfinna og stdugra skólapillta, vinur minn Etatsrad Andrès Holt, og Biskupinn í Sjálandi Lodvik Harboe gaf fátækustu Prestum mínum í einu 200rdli; Frímúrarar sendu mér frá samkyndu þeirra Zóróbabel í Kaupmannahøfn 100rdli. til enna naudsteddustu, og hulid góđmenni á Holsetulandi lèt Sagnameistarann Júſtitsrád Christjani koma á framfæri til mín 100rdla skenki til þeirra, er skadrædi bidu af Skaptafells sýslu jardeldum. Geheimerád og Stiptamtmadur Ove Høegh Guldberg sendi og tveimur mest þurfandi Prestum í Skálholts stipti ølmusu [156]). Kóng-

[156]) Sjá Dr. Hann. Finnsson um Mannfækkun af Hallærum bls. 176 nótu 271 b).

ur minn gaf Prestum mínum og í bágu ár-unum hlutdeild í þeim fyrrtöldu 9,706rd 79½ ß. 157) af Collectu-peníngunum, sem mér vóru sendir smámsaman til vidrëttíngar mínum bág-bornu bjargrædis vegum og til ad afletta húngri, en — hvad hafa Prestar minir og fátækir meira ad þacka, egin börnum mínum, er hjá mér hÿrdust um þinn samverutíma? Mér er, því midur! sumt úr minni fallid, þó mun eg telja ega gjöf Gudmundar ríka Þorleifs-sonar 1720 á Prestasetrunum Prestbacka í Hrútafirdi og Brjámslæk á Bardaströnd; og sjálfsagt Biskups Mag. Jóns Arnasonar á fullum 2000rdm. í jördu til Presta, nefni-lega: Garpsdal, Strönd í Selvogi og Beru-firdi í Múla-sÿslu med beggja hjábÿlum; Arn-

157) Sjá bls. 136.

Arnarbæli í Grímsnesi; Geitagili, Veigastødum og Hafósi. Sømuleidis Orms Sýslumanns Dadasonar, á ýmisum jørdum til kirkju ad Saudlauksdal, og til Garpsdals Prests, og Prests og kirkju á Skardsstrønd. Olafur nockur Olafsson gaf Hlydarhús og Ananaust hjá Reykjavík Presti og kirkju ad Helgafelli; en Bogi og Elin, Benedicts børn frá Hrappsey, reistu kirkju ad Dagverdarnesi 1758 og lagdu Presti þar til uppheldis 5 hundr. pess, og jørdina Nypu [158].

Til ad kenna námgódum, skickanlegum unnadarlensingjum í Eystrahrepp í Arnessýslu bókleftur og skriptir, gaf Frú Sigridur Jónsdóttir, Eckja Biskups Jóns Vidalins,

[158]) Sjá Dr. F. Johannæi Histor. Eccles. Isl. T. III. pag. 510.

Ilns, jördina Grafnstóptir þann 15da Júní 1730, og til uppfrædíngar fátækum börnum í Saurbæjar-sókn á Hvalfjardarströnd, gaf Þorvardur Prestur Audunarson jördina Rambshól í Svínadal. Rector Skóla Jón Þorkellsson gaf 1759 ýmsar jardir og adrar eigur sínar, er töldust hérum 4000rdla virdi, til Barnaskóla-stiptunar í Gullbríngu-sýslu, til gáds uppeldis og mentunar fátækum börnum úr sömu sýslu. Skóli þessi var med framqvæmd míns Stiptamtmanns Olafs Stephánssonar uppréttur á Hausastödum árid 1791, hvar 16 úngmenni sídan hafa notid uppeldis og kennslu. Óhapp, sem gjafarans skenkur á fyrstu árunum eptir hans dauda ratadi utanlands, hvar hann var á rentu settur, olli því: ad árid 1783 átti þessi hans stipt-

 un

an á rentu, auk jardanna, eitt 5700rdli, en í árslokin 1793 hljóp hofudstóllinn, er rentu bar utanlands 8,850rdli [159]).

Nálægt burtfør þinni gaf minn rausnar- og medaumkunarsami Stiptamtmadur Olafur Stephánsson til fátækra nota í Skaga-strandar hrepp og æfinlegrar eignar þeirra, 1000rdli í gódu jardagótsi, er hann undir eins frá sér afhendti og afsaladi. En — mørg hundrud, ad eg ei meira hermi, fátækra, sem gódvild hans og ørlæti ega ad þacka líf sitt og sinna, ecki sist í øllum hallærum, mega og munu vidurkénna, ad þessi gjøf hans er hin-um til voladra miklu minni. Ryktid þar um duldist ei minn milda Konúng med øllu, þeg-ar

[159]) Sjá Biskups Dr. Balles Pligtanker 1793 bls. 485.

ar hann árid 1786 sendi og gaf þessum mín- um elskada Stiptamtmanni þann stóra verd- launa pening: Pro Meritis, eda fyrir for- þénustur, í gulli, til æru og vyrdingarmerk- is fyrir hans staklegu gódgjørdir vid fátæka í hallærinu og adra bædi þá og fyrri audsýnda fødurlands ást og dugnad, eins og ádur er á prenti ordad og sýnt [160].

Merkilegastar Bókagjafir til kirkna og Klerka eru: Dansks borgara í Kaupmanna- høfn ad nafni Stiestrups, sem árid 1756 keypti og gaf hingad fjølda af Biblíum og nýa Testamentinu, prentudum 1747 og 1750 í Munadarleysingjanna húsi i Kaupmanna- høfn, og Bókseljara Søren Gyldendals, sem árid 1783 gaf hverri adalkirkju á Íslandi,



[160]) J kóngl. ísl. Lærd. L. Fel. R. 6. B. bls. 268-69.

Biskupsstólunum og Skólunum, hvorju fyrir sig 1 Exemplar af Kammersecretéra Olafs Olavii Ferdabók um Island, og ødladist fyrir þá gáfu, af Kóngi mínum Agents nafnbót [161]).

Til Hóla=Skóla gáfu ymsir og gódar bækur (fleiri år [162]) og loksins einhvør hulinn mannvinur mínu Lands=Uppfrædingar Félagi nockrar [163]) auk 50rdla verdlauna, er hann lét nockrum heita fyrir ymislega atorkusemi [164]).

En — ad telja allt hvad Kóngar mínir og adrir hafa kostad til bóka=útgáfna og bóka=gjafa

[161]) Sjá sömu Rita 3. B. bls. 287=88.
[162]) Sjá sömu Rita 9 B. bls. 298=99. 10 B. bls. 320. og 11. B. bls. 295.
[163]) Sjá Tídindanna. I. B. bls. 475=76.
[164]) Sjá sömu bls. 470.

gjafa fyrir mig, er mér nú ófært, bædi vegna þess, ad sumt er mér enn ókunnugt, en í sumu tekur mér ad skjátla med minni. Alkunnug-ar eru samt Ferdabækur Lögmanns efnisins Eggerts Olafssonar ásamt hans Lachano-logia eda Naturtabók, og Kammersecretéra Olafs Olavii, ásamt hans Urtagardsbók, hans ágætn ritum um Fiskiveidar og Neta-tilbúning 1771, um Smjørs- og Osta-bún-ad, og um Litunargjørd; hans Talnalist, og Stiptamtmanns O. Stephánssonar Und-irvísan í Reiknings-listinni og Algebra; 1000 qver af Hosters Agripi af Bibliunni; Bjørns Prófasts Haldórssonar Atli og Gras-nytjar; Magnúsar. Sýslumanns Ketilsson-ar Saudfjárhirding og Tilraunir med Sád-tegundir og Pløntur; Kofod um Jardepl-

 aña

aña ræktun og nytsemd; Þórdar Stúdents Þórodssonar Þánkar um Akuryrkju; Bjarna Sýslumanns Einarssonar um Vatnsmylnur. Buchwaldts Yfirsetu-qvennaskóli, útlagdur af Prófasti Vigfúsi Jónssyni og Saxtorphs Yfirsetu-qvennafrædi útlegd af Landsphysico Jóni Sveinssyni.

Fleiri mér vidvíkjandi ritgjördir hefir Kóngur minn og adrir stundt og framad, þó ecki hafi þær mér hingad til gêfnar verid, og sumar meir eda minna sêu mér nytsamar, tel eg med þeim Kristinn-rétt Þorláks og Ketils útgêfinn 1775 [165]); Rectors Mag. Hálfdáns Einarssonar Sciagraphiam Histor. Literar. Isl. edur Lærdóms-rita frásögu, útkomna

1777

[165]) Sjá Forberedelse til Olavii Reise Pag. CXXX.

1777, sem âri seinna ávann honum 3 minnispeninga til heidurs, frá því konúngl. húsi. Ollu framar tel eg hérmed Biskups míns Drs. Finns Jónssonar Kirkju Historiu í 4 Bindum í 4to útgéfna á opinberann kostnad; og í tilliti til hjálpar til eyr-grafinna málverka, Móhrs islendsku Náttúru Historiu og M. Stephensens Frásögu um Eldgosid i Skaptafells-sýslu, á dönsku útkomna 1785.

Þegar nú verdur talid til, hvad mikid af öllu framanskrifudu reiknast megi med gjöfum barna minna mér til góds, má eg undirtaka umqvortun tveggja vyrdta-sona minna [166]) ad srlætid til kirkna, Kennimanna og gudlegra

K 4 stipt-

[166]) Sjá Biskups Dr. Finns Histor. Eccles. Isl. T. III. pag. 508-509 og Biskups Arna Þórarinssonar om geistlig Gavmildhed §. 10. 60-62.

skiptana, sem allt ad Sida=skiptunum gêck fram úr öllu hófi, breyttist eptir þau og allt til þessa dags, hjá mèr einkum, í óþockaleg= ann svídingshátt og nídsku, þarsem þinn þenk= íngarháttur var, ad sá væri fremstur madurinn, sem mest gæti dregid af öllum þessum og und= andregid, svikid og tælt í öllum gjöldum, vant= adi þó ei ad börnum minum væri skoruglega fyrir sjónir leidd, bædi naudsynin og sæmdin eptir upplýstari þjóda dæmum, ad leggja nock= ud til af egin ramleika mèr til vidreistar [167]), en — hèr var fleirstum, sem heyrnarkausum, þul=

[167]) J Biskups Arna Þórarinssonar meistaralega riti 1770 om geistlig Savmildhed, á hvört þó hefir dropid blettur §. 65, er vitnar um mann= legann og þó einkum úngdóms breiskleika. 5ta stycki þessa Rits, er einka vel samid og íhuga= verdt, eins hid 7da þegar §. 65 skúrast.

þulid æfintiri, ólíkt framandi þjódum, eink: um gódfúsu dønsku og norsku fólki, er kepp: ist, sem eg heyri, vid adra, ad vidhjálpa fá: tækum frívilјuglega med mestu stórgjøfum, stipta skóla og allsháttar gódar stiptanir á eg: inn kostnad ár frá ári, svo í flestu tilliti er ei offagt um mig, ad aum er eg, og aumari medfram gjørir mig í mørgu amlódaháttur og óþockadómur barna minna.

Liti eg nú á allt undanfarid, er eg nú taldi um þig, syrgi eg gódvilja þinn í ødru enn útlátum sona minna mér til handa; syrgi ónytta vidburdi vina minna ad fá hag minn hafid; syrgi þig, þvi eg óttast ad systir þín verdi mér í raunum varla í øllu ad þér, en fagna þó medfram, ad margri mædu, hardind: um, stórsóttum, pest, mannfellir, og ymsri ó:

 vild

vild og bláni, er ad mèr stefndi medan þú dvald-
ir, er um tíma aflètt, þó fáir viti hvørju
fagna skal.

Fari eg ad minnast á kaupverdslunar
form og breytíngar medan þú dvaldir, rísa mèr
øll hár á høfdi, og vil því vera sem fáordust
um þetta efni, heldur ad eins gèta þess hèr,
ad band minnar kaupverdslunar undir mis-
jafna taxta og verdslunar-fèløg, vard og band
á flestum bjargrædis útvegum mínum.

Kompagnie eda kaupskapar-fèlaga verdsl-
an á mèr útarmadi í 104 ár sonn mína frá
1602 til 1706. Þó var kauphøndlan mín
forvoktud til adgreindra kaupmanns-húsa, helst
í Kaupmannahøfn allt ad 1733, fyrir 20,190
rdla árlegt afgjald allt ad 1724 [168]), og þad-
an

[168]) Sjá Stiptamtm. O. Stephensen om den is-
landske Handels Forelse bls. 19-20.

án að 1733 munu optast goldist hafa 20 til 23 þúsund ríkisdala í árlegt kaupskapar afgjald [169]). Aptur hófst ný Compagnie-kaupþendlan 1733 og viðhéldst til 1743 fyrir 8000 rdla árlegt afgjald. Þá tóku Kaupmannahafnar Hørkramarar í félagi að sér mína kaupþendlun allt að 1759, fyrir 16,100 crónur í árlegt afgjald, en mistu hana þá fyrir illa breytni þeirra við mig [170]). Þetta kaupþendlunar félag var mér eitthvert hið grimmasta, drap niður og kollvarpaði mínum nýju innréttingum, og með þeim bjargvænlegustu handyðnir, lét í hallærunum matar-innflutníng milli 1752—1758 bresta, og drap þar-

[169]) Sjá Deo, Regi, Patriæ, bls. 106.
[170]) Sjá Stiptamtm. O. Stephensens sama Rit bls. 25-27.



þarmed fjöldann af þeim ad minnsta kosti 8000 manna, er, þessa vegna teljast fallin í þann tíma [171]), þó var af þessu grimma Fêlagi keypt fyrir eptirgjøf hálfs afgjalds í 3 seinustu árin, ad sleppa allri høndlun á mêr 5 árum fyrri enn lênid var útrunnid. Frá 1759 til 1763 var hêr kauphøndlan færd á Kóngs reikníng, en frá 1764 til 1774 komst min kaupverdslan enn á ný á Compagnies vald, nefnilega þess svo nefnda almennilega kauphøndlunar Fêlags, sem árlega gjalda átti fyrir þetta einka-leyfi 7000rdli. Þetta Fêlag sendi mêr árid 1768 skémmt og óheilnæmt mjøl, eg vard fyrir þad dæmt af Nefnd manna þann 8da Febr. 1772 ad gjalda í bætur 4400 rdli, sem settir vóru á rentu, af þeim sídan gold-

[171]) Sjá sama Riti bls. 25-28.

goldin hmisleg verdlaun til uppһvatníngar og frama bjargrædisvegum mínum einkum jardyrkjunni, alls hlaupandi til árslokanna 1797 til 3187rdla 87 ß., en á rentu stódu þá eptir 5394rd 71 ß.[172]), eru þad þessir skildingar, hvörjum eg bls. 137 taldi ad mér hefdi tollad verid af naudúng. Kóngur minn Christján VII. leysti til sín eignir þessa Compagnies minni kauphøndlun vidkomandi árid 1774 fyrir 300,000rdli[173]), og lét sídan fyrir sinn reikníng færa hér kaupverdslun allt ad 1788, því færstir Kaupmenn gátu birjad hér 1787 med egin høndlun, enn þótt hún væri øllum undirsátum míns Konúngs frigésin seint á árinu 1786. Sídan vard sú lengi eptirþreyda

[172]) Sjá Løgþíngisbók 1798 bls. 40-41.
[173]) Sjá Forberedelse til Olavii Reise bls. XCVII.

þreyda frîhøndlan hjá mér innleidd, og fannst ad sønnu í fyrstu yfrid þúngbær allvída, en hefir þó seinna meir betur rádist enn áhorfd= ist og fremur hinum bundnu høndlunar form= um stórum endurlífgad ymsa bjargrædis at= burdi, jafnad verdlag á inn= og út-lendum varningi mørgum til hagsmuna, en, þvi mid= ur! ásamt fjølgad naudsynjum manna med ó= hófs og munadarlífis og dýr tídar innleidslu á flestu er medþarf til lífs uppheldis.

Hjá óvildar þrasi, yfirgángi enna fyrstu kauphøndlenda nockurra, nidritum þeirra um børn mín og þessara forsvari gégn hinum geng eg hjá, grøm og þegjandi, þvi systir þîn ein, þegar hún eldist betur, mun fyllskorinordt og réttvíst meta þau málefni, og réttvísar og øllu heldur án manngreinar=álits, enn þú øfund=

sjúka

sjúka og skærdarfulla öld! sem ofmjög varst gefin fyrir rógburdi, unntir sínjadri, letst þig einatt fleka af hleypidómum, dróst þig helst í hóp þann, hvar best þókti gánga, múlbundin mér til varnar, en reidubúin ad ýfa þar upp illa gróin sár mín, er þú hugdir þér mundi einhvörr hefdar eda vinníngs vegur ad verda.

Taxtana vil eg því ad eins nefna um þína tíd: sá fyrsti útkom þann 10da April. 1702 og gyldti til 30ta Maí 1776; þenna, sídar nefnda dag og sam ár kom út nýr, sem gyldti til 1787. Þá var fyrir þad ár útgéfin svovefnd Taxtatarif, er einúngis gyldti þad árid; sídan hafa prísar á öllum varníngi svo ydduglega, já daglega breyttst og verid svo ólíkir um mig alla, ad ekkért stendur á stödugu. Þad hygg eg samt furdu, ad tunna

mjels,



mjøls, sem vid komu þína gèck á 80 fiska, gèck undir burtfør þína sumstadar á 8 jafnvel 10rdli, og fiskavætt og gamall saudur í stadinn 40 fiska fyrrum, á 4 og 5rdli, hvørt um sig.

Hjá mèr ødludust 6 kaupþøndlunar pláts Kaupstada-nefn, en þó lendti um þína tíd ad eins vid einhert nafnid hjá ødrum enn Reykjavík minni, og von hafdi eg nockra um minn Eyafjørd. Reykjavík vard fljótt fjølbygd og apadi eptir útlendra kaupstødum, eptir því sem færi gafst til, í munadarlífi, metnadi, prakt, svallsemi, lystugheitum, og ymsu er reiknast til ens fína móds. Hún setti øllu fremur, ásamt líf í innanlands kaupþøndlun og bjargrædis vegu, fjølgadi þeim og jók þá elldri, ásamt óvenju dýrtíd um marga parta mína,

og

og hún vard skjótt minn einka Höfudstadur, ádur ad sönnu fræg, frá nýju innréttinganna tíd, en í þessara tilliti, einkum vefnadar-skólans, um þinn vidskilnad ófræg af því, ad þær og hann í henni dóu aldúngis út med þér. Haldi nockurr, ad öfundsýki hafi í stad-inn reist þar sinn skóla fyrir egingirni, partí-iska flockadrætti, rógburd og baknag til eginn frama, en til nidurdreps minna sönnu vina, skal systir þín á sídan votta, hvörsu illa mér færi ad þræta um þad.

Þó mun eg alla tíd syrgja ad mér kom til svo lítills sú dýra, og nú útdauda klæda-vessmidja þar, sem nefnd er bls 115, og til lítils, ad sönnu, henni fylgjandi þófara-mylna og farfa-verk, en ad þó einn minna gagnadi mínu Nordurlandi hvörttveggja, þar sem mér

gafst þó einhvörntíma um það svo líkleg von [174]); til lítils urdu mér í þiuni tíd fyrirheitin verdlaun [175]), fyrir útlærda Lín- og Ullar-vefara, Hattamakara, Sútara, Færaspinnara, Járnsmidi, Snickara, Beykira, Tinburmenn, Múrara, Steinhøggvara og adra handverksmenn, er tæki sér bólfestu í nýnum kaupstødum, því svo fáir, sem engir girntust þau, eda urdu mér ad haldi [176]); til lítils verdlaun, heitin fyrir sérlega smáann ullar, bómullar, hørs- og hampspuna, vefnad og vefnadar kennslu, og gjøf af vefstólum, rock-

[174]) Sjá Tilskipun um Kauphøndlun og Skipaferd á Íslandi af 13da Júní 1787 Cap. 3 §. 13. og þessi Eptirmæli bls. 134.

[175]) Sjá sømu Tilskipun í sama Cap. §. 11. 13, 14-16.

[176]) Sjá hjer ad framan bls. 118-19.

rockum, hespu=trjám, heglum og annnari hjálp [177]). Eckért kom í dugleganu, og flest í engann gáng, heldur dodnadi nidur, eins og jardar=ræktin; hvorki gátu hana né Kál=Garda=rækt, skógarvida plóntun, Korns,=jardepla og annara matjurta afla og um=hirdingu lífgad á ný lofud verdlaun, undir þinn vidskiluad [178]); litid eitt máské ædar=varp framad, en þó fékk þad ecki verndad þenna mér dýrmæta fugl fyrir skot=hridum illviljadra eda ágengra manna, ad Kóngur minn lagdi stór=sektir [179]) vid dráp hans, þvi réttlaus má hann enn fyrir ómildum allvida falla, af



[177]) Sjá somu Tilskipun á sama stad.
[178]) Sjá sama stadar §. 6.
[179]) Sjá Tilskipun af 13da Júní 1787 Cap. 3. §. 7. og hjer bls. 105.

því svo fáir láta sér annt um að halda við þeirra laga heiðri, er hann vernda ega; ecki fengu þau brennusteins-námur viðrétt, þó arðsamar verða mættu, sem vottast þar af, að árið 1798 vóru frá Húsavík útfluttar 250 Centner eður 10 fjórðúnga-vættir af hreinsuðum brennusteini, og seldar hvør allt að 6 rdlm, sem þá verða fyrir allar 1500rdlr, en 1799 vóru þaðan útfluttar af sama 350 samslags vættir, og hvør þeirra seld á fulla 8rdli, komu þá fyrir allar 2800rd. Vilji menn nú seinna árið, eptir fengnum líklegheitum, reikna innkaup brennusteinsins eins og 1796 á 10 ß. lisipund, eður fyrir $2187\frac{1}{2}$ lisipund hérum = = 228rd,
og til hreinsunar $17\frac{1}{2}$ tunnu lýsis á 20rd, eður = = 350,

In-

Inspecteurs og verkamanna laun vid verkid hérum = = 340,
og til ens fyrstnefnda 1ord. af hundrad, er vid brennusteins sóluna útkom, verda þad = = 280rd,
og 48 ß. á hvør 100 pund í fragt edur fyrir 350, 10 fjórdúnga vættir 175

hellsta og mesta kostnadinn þessvegna alls 1375
láta þeir, dregnir frá fyrstnefndum 2800rdlm, eptir = 1427rd.
í ávinning umgétid ár. Ecki frømudu heldur heitin verdlaun salltgjørdina, ecki vatnsveitingar af mýrum, ecki móskurd í stad tadbrennu, ecki hvala- hákalla- sela- laxa- sildar- og kola-veidar, ecki reka-vidar adflutn-

ínga [180]), og ecki fengu þau þig vakta til gagns af inngrónum doſinleika.

Hvad ſkal eg ſegja um opinberar ſtiptanir? nýjar bættuſt mér um þína tíd, en nockrar lidu ad meſtu undir lok. Lærdóms bót í mínum fyrrverandi látínuſkólum ad Skálhollti og Hólum átti eg ad þacka þeim gódfræga Sjálands Biſkupi Lodvík Harboe, ſem mér var ſendur 1741 til ad ranſaka allt kénnuſtu, kirkna og Klerka áſtand hjá mér. Ymiſt þókti Biſkupum mínum hagur og ymiſt óhagur ad halda ſjálfir bú fyrir ſkólann. Ymſar biltingar og ſundurdeilingar á ſtóls-gjøldunum milli Biſk-

180) Sjá þar §. 7-8, 10, 3-4 og Kóngs Urſkurd af 23ja April. 1781, 8da April. 1782, 9da Mai 1783, 19da April. 1784 og 22aan Júní 1785.

Biſkupa og Stóls-forſtøðumanna, ellegar þeſſara burtviſan og að ſkóla-ráðsmennſkan var í Biſkupanna einna höndum, fæddi øſund, áſælni, misklídir og marga óhamingju fyrir lærdóms framfarir. Allir qvørtuðu yfir bága bornum kjørum og klienum inntektum; Skóla-kénnendur máttu láta lengſt af að kjørum, er Vinnumenn ſléttir mundu nú ei þacka fyrir. Skólarnir urðu opt ei haldnir veturinn út, enn ſídur lengur, og þó áſtundum lélega í bágum árum, enn þótt Reglugjørð af 10da Júní 1746 og Köngsbréf af 25ta Apr. 1749 áqvørðuðu þeirra hald; Commiſſiónir gjørðu loks aðſkilnað milli Biſkupa og Skóla, eður Stóla-haldara 1764 og 1765, hvørjar ſkilnaðar-gjørðir þeirra vóru af Kóngi mínum ſtaðfeſtar þann 29da Maí 1767, en hvørki



vard meinid þar vid grædt, nè heldur lærdóms-
urinn svo lagadur ad bodi Tilskipana af 3ja
Maí 1743, ad mèr kjæmi til fullnadar bóta,
enn þótt eptir þeim tídum vel vidsæmandi heita
mætti.

Von mín um drjúga ellistod af 2 Skóla-
piltum, sem minn mildi Kóngur Fridrik V.
med brèfi síni þann 4da Maí 1759 baud
mèr árlega út ad senda, til gódrar mentun-
ar í Sjálands látínu-skólum, vard ad mestu
leiti ad vindi, því fáir sigldu og enn færri vit-
jundu mín híngad aptur, ad bodi þessa míns
Fødurs, sem þó lagt hafdi þeim fyrir, í 8da
pósti háttnefnds Kóngsbrèf, ad takast embætti
hjá mèr á hendur, og heim aptur til mín
halda, en borga aptur ella allann mentunar
kostnad ytra. Flestir, sem þángad sigldu í
skóla,

skóla, fyrirlitu búſtadi mína úr því, kómu hér aldrei framar, og ad of fáum þeirra gat mér ordid ſenn heill eda hagur í braudum. Fodur míns loflegi tilgángur var, ad af þeirra betri mentun, reynſlu og ſkodun nytſamra vidburda og bjargar útvega utanlands, ſkyldu mér þanninn alaſt upp vitrir og velunnandi frædarar, yfirmenn og vinir, — en — í ſtad þeirra ſá eg adra ókénnda áſtundum girnaſt mig ſem hæga fótſkør um ſkammann tíma, til ad tildra ſér því hentuglegar og brádar í gédfeldari og þeim vyrdtari ſeſſi, en — hvør urdu mér notin? þeim ſkulu ſyſtur þinnar ſønnu Eptirmæli á ſídan beſt lýſa.

Hardindin, ſem yfir mig dundu ſmámſaman, veiktu líka mínar Lærdóms-ſtiptanir, og hefdi ei adſtodad Collectan 1757, hvørrar

gétid er blf. 128-9, og 700rdla árleg gjøf míns Konúngs vid seinasta fellir eptir 1784, sem á minnst er blf. 133 ad vidhaldist hafi víst í 6, en varla ofhermt, þó sagt væri, í 9, ef ei í 10 ár [181]), hefdi minn forni Hóla-stóll og Skóli seint eda varla vidréttst. Afdrif þeirra fyrir minn Skálhollts skóla, urdu þar á mót þau: ad hann, eptir eldgosid sídasta í Skaptafells-sýslu, fluttist ad bodi míns Konúngs frá 20ta April 1785 til Reykjavíkur, sem bodid var og um Biskups-setrid, í hverjum stad Mentagydjunum þó illa vard vært upp þadan; Dómkirkja var þar og undir eins tilskipud; en á Hólum lagdist Biskups-stóll og skóli

[181]) Af Canselli brefum til Hóla-Biskupa, af 30 Júlí 1785 og 1-ta Febrúar. 1791, er ad ráda: ad gjøfin birjast hafi 1784, en átt ad enda 1793.

ſkóli með öllu niður, ſtrax við burrför þína, að Kóngs boði af 2 Octóbr. 1801 og til Suður-ſtiptis ſkóla, ſvo úr því á eg nú að eins einn Latínu-ſkóla, en er ſiálf orðin að einu Biſkupsdæmi. Mátti ſvo um Skálholt ſanna orð Sveins Biſkups víſa eður forſpáa, er dó hérum 1475: Skálholt hefir aukiſt og eblſt með herradæmi, en það eydiſt með eymd og veſlingsſkap[182].

Al Barna-ſkóla Jóns Rectors Þorkellsſonar, af Teſtamentis-gjøf hans þann 3ja Apríl. 1759, ſtadfeſtri af Kóngi þann 20ta ſama mánaðar, uppréttann 1791 að Hauſaſtøðum í Gullbríngu-ſýſlu, heſi eg minnſt bls. 145.

Um

[182]) Sjá Dr. F. Johannæi Hiſtor. Eccleſ. Isl. T. II. pag. 488. og Annála.

Um Hospitøl mín í þinni tíd get eg verid fáord, því oftlitid merkilegt tel eg um þau tilfallid.

Snemma løgdu børn mín þad til, ad Hospítøl yrdu hjá mér stiptud til framfæris og adhjúkrunar spitelskum mønnum. Þad vottar Bessastada sampyckt, fullgjørd þann 1ta Júlí 1555, hvar Yfirvøld mín og hnisir gódir menn beiddu Kóng Christján III, ad 4 jardir mættu leggjast til Spítala, 1 í hverjum fjórdúngi mínum, nefnilega: Kaldadarnes sydra, Gufudalur vestra, Glaumbær í Skagafirdi og Bjarnanes í Hornafirdi, og, ad þeim og Prestum mætti tilleggjast helmíngur lausafjár og kúgylda hálf-kirkna og bænhúsa, er um þær mundir nidurløgdust; en — um Spítala var mér neitad med Kóngsbréfi þann 16da April.

1556

1556. Sömu bæn ítrekudu fleiri árid 1592 í fér Jóns Logmanns Jónssonar, en svarid frá Christjáni Kóngi IV. þann 9da Maí 1593 vottar, hvörsu litid hún ávann. Sídan qvörtudu menn um fyrir Fridrik Kóngi III, hvörsu spitelska tæki yfirhönd hjá mér, sekum almúga hyrduleysis og óþrifnadar í bæum, sem ljóst er af bodi hans þann 10da Maí 1650 til Lénsherra Hinriks Bjelkes, ad rádgast um vid bestu menn mína, hvörsu spitelsku yrdi hér varnad, og enn framar af skipum hans ári seinna, nefnilega: þann 10da April. 1651 til sama Lénsmans [183]), ad leggja 4 jardir, eina í hvörjum fjórdúngi minum, til Spitala, en koma sér saman vid Biskupa og bestu

[183]) Sjá F. Johann. Histor. Eccles. Isl. T. III. pag. 460.

besſtu menn, um hvad þeim Spítølum tilleggjaſt kynni, til framfæris eunum ſjúku. Kóngsbréf 2 Fridriks III. til Bjelkes, útgéfinn þann 12ta Mai 1652 áqværdudu loks ad Hoſpítøl reiſaſt ſkyldu ad Klauſturhólum í Grímsneſi, Hallbjarnareyri, Mødrufelli og Hørgslandi, og þeim tilleggjaſt afgángs búshlutir Klauſtrunúm fylgjandi, fríviſjugar gjafir og ølmuſur, þockabætur frændfólks fyrir hjónabands-leyfi í 3ja lid, og ⅔ partar af ſdæmdra og forlíkadra mála bótum til Kóngs. A Alþíngi minu 1652 mælti Bjelke ſkeruglega fram med ſpitelſkum um tilleg til þeſſara Hoſpítala, og beiddiſt þar um fylgis hjá Biſkupi Brynjólfi Sveinsſyni og Løgmanni Arna Oddsſyni, en þeir ſkrifudu bréf þann 30ta Júní ſ. á. Syſlumønnum og Klauſturhøldurum í Skál-

Skálhollts stipti og framfylgdu Kóngsbréfunum fastlega. Málefni þetta var sídan vandlega í Løgréttu yfirvegad, og ályktad, ad af hverju fiski-skipi eda báti skyldi árlega gjaldast 1 hlutur einusinni á ári. Þessi nidurskipan vard þó umbætt árid 1653, og þá líka stadfest af Løgmanni Magnúsi Bjørnssyni og innbúum hans nordur- og vestur-løgdæmis, líka 1656 [184]), eptir þad nýtt bréf Fridriks III, útgéfid 9da Maí 1655 til Bjelkes var í Løgréttu upplesid. Í því bríxlar hann børnum mínum um ópockadóm almúga í gjøldum til Hospitalanna í stad kristilegrar medaumk-

[184]) Sjá M. Ketilssonar Safn af Forordn. og aabne Breve for Isl. T. III bls. 5.. Løgþgb. 1653 og 1656, og F. Johann. Histor. Eccl. Isl. T. III. p. 620.

aumkunar, hvar um hjáhlidrun Sýslumanns um þær mundir var kénnt [185]), og býdur ad uppáleggja almúga víss árleg útgjøld til þeirra. Var þá á ný ítrekad um Hospitala hluti og bætur lagdar vid þverskøllun í þeirra útsvari, líka uppástúngid af Løgmanni Arna Oddssyni og fleirum: ad heit-dagur haldast skyldi um Einmánadar mót, og þá safna gódviljugum gjøfum til Hospitala [186]), en um fátt komu menn sér saman, nema ad láta þacka Lénsmanninum audmjúklegast fyrir góda umhyggju hans; og þar erfidt þókti ad safna Hospitalanna litlu gjeldum í fjarlægum plátsum, féllust flestir á, ad fela þad Sýslumønnum á hend-

[185]) Sjá F. Johann. Histor. Eccl. T. III. p. 620.
[186]) Sjá sømu bls. 620. Løgþ. b. 1656 og M. Ketilss. á sama stad bls. 60.

hendur, leggja þeim spitelsku í fjarlægum sveitum tillög nockur þángað, en láta gjöld úr nálægum gánga til Hospitalanna halds.

Við þetta stóð við komu þína, mín framliðna! og allt að 1720, edur til dauða míns nafnfræga Biskups Mag: Jóns Vidalíns, en eptirmaður hans Mag. Jón Biskup Arnason var meira gefinn fyrir að safna fé fyrir Hospítølin, enn að forsorga í þeim eða á þeirra tillegum fjølda spitelskra, svo að frá 1720 til 1744 finnast ei af Hospítala reikníngum, að øllu fleiri enn 6, 7 eða 8, manneskjur hafi í einu aðnotið forsorgunar í þeim øllum 4[187]), en á seinustu árum þínum fundust þó eins margir í mínum 2ur vestan- og norðan-verðe. Á fyrri árum þínum vóru þó Hospítøl mikla

M aud-

[187]) Sjá F. Joh. Hist. Eccl. T. III. p. 698.

audhaldnari, enn á þeim síduſtu, vegna geyſi-legs óverds og dýrtídar um midja veru þína, fjárfellirſins þar á ofan og eins nú um þinn vid-ſkilnad. Kóngsleyſi til hjónabanda urdu og ſkyldmennum dýrkeyptari um fyrri helming veru þinnar og ſleiri Rádar-bréf, enn ſídan Kóngs-bréfid af 12ta Octóbr. 1764 lét ſkild-menna giptingar opt koma uppá Biſkupanna einka-leyfi og fyriſögn um útlát til Hoſpitala [188]) en þeſſara ſjaldnar vard ſídan minnſt vid önnur tilfelli. Dómſtólar vóru og fyrrum mikla rikari med bóta-dóma til Hoſpitala, allt ad 1765, því Tilſkipanin af 16da Nóvembr. 1764, um minn Júſtitz-kaſſa, tók þá þeſshattar ablas-von frá þinum og lagdi til þeſſa. Annars á-

vann

[188]) Nú heſir Tilſkip. af 23ja Maí 1800 einninn gjört enda á þeſshattar útlátum.

vann minn Biskup Mag. Jón Arnason míns Fridriks IV. alvarlega rádstøfun í Köngsbréfi þann 27da Martsi 1730 um innkøllun bóta til Hospitala. Köngi minum Christjáni VI. á eg þó eginlega ad þacka hellstu umbót Hospítalanna, en medalgaungu Biskups Lodvíks Harboes, ad Tilskipanin af 27da Maí 1746 útkom, og setti þau á reglulegri fót, tileinkadi þeim vissa hluti af øllum fiski- og fugla-veidum á tilteknum tímum, kringum mig alla, og lagdi fullkomid þjófnadar-straff í hennar 19 Artik. vid sérhvørn afdratt í skiptum og útsvari til Hospítalanna, á réttum hlut af øllu, sem þann dag fæst eda veidist, sem, því midur! til nidurdreps radvendni ymsra barna minna og til háska og sekta þeim sjálfum, tekur nú ofvída ad fyrnast í þeirra minni. Sama Tilskipan i-

trekar og um skyldmenna útlag til Hospítala, ádur enn giptast megi, sømuleidis Geistlegra, sem veitast tøpud Geistlegheit aptur, ádur þeirra friheita adnjóti, hver útlát Geistlegra, bædi fyrir hjónabands-leyfi og geistlega uppreisn, Kóngsbréf seinna af 5ta Júní 1750 í §. 10 lagdi úr því til fátækra Presta-eckna. Kóngsbréf Fridriks míns V. af 20ta Febr. 1750 eptirlét annars Vestmannaeya fátæku sjúklingum, Hospitals-hluti, er á eyunum tilfalla, ag annad útgéfid þann 21ta Jan. 1752 flutti Klausturhóla Hospital ad Kaldadarnesi.

Í øll þessi Hospitøl má enginn inntakast, nema vina- og fé-lausir aumíngjar, sem megn spitelska hefir gjørt vidbjóds og háskalega í manna umgengni, og þurfa því, svo ad sjúkdómurinn ei ofmjøg útdreifist, sérlegrar adhjúkrunar út af

fyr-

fyrir sig. Af offparri inntøku holdsveikra í Hospítölin er og qvartad um [189]) ad spitelska hafi hjá mér ódum útdreyfst, líka var þeirra tala 1785 undra frek, þar sem í Skálholts-stipti fundust þá 99, eda 3 af hverjum 1000 [190]). Til varnunar hennar útbreidslu bannadi því Kóngur minn Christján VII. med bréfi sínu þann 28da Martsi 1776 alvarlega, ad géfa þá, er kénnimerki hefdu til spitelsku, í hjónaband, og lagdi sektir vid fyrir Presta, sem móti því brytu, þær sömu, sem Tilskipan af 3ja Júní 1746 í §. 2. segir þeim á hendur, er ektavígi mjøg sáfróda í kristinndómi. M 3 Minna-

[189]) Sjá F. Johann. Histor. Eccles. Isl. T. III. p. 698. §. 5.

[190]) Sjá Biskup Dr. Hann. Finnss. um Mannfæckun af Hallærum, Tøblu til bls. 162. neðu 266. vid í bls. 166.

Minna Hospítala stjórn var annars sí-
feldt løgd undir hlutadegandi Biskupa og Løg-
menn, frá því þau fyrst vóru stiptud ad forlagi
beggja, allt til þess Løgmanna embætti vid
Lands-Yfirréttarins stiptun árid 1800. lidu
undir lok. Ur því vil eg halda hana vidkoma
einúngis Stiptamtmanni og Biskupi, eins og
vídarst annarstadar. Eg á ad sønnu þessi 4
Hospítøl til, en lasburda flest og fátæk, svo fá-
um af mínum mørgu þurfandi megna þau ad
bjarga, enda veit eg þeirra ásigkomulag svo
aumt og ófullkomid í øllu tilliti, ad eg tel mig
engu nær fyrir tilværu þeirra og sæi þau gjarn-
an med øllu upphafin, eda ødruvísi løgud
mér til mikilverdari nota. Landlæknarar mín-
ir Bjarni Pálsson og Jón Sveinsson hafa
ad

ad sønnu ráðið til þeirra umbreytíngar, en ei neitt fengið í því tilliti útrétt [191].

Á Videy átti eg, allt að hálfnaðri hjáveru þinni, enn þá eitt Hospital fyrir útlifaða og örsátæka Kóngs-jarða búendur úr Gullbríngu og Kjósar-sýslum. Það var eginlega í minni gyllini tíð stiptað til að verja Lénsherra mína húsgángs sníkjum, og í þeirra tíð var årsfordi ómaga lítill. Þegar múrhúss-bygging fyrir Landfógéta var reist í Videy, fluttist það að Gufunesi þaðan, en lagðist aldúngis niður í Fardögum 1795, að boði míns Konúngs þann 18da Septembr. 1793; í stað framfæris veitist síðan 12 persónum af Kóngs-gótsi í Gullbríngu- og Kjósar-sýslum, árlegt tillag til framfæris í peníngum, nefnilega karli 10rdli, en qvennmanni 6rdli.



[191]) Sjá Kóngsbréf af 20ta Júní 1766.



Tukthús eignadist eg, þvi midur! 1759, og undir eins var á fasteignir mínar og kúgyldi tollur lagdur ad Kóngs bodi þann 20sta Martsi sama ár, en honum aptur álétt med ødru Kóngs-bodordi þann 9da Nóvembr. 1796 frá lokum þess árs. En Sakafalls-gjaldid af mér, er árlega hljóp 147rd 36 ß, og sem Kóngur minn árid 1759 lagdi til Tukthússins, misti þad þá med øllu undir eins og Tollinn. Kónglegur Urskurdur þann 4da Júni 1764 lagdi og um tíma til Tukthússins Þingeyra klausturs og kóngsjardarinnar Arnastada afgjald, er þá hljóp gódum mun meira, uns þad megnadi af egin efnum ad halda limi sína og Forstødumenn [192].

Þó

[192]) Sjá Kóngsbref af 6ta Febr. 1767 um Tukthússins Yfirstjórnendur og þess inngjøld, í Løgþíngisbók. 1767 No. XXX.

Þó nú Tukthúss-kassinn í árslokin 1795 hafi náð því nær $8\frac{1}{2}$ þúsund ríkisdølum, hvar af vel $7\frac{1}{2}$ teljast þá stødi á rentu, og med útistandandi skuldum hérum 9000rdlm, má eg óttast ad eptirfylgjandi hallæri, dýrtíd og af þeim leidandi fjølgan glæpa-manna og þessara ardlítil vinna eda vinnuleysi seinna meir, olli kostnadar, er beri inngjøld Tukthússins ofurlida, einkum sé allur sparnadur ei vidhafdur. En — þad er minnst í þessu tilliti, ad eg tek mér engann hag af því, heldur í tilliti til þess fyrsta og eginlega augnamids, ad þad yrdi straff- og betrunar-hús fyrir glæpamenn, íllum til varúdardæmis og almenningi til verndar, sem aldrei ávannst fyrr né sídar vid mitt Tukthús, né ávinnast mun, nema þad, med geysilegum kostnadi ad øllu leiti umbyndist, eptir útlendra

 full-

fullkomnari og frelsi enna sekn til betrunar enn fremur takmarkandi strafshúsa-formum. Munstrin, grundvallar-ástædurnar, Kóngsins og vitrustu manna vilja og reglur um þau má þó opinberlega sjá og full skilmerkilega lesa á prenti[193]). Ecki tel eg samt, ad Kóngsbréfin útgefin þann 15da Octóbr. 1762 um sakamanna dóma og streff, eda strokmanna og þvermódsku-fullra Tukthúss-líma refsingar þann 9da Martsi 1775 og 17da Apríl. 1789, ellegar Tukthúss-Fundatsjan sjálf af 3ja Mart. 1784. væru þessum formum full-lík, síst þeirra framqvæmd, enn þótt Kóngsbréfid af 26ta Júní 1789 störum umbætti ymislegt í henni, uns þad og tekur ad fyrnast. Eg vil ei fram-ar

[193]) J Collegial Tidind. fyrir 1802 No. 29 og 30, og sömu fyrir 1804 No. 34.

ar yfir þvi andvarpa, en vísa til bls. 127 heldur einhvorntíma vænta umbótar af systur þinni í seinni framtíd, og henni þessvegna fagna, undir eins og þinni útför, m'n framlidna! þó — fáir viti hvörju fagna skal.

Med opinberum stiptunum skal hér og telja minn Jústits-kassa, stiptadann med kóngl. Tilskipun þann 16da Nóvembr. 1764. Hann var eginlega ætladur til ad betala med Lögréttumanna laun og Lögréttu-hússins byggingu og vidhald, uns hvörttveggja g'ck úr gyldi vid Lands-Yfirréttarins stiptun árid 1800; sömuleidis til ad betala med tilskipadar mála-sóknir í Réttarins nafni. Inngjöld kassans eru: hinn fornu Lögréttumanna-laun, edur þingfarar-kaup eptir Jónsbókar þingfarar-bálks 2 Kap., og sem úr öllum Sýslum

um mínum reiknast árlega til 136rdla 49½ ß; tilleg hið fyrsta ár af verdslegum Embættis-mönnum, Klaustur- og Umboðs-höldurum; bætur fyrir sýslu-víst af hördóms-sekum, reiknast eptir Kóngs-bréfi af 15da Mart. 1780 þessum kassa frá 1rd til 5rd; auk þessa af þrætu-kjærum máls-pörtum, er falla á málum sínum, og Embættismönnum beggja stétta, er dæmast fyrir grófar yfirsjónir til stór-sekta eda embættis-tjóns; einninn af hverjum, sem flytur passaleysíngja út af landinu. Hugnun fyrir hvörn umbedinn tilskilinn og veittann Commissaríum til mála-skodunar, og loksins ad áliti Yfir-rétta, bætur fyrir midur vandada dóma, hvörra vegna margur hefir einkanlegást þessum kassa hallmælt.

Þó

Þó Jústits=kassinn um nýár 1796 hefdi átt hérum 1580rd fyrirliggjandi, eda full 1400 rd þaraf á ventu, og med útistandandi skuldum 1700rd, hafa óár sídan fjølgad svo afbrotum og kostnadarsømum vandlætingum m. fl. ad eg óttast nú sé sídan á kassanum mjøg svo lækkad.

Póst=ferdir á vissum árstímum um mig alla á kostnad míns Kóngs, tilskipudu og nidur=reglndu Kóngsbréf af 13da Maí 1776 og 8da Júlí 1779, einninn Tilskipan af 13da Júní 1787 i Cap. §. 22, en mjøg hefir sídan sumstadar vikid verid út af þar fyrirlegdum reglum, Pósta=gángurinn því ordid um sumar álfur mínar sjaldgjæfur, óviss og fyrirfram ókunnur ýmsum hérudum, notin fyrir almenning hafa því enn ei fyllilega nádst, eptir Stiptarans fyrsta auglýsta tilgángi, hvad fyst=ur

ur þinni sýnist ei vanþörf á ad fá lagad med framtid. Hvad ábrast Póst- og adrar Milli-ferdir um mig til bréfa- og fregna-flutnínga, einkum á vetrum yfir stórfjöll, hugdu menn ad Skidahlaup mættu umbæta. Buch á Húsavík vóru þvi áqverdud verdlaun fyrir þeirra kénnslu og fleirum, er aptur kéundu þau ödrum [194]), ítka 2rdlm heitid seinna meir i 3 eda 4 ár, hvörjum þeim, er æfdi sig vel á skidum og nædi vid þau nockrum ferdugleika, [195]).

En — Köngi mínum Christjáni VII, var ecki einúngis annt um ad halda vid milliferdum um mín egin hérød, heldur og Landa sinna á milli til kaupverdslunar frama og úr-

ræda

[194]) Sjá Forberedelse til Olavii Reise S. CLII III.
[195]) Sjá kóngl. Urskurd þarum, þann 22ann Mart. 1786.

ræda mér til góðs, þegar sönn fregn syndi þeirra þörf. Því baud hann ad Póst-skip sendist, á hans kostnad árlega dönsku ríkjanna og m'n á milli, kæmi til mín á haustum, og sigldi frá mér á vorum med fregnir um vetr-arfar, fiskiveidar, Kóngs þénustu, almenníng og kaupþöndlun umvardandi málefni. Þó siglir þad nú ei nema einusinni á milli hvert ár, sem ádur var tvisvar tilætlad[196]).

Med mörgum markverdu og mikilvægu nýrri stiptunum vil eg sist gleyma ad telja Lækn-inga og Liknarbúdar stiptun hjá mér á id 1760, þegar Kóngur minn, Fridrik V, hann 18da Marts uppsetti hjá mér stedugt Landlæknirs edur Landphysici embætti og undir eins veitti þad

[196]) Siá opid Kóng br f af 18da Aug. 1786 §. 19. og Tilskip af 13da Júní 1787 Cap. 1 §. 21.

þad mínum vitra, reynda og mér svo gódkunnuga Lækni. Bjarna Pálssyni, og lagdi honum þann 19da Maí s. á. fyrir markverdar embættis skyldur í greinilegu Instruxi. Honum veitti hann þá 300rdla laun og 200rdli til læknis medala fyrir fátæka ár hvert, sömuleidis 150rdli til læknis-verkfæra, og frí bújerd. Eckju hans var þann 22ann Maí 1767 tillagdur $\frac{1}{8}$ partur hans launa, og leyst med Forstödu reynds Handlæknirs ad framhalda Læknisbúdinni (Apótekinu) eptir hans dag, uns nýr Landlæknir vidtæki. Sjálfum var honum falid á hendur, ad menta vel í læknislærdómum 4 námgóda og efnilega únga menn, til ad verda sídarmeir Handlæknarar hjá mér, svo ad 1 þeirra væri í hverjum mínum fjórdúngi; þeim gaf sami Kóngur minn þann 10da

Maí

Maí 1762 hverjum fyrir sig á medan 10rdli árlega til bóka og klædnadar, og Landlæknirnum til hjálpar fyrir þeirra uppheldi 1 skólapillts Ölmusu af hverjum Biskupsstóli, Djáknapenínga af Skridu-Klaustri og Skálholts-Stól. Kóngsbréf af 20ta Júní 1766 tilsetti þá fyrstu Landsfjórdúnga-læknara hjá mér, nefnilega: Magnús Gudmundsson nyrdra, en Hallgrím Jónsson Backmann vestra, hvern med frí bújördu og 66rdla fœstum launum árlega; sömuleidis eitt sinn fyrir öll med 50rdla hjálp til hvers, til verkfæra og bóka, er embættum þeirra fylgi. Sá fyrri sýktist og hvarf mér því snemma, en eptirmadur hans vard hérum 1776 Jón Pétursson, sem dó strax eptir burtför þína, þann 9da Októbr. 1801; en Backmann þénti frá birjun ársins 1766

ad reikna, þá laun hans eptir fyrrnefndu Kóngsbréfi hófust, til árslokanna 1802, þá var honum, þann 1ta Octóbr. s. á., af Kóngi mínum géfin umbedin lausn, eptir hérumm 37 ára loflega þjónustu í Læknis-Embætti, og árleg Pensión eda launa-skérfur upp þadan. Árid 1772 eignadist eg[197]) á austurhluta mínum Læknir Brynjúlf Pétursson; nockru sídar var mér vestanverdri skipt svo milli míns fyrrnefnda Backmanns og ens 4da Handlæknirs Jóns Einarssonar, ad þessi átti um mína Vestfirdi og Stranda-sýslu ad annast, en Backmann hitt af mínum Vesturhluta. Loksins fengu Vestur-Skapt-fells, Vestmannaeyar, Rángárvalla og Árness-sýslur þann 4da Octóbr. 1799 eginn Handlæknir í



[197]) Sjá Forberedelse til Olavii Reise S. CLIX.

Sveini Pálssyni, en — minn elskada adal Landlæknir Bjarna Pálsson misti eg þann 8da Septembr. 1779. Arid eptir fèck eg hans eptirmann Jón Sveinsson, sem Landlæknir; frá því embætti gaf Kóngur minn honum lausn í náð þann 24da Júní 1803, en — daudinn hafdi þegar veitt honum fulla lausn hédan þann 13da sama mánadar, á 23ja embættis ári.

Til Gjafa=medicamenta edur Læknis=medala gaf Kóngur minn, þann 17da Martsi 1760, árlega 200rdli, en kauphøndlanin hjá mér átti eptir Octroy edur Lénsbréfi af 15da Aug. 1760 §. 38 árlega ad leggja út 200 rdli til sama og borgast nú þessir 400rd af Kóngs míns fjárhyrdslu sídan sú bundna kaup=høndlan hér losnadi 1786[198]).



[198]) Sjá opid Kóngsbref þ. 18da Aug. 1786. §. 22.

Þessir til Apótheks edur Læknisbúdar hjá mér lögdu peningar, vóru, sem fyrr segir, undir forstødu og umsjá Landlæknirs míns Bjarna, er til 1772 héldt ásamt Apóthekid, en upp-þadan vard þad, eptir Kóngsskipun þann 18da Martsi sama ár, adskilid. Þann 1ta Aprilis þetta ár fèck minn fyrsti Apóthekari Bjørn Jónsson þar uppá sitt Embættis-bréf, en deydi þann 19da Septembr. 1798. Nefndur til Apóthekara var eptirmadur hans Magnús Ormsson þann 24da Janúari 1794, en fèck fyrst Apóthekid þann 16da Augústi 1799 og deydi þann 26ta Augústi 1801, hafdi þó litlu ádur embættinu sleppt, því, þann 27da Janú-ari 1801, var þad veitt mínum núverandi Apóthekara Gudbrandi Vigfússyni. Apóthek-aranna adsetur vard hid sama og Landlækn-aranna

aranna ad Nesi vid Seltjörn, og í sama Múrhúsi þar uppbyggdu til þessa. Líka vóru þeim fyrsta Apóthekara Birni veittir 200rdr., til byggingar eldastofu fyrir Læknismedel.

Þeim, sem legdu sig eptir Læknis-frædi vid Kaupmannahafnar Háskóla, gafst þar til styrkur[199]). Yfirsetu-qvenna frædi Dr. Buchwaldts las eg á mína túngu þegar 1749, en yfirheyrdar, reyndar og duglegar Yfirsetu-konur vantadi mig til þess eptir árid 1760; því 1761 kom fyrst til mín densk yfirheyrd Yfirsetu-kona, hverri Köngur minn gaf 60rdli í árleg laun, og var hún enn hjá mér á lífi, er þú vidskildir; Köngsbréf, útgéfid þann 20ta Júní 1766, lagdi hér árlega upp þadan 100 rdli til launa íslendskum yfirheyrdum Yfir-



199) Eptir Köngsbr. af 8da Apr. 1768.

setu-konum til samans, sem úr því fjölgudu svo hjá mér, ad undir burtfør þína átti eg vídarst einhvørja í hvørri minni Sýslu, sumar máské ónýtirheyrdum engu sídri, sumar allmørgum þessara engu betri. Samt mun eg ega ad telja mér ad þeim styrk einhvørn, þó ein, jafnvel dugleg, bjargi færstum úr barns-naud í stóru héradi, síst á vetrum. Meira jafnvel tel eg samt verda uppfrædslu þá, er allur fjøldi Ljósmædra hjá mér ødlast gæti, ef vildu og umhyrdtu mér til góds, af lestri og yfirvegun Saxtorphs Yfirsetu-qvenna fræda, hvørra greinilegt ágrip, prentad á mína túngu, eg þacka má Utleggjaranum, Landlæknir mínum Jóni Sveinssyni, eins og ávikid er bls. 150.

Eptir hinn sídasta mannskada, er eg af Bólsótt hreppti árin 1785—87 ødladist eg fyrst

fyrst, med umsjá ens konúnglega danska Canselliis, prentada ávísun um Barna-bólu-setníngu [200]); med gódri heppni hefdu nockrir hana hjá mér reynt medan sóttin géck, en síðan hefir eckt tilkomid. Systur þinni ber æran og gagnid, er eg tel mér vísst af innleidslu Rhrbólunnar hjá mér, verdi nú framar um hennar setníngu hirdt, enn svo margt annad, er mætti ad haldi og heidri koma, og má eg þér um segia: ad fáir vita hvörju fagna skal.

Merkilegustu Yfirmenn mína um ockar samveru tíma, mín framlidna! tel eg þessa:

I. Konúnga mína:

Frá seinna parti ársins edur þeim 25ta Augúsit 1699 til dauda-dags þann 12ta Oct. 1730,



[200]) Utlagda af Assessór B. Grøndal í kon. isl. Lærd. L. Fel. Rita 8: B.

1730, ríkti Fridrik Kóngur minn IV, hvørs nafn, sem góds og mikils Kóngs verdur uppi um alla æfi. Þó hann lengst af ætti í stridi ad standa allt ad 1720, þá fridar-gjörd, samin í Fridarborg á Sjálandi endadi Danmerkur sídasta strid, um þína tíd, því smá-oruftur vid sjóreisara í Afríku tel eg ecki; þó megn drepsótt árid 1711 heimsækti hans lønd, og ossa sjóar-ágángur Hertogadæmin 1717, og þar á ofan Kaupmannahafnar mikli eldsbruni 1728, skildi hann samt vid ríki sín skuldlaus og þeim eptir í þeirra fjárhyrdslu 30 tunnur gulls; átti nóg efni og fylgi til ad uppreisa Munadarleysíngjum hid nafntogada Weysenhús, og 240 barna-skóla á landinu; ad blómga høndlun, ad bóda heidíngjum í Trankebar, Finnmørk og Grænlandi trú; ad aftaka í Danmørku




mørku jarða-ánauðar-réttinn; að setja lands-herliðið í besta stand, að byggja mørg prýðileg slot, og að hafa mig volaða ásamt í minni, til að afletta minni eymð, húngri og hallærum, er þú færðir mér, því árið 1702 setti hann mér miklu vægari og í øllu tilliti sanngjarnlegri kauphøndlunar-taxta, og eptirgaf Kaupmönnum í 4 ár 6000rdli, til þess, að þeir selja skyldu mér matbjørg og aðrar nauðsynjar með því vægara verði; en árið 1720 gaf hann fátækum eckjum þeirra, er druknuðu hjá mér í sjó sama ár, 600rdli [201]). Stríðs-skip, til varnar kaupførum, mínum lagði hann þeim mildilega til ár hvert frá 1712 til 1719, er hann þó sjálfur átti í megnu stríði, án alls tilkostnaðar



[201]) Sjá F. Johann. Histor. Eccl. Isl. T. III. p. 474.

adar barna minna, og þó eitt þeirra færist hér vid mig árid 1718, svo skipsfólkid vard hjá mér vetrarlángt, lét hann sjálfur borga mér forsorgun þeirra [202]). Almanaks-reikníngunn lagfærdi hann til eus svo nefnda nýja stýls med tilskipun þann 10da Apr. 1700; lagdi uppgjafa Prestum tilleg af heldri Presta-kollum, med bréfi sínu þann 14da Febr. 1705, ad eg ecki nefni Kóngs þessa bréf þann 27da Febr. 1723 og 16da April 1728 um Bibliunnar prentadar útgáfur á mitt mál, mörg bodord árin 1719, 1721, 1728 um samanteknüngu nýrra Kirkjulaga, og svo margt annad mér til þarfa.

Hon-

[202]) Sjá sama Rit á sama stad, bladsídu 490 í skíríngar-greinirnni a).

Honum fylgdi í ríkisstjórn Kristján Kóngur minn VI. frá 12ta Octóbr 1730 til dauðadags, þann 6ta Augústi 1746. Hid merkilegasta frá hans ríkisstjórn mér til handa, met eg eptirskrifadar tilskipanir og Kóngsbréf:

| | |
|---|---|
| 9da Janúar. 1736 og 29da Maí 1744 | um Confirmatión barna. |
| 3ja Martsí 1741 | Um vitualeidslur, fallsmálssektir og fl. |
| 3ja Maí 1743 | Um Látínu-skólana, og Stúdenta minna yfirheyrslu. |
| 6ta Dec. — | Um innkøllun sœmdra bóta etc. sjá tilsk. af 12ta Júlí 1799. |
| 29da Maí 1744 | Um helgun hvíldardags, og um Catechisatión. |

27da Maí 1746. Um Hospítølin, um húss-vitjanir, um skriftastól og altaris-gaungu.

3ja Júní — Um húsagann; um hjóna-bands- og lauslætis-sakir; um geistlegra og annara of-dryckju; um nýtt Biblíu-upplag og þess kaup til kirkna.

10da Júní — Reglugjørd fyrir Skólana og um Stiptprófasta em-bætti; enn þótt á eitthvad af þessu vyrdast megi nú fyrníng nockur þeg-ar fallin.

Eptir Christján enn VI. settist ad ríkjum minn sérlegi velgjørda-fadir Fridrik Kóngur minn V. frá 6ta Augústi 1746 til daudadags

þann





hann 14da Januarí 1766. Eg hefi blſ. 115, 126—27, 137—140, 150 og vídar, litid eitt drepid á nockrar hans nádar-gjafir vid mig. Hans Lagabod tel eg mér markverdust þeſſi:

| | |
|---|---|
| 21ta Maí 1751 | Um ſaka-mála ſlutníng. |
| 25ta Maí 1759. | Um Confirmatión barna. |
| 14da Oct. 1763. | Um tilleg af fedrum til uppeldis heirra óeckta børnum. Samanber tilſk. af 10da Dec. 1790. |
| 16da Nóv. 1764. | Um Júſtits-kaſſa hjá mér. |
| 17da Maí 1765. | Um afleggíngu óþarfa kirkna, |

auk annara bréfa hans, er eg ádur hefi áminnſt.

Frá 14da Januarí 1766 og enn þá ſitur nú mér til hamíngju ad ríkjum minn allramild-

mildasti Lands-fadir Christján Kóngur enn VII. Hans velgjørdir allar mér til handa, og þad mikla góda og merkilega, sem hann, ríkjum sínum og løndum til heilla, hefir útrétt og prýdt sína fødurlegu og luckulegu stjórn med, er eg ecki megnug til ad framtelja hér, en bendi ad eins til þess fáa, er eg hér ad framan bls 130—35, 146, 150 hefi ádrepid. Med hans og forfedra fridsemi, og Rádgjafa þeirra vísdómi, hafa hans lønd audgast og fridar adnotid í full 80 ár, edur fra 1720 til 1801, medan mestøll Nordurálfan hefir lengi mátt andvarpa undir stríðsins grimd og eydileggingum. Hans Lagabodord, eru svo mørg og merkileg um þina tíd, mín framlidna! ad hér er ecki rúm fyrir þeirra einbert Registur, eg nefni því ad eins fáein, flest mig einkum snertandi sérílagi, er eg því tel allra merkilegust;

| | |
|---|---|
| 20ta Júní 1766. | Um Handlæknara og yfirheyrdar Ljósmædur hjá mér. |
| 13da Febr. 1767 / 12ta Nóv. 1772. | Ad lögleg peninga-renta sé ad eins 4rdlir af 100rdlm. |
| 8da Júní — | Um leysínga afteknïngar fyrir Legords mál. |
| 17da Febr. 1769. | Sem innleidir hjá mér Norsku Laga Erfdir. |
| 15da Maí 1770. | Um Land-Commissiónina og Amta-deilíngu. |
| 26ta Oct. — | Um aftekníngu óþarfa hátídis- og helgi-daga. |
| 18da Martsí 1772. | Um adskilnad Apóthekfins frá Landphysici embætti. |
| 12ta Maí — | Um Fjárskurdinn. |
| 15da Jan. 1776. | Innfæddra-rétturinn. |
| 28da Martsí — | Ad þeim leyfist ecki hjóna-band, |

| | |
|---|---|
| | band, sem spitelsku kénni-merki hafa. |
| 28da Martsi 1776. | Ad tilskipan af 14da Jan. 1771 um Odals-réttinn í Norvegi, gyldi hjá mér. |
| 15da Apr. — | Um friheit þeirra, er bygg-ja eydijardir eda nýlendur. |
| 29da — — | Um Vegabætur. |
| 13da Maí — | Um túngarda-hledslu og þúfna-sléttingu. |
| 13da Maí 1776 / 8da Júlí 1779 | Um Póstgaungur hjá mér. |
| 30ta Maí 1776. | Um Taxta og Kauphøndlun. |
| 28da — 1777. | Um jarda afgjøld Leigulida. |
| 22ann Apr. 1778. | Um danskra bancóseðla inn-færslu. |
| 4da Maí — | Um Reka-réttinn. |

5ta

| | |
|---|---|
| 5ta Maji 1779.<br>15da Mart. 1780.<br>4da Nóv. — | Um bætur fyrir Sýslu-vist af hórdóms og frillulifis mönnum, etc. |
| 7da Apr: 1780<br>11ta — 1781<br>10da Mart. 1784. | Um vitnisburdi eda Attest betlara, yfirheyrslu passa-leysíngja og forbod ad hýsa þá, eda betlara, lausgáng-ara, íllvirkja og flótta menn. |
| 11ta Apr. 1781. | Um mál, er stuttlega, án Appells, mega afgjörast. |
| 26ta Júní 1782. | Um mótþróa Presta; um Biskupa og Prófasta burdar-bréf; um dryckju-skark og áflog á helgum, og um Tukthúsa eda Slavariis straff í bannsetningar stad. |

17da Júlí 1782. Um Tiundar-gjørd, Presta- og Kirkna-tekjur. 2

19dá Febr. 1783. Um straff og afskoffun Lausa-manna. 6

7da Maí — Nytt Skirnar Formular án særinga.

21ta Febr. 1784. Um útdeilingu géfinna 300 rdla árlega til fátækustu Presta-eckna.

3dja Martsi — Fundátsia fyrir Tukthúsid.

26ta Júní 1789. Umbreyting hennar. 1

18da — 1784. Um vigt og mælir.

29da Apr. 1785. Um Bisskupsstólsins og skól-ans flutning frá Skálholti ad Reykjavik, Skálholts Bisskupsstóls og undirlagdra jarda sølu, Dómkirkju í Reykjavik og annad. 1 1

24da Martsi 1786. — Um straff fyrir lifandi penings og annann þjófnad og innbrot í fólks hús.

6ta Maí — Um verdlaun fyrir þá, er bjarga ødrum úr ytrasta lífsháska, eda koma þeim aftur til lífs, er sýnast daudir, svosem: druckna, frjósa í hel, o. s. fr. Sjá og opid bréf þ. 14da Sept. 1798.

11ta Aug. — Um straff fyrir óconfirmerada Drengi, er stela í fyrsta sinni.

18da — — Um lausn minnar kaupverdslunar.

17da Nóv. — Um kaupstada-frelsi hjá mér.



| | | |
|---|---|---|
| 16da Febr. | 1787. | Ad Amtmenn í saka og Jústits-málum megi gèfa uppreisu á gømlum Dómum, og um sakamanna Varnar-þing. |
| 18da Maí | — | Um varegdir mót barnabólu og mislingum. |
| 13da Júní | — | Um kaupheondlun og skipaferdir hjá mèr. |
| 15da Febr. | 1788. | Ad hjónabands mál dæmist af Sýslumanni og Prófasti med 2ur Prestum. |
| 7da Martsi | — | Ad Stiptamtmadur samþyckí alla Dóma um helgidagsbrot |
| 7da Nóv. | 1788 | Um Eckjumanns rètt til borgunar af sterfbúum fyrir innsetta peninga í eckju-kassann fyrir konu hans. |

| | |
|---|---|
| 20ta Febr. 1789. | Um straff fyrir þjófa og hylmendur. |
| 24da Júlí — | Um Prestakalla úttektir. |
| 4da Júní 1790. | Um Offur til Presta á 3 stór-hátídum árlega, sem inndrífist hjá mótviljugum, med adfør. |
| 2ann Júlí — | Um foreldra- og Presta-skyldur vid barna-uppfrædslu. |
| 22ann — 1791. | Um ábúdar-rétt Leigulida án útbyggíngar, medan í laga-skilum standa |
| 12ta Sept. 1792. | Um afgjald af útarfa arfi. |
| 14da — — | Um adgætslur vid Dóma framqvæmd, er hljóda uppá fríunar eida. |



| | |
|---|---|
| 28da Dec. 1792. | Um straff fyrir Vinkil-skrifara, og þá er leida almúga til ad gjøra lognar klaganir. |
| 1ta Júni — <br> 23ja Apr, 1793. | Um ýmislega pósta kauphøndlun hjá mér snertandi. |
| 19da Júní — | Um sekt þeirra, er telja rángt fram til oeconomisku tablanna. |
| 5ta Sept. 1794. | Um hlaupa-læknara straff. |
| 20ta Mart. 1795. | Adgætsluverdt vid námsdóma framqvæmd. |
| 10da Apr. — | Hvørsu náfrænda skipti skuli ákjærast. |
| 3ja Júní 1796. | Um réttarins tilhlýdilegu og fljótu framqvæmd. |
| 20ta Jan. 1797. | Um Forlikunar-nefndir, og ad til þeirra skuli stefnast, ádur |

ádur vitni séu leidd eda málasókn hafin eptir Verlaskuldabréfum.

5ta Maji 1797. Um Attest af Kirkjubókum í sakamálum.

13da Oct. — Ad net megi leggja á Sunnudags-qvöldum, og á qvöldum fyrir sunnu- og adra helgi-daga, en upptaka á morgna svó snemma, ad kirkjuferd ecki hindrist þarvid.

1ta Dec. — Um Tamper-réttanna afleggíngu í hjónabands-málum.

15da — — Ad ecki megi kyrrsetja eda útleggja verkfæri handverksmanna eda annad, er hinn skuldugi þarf vid til bjarg-

| | | |
|---|---|---|
| | | ar-útvega sinna, medan annad er til fyrir skuldinni. |
| 22ann Dec. 1797. | | Um forkaups-rétt Leigu-lida til ábýla sinna. |
| 9da Febr. 1798. | | Um áskrift Qvittánsía á skulda-bréf, og lausra qvittánsía gyldi fyrir höfud-stól eda rentum. |
| 2ann Nóv. | — | Ad dómar uppá líkamlegt straff yfir ómyndugum ecki framqvæmist án Cancellíis vitundar. |
| 4da Janúar. 1799. | | Ad Trúlofanir afleggist. |
| 14da Júní | — | Ad Hóla Prentverk nidurleggist, og þad, med öllu tilheyrandi, leggist til ens sunnlendska Prentverks, und- |

| | |
|---|---|
| | undir Lands-uppfrædsingar Félagsins umsjón. |
| 27da Sept. 1799. | Um Prent-fríheitanna takmörk, samanb. kongl. Ursk. af 4da Oct. s. ár. |
| 21ta Martsi 1800 | Um uppheldis peninga fyrir Réttarins persónur, Fógeta og Tolsmenn, sem ferdast tilskipadra málaferla í Saka- og Jústits-málum. |
| 28da — — | Nær eigendur þurfi med eidi ad sanna missir og verd þess, sem frá þeim er horfid, án vitundar þeirra og vilja. |
| 23ja Maí — | Um afleggíngu hvmisra Leyfis-bréfa frá Cansellíinu, og ad sum þvílík fáist hjá Yfirvöldunum framvegis. |

11ta Júlí 1800. Um Lands = Yfirréttar Stiptun hjá mér, en Lögþínga og ens forna Yfirréttar aflegg̃ingu.
31ta Oct. — Ad sekt til Kóngs eptir Norsku Laga 1—22—19 nidurfalli.
28da Nóv. — Ad almenn Fólkstala takast skuli hjá mér.

Fólkstalan framfór, en — þó í Tídindanna II. Bindi bls. 447, yrdi ecki fráskírt hennar upphæd um Aldamótin, vegna þá vantandi skilríkja, og í þessum Eptirmælum bls. 46, yrdi af sömu orsök einúngis ágetskud talan ad vera 46,757, get eg nú samt, eptir sídar fengnum gleggvari Listum [203]), sagt hennar

[203]) Sjá Collegial Tídindi fyrir 1804 bls. 638.

ar réttu uppbæð um Aldamótin að hafa verið 47,207, sem sjest af eptirfylgjandi

## Fólks-tølu Tøblu,

eptir því, sem það taldist hjá mèr þann 1ta Febrúarî 1801.

| | Prófasts-dæmin: | Karl-kyn | Qvenn-kyn | Suma allra |
|---|---|---|---|---|
| Suður-amtið. | Austur-Skaptafells = | 400 | 511 | 911 |
| | Vestur — — = | 678 | 861 | 1539 |
| | Rángárvalla = = | 1876 | 2311 | 4187 |
| | Arness = = = | 2053 | 2572 | 4625 |
| | Gullbringu og Kjósar | 1949 | 2066 | 4015 |
| | Borgarfjarðar = | 854 | 1028 | 1882 |
| | Lateris | 7810 | 9349 | 17159 |

Mýra



| | Prófasts-dæmin: | Karlk. | Qvennk | Summa |
|---|---|---|---|---|
| | Transport | 7810 | 9349 | 17159 |
| Vestur-amtid. | Myra | 694 | 784 | 1478 |
| | Snæfellsnefs | 1627 | 1914 | 3541 |
| | Dala | 699 | 893 | 1592 |
| | Bardastrandar | 1161 | 1332 | 2493 |
| | Vestur Isafjardar | 884 | 966 | 1850 |
| | Nordur — — | 961 | 1076 | 2037 |
| | Stranda | 438 | 544 | 982 |
| N. og A. Amtid. | Húnavatns | 1288 | 1592 | 2880 |
| | Hegranefs | 1385 | 1756 | 3141 |
| | Vadla | 1572 | 1881 | 3453 |
| | Þingeyjar | 1337 | 1665 | 3002 |
| | Nordur Múla | 781 | 981 | 1762 |
| | Sudur — | 839 | 998 | 1837 |
| | Summa | 21476 | 25731 | 47207 |

Þar-





Þar af var í Reykjavíkur Kaupstad af Karlkyni 144, Qvennkyni 167, alls 311.

## II. Stiptamtmenn mína:

Minn fyrsti Stiptamtmadur í hinni tíd var sá ypparsti allra, nefnilega: sá mikli Christján Ulrich Gyldenlöwe, Sonur Kóngs míns Christjáns ens V., Riddari af Elephant (Fíla) Ordunni, Greifi til Sámseyjar, Friherra til Marseilleborgar, General-Admíral-Lieutenant, Stiptamtmadur yfir mér og Færeyjum, og General Póstmeistari í Norvegi. Hans embættisbréf var útgéfid 26ta Jan. 1684. Hann kom aldrei til mín, en hafdi hér ymsa Fullmektuga. Eins og hann var hinn tignasti Yfirmadur minn ad ætterni, eins tel eg hann æ med mínum bestu. Hann var minn Stiptamtmadur til dauda-dags edur nálægt árslokum 1719.

Eg sje fróda menn telja hann minn fyrsta Stiptamtmann [204]). en Amtmann Müller, sem vard hér Amtmadur 1688, minn fyrsta Amtmann [205]); og man nú þetta ecki gjörla, hættir þó til ad efa þar um, því Kóngsbréf mörg, þarámedal af 30ta Augústi 1648, 18da Martsi og 9da April. 1649, 3ja Maí 1650 og 3ja April. 1674, nefna Henrik Bjelke hvíst Amtmann eda Befalíngsmann, eins og Kóngsbréfid af 12ta Apr. 1649 nefnir jafnvel Lénsherrann Prośs Mund, sem þó deydi 1645, Befalíngsmann; Leyfisbréf þann 9da Febr. 1665

204) Sjá Kongslews Danske og Norske private Ret, I. Bind, 1781. bls. 233. J. Espolins Vidbætir vid Gallettis Kennslub. í sagnafr. 1804, bls. 165.
205) Sjá sömu, og F. Johann. Histor. Eccl. Isl. T. III, Pag 467, 675.

1665 gêfid Gabriel Marcell. Selliussen uppá brennusteins nám hjá mér, nefnir í 7da Artik. Amtmann yfir mér, sem þá sê eda pareptir komi. Biskups Mag. Jóns Vigfússonar embættis-bréf, útgêfid þann 12ta Martsi 1674 fyrir Hóla stipti, nefnir Amtmenn í Stiptinu; Kóngsbréf af 20ta Martsi 1672 nefnir Bjelke Befalingsmann, og veitíngar bréf Jóns Prests Haldórssonar fyrir Þingvøllum, gêfid þann 21ta Maí 1680, Stiptamtmann [206]).

Eptir Gyldenlöwe vard Admiral Pétur Raben, (Riddari af Dannebrog Ordunni) minn Stiptamtmadur þann 6ta Martsi 1720, kom

[206]) Sjá eptir Datis M. Ketilssonar Safn, af Forordn. og aabne Breve til Island udg., 3dje D. 1787. og F. Johann. Histor. Eccles. Isl. T. III, Pag. 471.



kom á sama árs sumri til mín í Hafnarfjörd á herskipi, var fóta-veikur, komst sjóveg í langar hjá Laugarnesi, hreppti óvedur, vard hádvotur, og gat sídan varla á fæturnar stigid; dvaldi í 6 vikur hjá mér; hafdi lítilsverdt jag munnlega og skriflega vid Biskupa, Lögmenn og Sýslumenn mína um hitt og þetta, sem gáfu því litinn gaum. Eg sá hann aldrei sídan og veit hann litid merkilegt í þessu embætti framid hafa til síns dauda, árid 1727; þad eina tel ég í hans minning hér merkilegt: ad hann var sá seinasti Admírall, sem var Hyrdstjóri hér eda Stiptamtmadur, en frá Sídaskiptunum til hans dauda vóru þad flestallir.

Honum fylgdi í Stiptamtmanns Embætti hjá mér Geheimerád, Barón Christján Gyldencróne, hans embættis-bréf er útgéfid 2ann Júlî

Júlí 1728. Eptir dauda Fridriks Kóngs IV. vard hann ad 2ur árum lidnum, eda árid 1730 Stiptamtmadur í Viborg á Jótlandi, og gjørdi hér eckert merkilegt í Stiptamtmanns embætti [207].

Henrik Ockſen, Etatsráð, fylgdi honum í Stiptamtmanns embætti hjá mér þann 11tá Nóv. 1730, en deydi frá því árid 1750, mér ad mestu lítt merkilegur.

Eptir hann vard árid 1750 Otto Manderúp, Greifi af Rantzau minn Stiptamtmadur, til þess hann um haustid 1768 deydi. Hann var Geheimeráð, Riddari af Dannebrog Ordunni, Kammerherra og Assessor í Hæsta-retti. Hann var mér mjøg svo lidsinnandi, vitur madur, vyrdtur og gódur.



207) Sjá sømu Histor. T. III. pag. 478-79.

Hans eptirmadur vard Conferencerád Barón von Pröck í Nóvembri 1768, lausgéfinn aptur frá Stiptamtmanns embætti hjá mér í Janúari 1770, eptir rúmt ár. Af fyrtöldum 6 Stiptamtmönnum sá eg þanninn alls enganu, nema, ef telja skal, mér til litils gagns, Raben einann í 6 vikur á skipfjøl í Hafnarfirdi, því svo má adqveda: ad varla tylldi hann nidur fæti á mér.

Þess leugur heppnadist mér ad sjá hér og halda mínum góda og sanngjarna Stiptamtmanni Laurusi Andréſi Thódal, sem eptir Pröcks marklitlu embættis færslu, vard þann 23ja Jan. 1770, minn Stiptamtmadur. Byrdtur og áſt-sæll losadist hann frá því embætti aptur, þann 27da Apríl, 1785, þá

Kamm-

Kammerherra Hans Christopher Diderich Victor von Levetzow tók vid því eptir hann, en sdladist 1790 burtfarar leyfi frá mér, og vard þá Stiptamtmadur í Christjánsands-Stipti í Norvegi.

Minn nú verandi almennt elskadi, en af illmannlegri ofund um hríd offókti, Stiptamtmadur Olafur Stephánsson, kom til þess embættis þann 14da April. 1790, fyrstur sona minna, og vard sá annar af þeim, er þanninn komst um þína tíd til mestrar upphefdar. Um hans sanna verd, bædi sem embættismanns og borgara, er ofundar minni og ópartiskari eptirtíd einni tiltrúandi, rétt og skorinordt ad dæma í Eptirmælum níræddrar systur þinnar.



## III. Biskupa mína:

*a)* Í Skálholti:

Mag. Jón Þorkelsson Vídalín feck sitt Biskups-embættis-bréf, þann 16da Decembr. 1697, og vígdist 1ta Sunnudag eptir Páska 1698. Hann 30ta Augústi 1720 sáladist í Sæluhúsum undir Ódárhryggjum þessi minn mælski Cicero, mikli og uppbyggilegi Biskup.

Honum fylgdi í embættinu Mag Jón Arnason, sem vard kalladur til Kaupmannahafnar til Biskups-vígslu 1721, feck sitt embættis bréf þann 13da Febr. 1722, en vígdist til Biskups á Maríu-messu þann sama vetur. Þenna duglega merkis-mann misti eg þann 8da Febr. 1743, þá hann deydi.

Ept-





Eptir hann kom Olafur Biskup Gíslason til Skálholts-stiptis. Vigdist 1747, og deydi 1753. Ad svo lángt vard hér á milli Biskupa, orsakadist af hérveru Lodviks Harboes, er mér var sendur 1741, sem General Visitator kirkna og safnada minna, og dvaldi hjá mér, uns hann, 1745, sigldi burt aptur, og veik ári seinna til Biskups-dæmis síns í Þrándheimi, en vard 1748 Biskup í Sjálandi, árid 1766 ásamt Kongsins skriftafadir, og deydi þann 15da Júlí 1783.

Eptir Biskup Olaf kom í embættinu til Skálholts-stiptis minn nafnfrægi Biskup Finnur Jónsson; var hann sá seinasti Biskup, er tók vígslu af þeim vídfræga Biskupi Hersleb, þann 28da Apr. 1754, en árid 1774 vard

hann, fyrstur allra hjá mér, Doctor í Guðfrædinni, og deydi þann 23ja Júlí 1789. Hans lærdóms-verk eru mörg; en þó merkilegast hans Historia Ecclesiastica Islandiae, í 4 bindum í 4to, prentud í Kaupmannahøfn 1772—1778.

Hans eptirmadur og ásamt med hønum Biskup, vard hans, fyrir lærdóm og ljúfmennsku, svo mikils metni sonur Hannes Finnsson, þann 12ta Martsi 1777, vígdist þann 11ta Maji sama ár, af Biskupi Harboe, vard og Doctor í Gudfrædinni árid 1790, og deydi þann 4da Aug. 1796.

Minn núverandi Biskup Hra. Geir Vídalín, ødladist veitingar-bréf uppá Skálholts Biskups-dæmi þann 10da Maji 1797, vard vígdur

vígdur á Hólum af Biskupi Sigurdi Stephánssyni þann 30ta Júlí sama ár, fêck ásamt Hóla-stipti og vard þanninn einn Biskup aptur yfir mér allri þann 2ann Októbr. 1801, fyrstur sídan á dögum Gissurar Biskups Isleifssonar, edur árid 1107, en sá annar Biskup, sem hjá mér hefir vígdur verid, þvi Biskup Mag. Jón Vigfússon var vígdur af Biskupi Mag. Brynjólfi Sveinssyni árid 1674 [208]).

*b*) A Hólum:

Vid komu þína, sat Biskup á Hólum Björn Þorleifsson, er vígdist til þessa embættis þann 13da Martsí 1692, undir eins



[208]) Sjá F. Joh. Hist. Eccl. Isl. T. I. pag. 271 og T. III. pag. 732.



og formadur hans í embættinu, Biskup Einar Þorsteinsson; eptir Biskups Einárs dauda 1696, fluttist hann frá Odda að Hólum 1697 og deydi 1710.

Honum fylgdi þar í Biskups-embætti Steinn Jónsson, er vígdist í Kaupmanna-höfn á Trínitatis hátíd 1711, en deydi þann 2ann Decembr. 1739.

Adur umgétin Visitatíu-ferd Biskups Lodvíks Harboes til mín 1741, og allt fram á 1745, giördi hér og eydu nóckra á milli minna oirkiegu Biskupa því embættid var látid opid standa, en Biskups-launin frá Hólum á medan tekin til hjálpar uppí Harboes 800rdla og Rectors Jóns Þorkéllssonar 150rdla laun [209]. Harboe var skipad þann 29da Maji

[209]) Sjá Kóngsbr. af 1ta Apr. 1741.

Maí 1744, ad nefna 2 líkleguſtu Biſkups-efni til beggja þeirra lidugu Biſkups-ſtóla, vard ſvo Biſkups Steins næſti eptirmádur í embættinu Haldór Brynjólfsſon, vígdiſt til Hóla-biſkups embættis 1746, og deydi í Eyrarſundi á útſiglingu, þann 22ann Oct. 1752.

Biſkup Gisli Magnúsſon fêck embættis-brêf fyrir Biſkupsdæminu, þann 29da Martſí 1755, vígdiſt ſama árs 5ta Maí, en deydi þann 8da Martſí 1779.

Hönum fylgdi þar í Biſkups-embætti Jón Teitsſon, ſem vard Biſkup þann 24da Apr. 1780, vígdiſt þann 7da Maí ſama ár, en deydi þann 16da Nóvembr. 1781.

Eptirmadur hans vard Biſkup Arni Þórarinsſon, ſem vígdiſt 1784 á annann dag Páſka, en deydi 5ta Júlí 1787. Lok-



Lokfins endadi Biskup Sigurdur Stephánsson Hóla-biskupa, redina. Honum var veitt Biskups-embættid þann 24da Martsi 1788, þann 10da Maí 1789 var hann í Kaupmannahøfn vígdur af Biskupi Doct. Balle, og þann 24da Maí 1798 deydi hann. Hann var minn sídasti Biskup, sem vígdur er erlendis, eda líklega verdur, sídan Kóngsbréfid af 14da Aug. 1789, baud ad Biskupar míuir skyldu framvegis vígjast hjá mér, en nú verandi Biskup Hra. Geir Vídalin er sá fyrsti, sem eptir því er hér vígdur, nefnil. af Biskupi Sigurdi Stephánssyni, sem og vard sídastur Biskup á Hólum.

## IV. Amtmenn mína.

Fyrsti Amtmadur minn um þína tíd var Christján Müller, hvers embættis-bréf var

útgéfid þann 21ta Apr. 1688, og kom hann þad ár út híngad. Eg veit ad sonnu hann talinn fyrstann í Amtmanns-embætti hjá mér, hvarum eg inni aptur til þess, er eg bls. 222—23 hér ad lútandi bendti til. Frá 1707 kom hann hér aldrei, en fékk Kóngs-leyfi til, ad halda hér Fullmektuga. Svo ad segja ellis óra deydi hann í Kaupmannahøfn árid 1720.

Eptirmadur hans vard Amtmadur Níels Fúhrmann. Hans embættis bréf uppá ad vera Amtmanni Müller til adstodar í embættinu, og eptir hann virkilegur Amtmadur, er útgéfid þann 5ta Októbr. 1716, til mín kom hann þó fyrst árid 1718, og þjónadi úr því Amtmanns embættinu; vard virkilegur Amtmadur vid Amtmanns Müllers dauda 1720, og deydi ad Bessastødum þann 19da Júní 1733.

1733. Med honum kom hèr fyrst á gáng Réttargángs-form eptir Norsku-løgum

Amtmanns embætti eptir hann fèck Jóachim Hendrich Lafrentz, árid 1734, og kom þá til min; vard Jústits ráð árid 1737, og deydi ad Bessastødum 1744.

Honum fylgdi Amtmadur Christján Pingel, sem fèck embættid þann 23ja Okt. 1744, en lausn frá því í náð árid 1752.

Eptir hann vard Løgmadurinn í Sudur- og Austur-legdæmi minu, Magnús Gíslason konstitúeradur eda settur Amtmadur árid 1752, virkilegur Amtmadur þann 16da Maji árid 1757, og deydi ad Bessastødum þann 3ja Nóv. 1766. Hann vard fyrstur Sona minna minn Amtmadur.

Eptir




Eptirmadur hans í embættinu vard ufiverandi Stiptamtmadur Olafur Stephánsson. Hans embættis-bréf er útgéfid þann 14da Maji 1764, eptir hvørju hann þá vard Amtmanni Magnúsi Gíslasyni fyrst til adstodar settur, og ad honum lidnum 1766, virkilegur Amtmadur yfir mér allri, allt til 15da Maji 1770, þá mér var skipt í 2 Amt, af hvørjum hann fékk Nordur- og Austur-amtid, en Stiptamtmadur Laurus Andrés Thódal Sudur- og Vestur-amtid; þjónadi Stiptamtmadur minn Olafur fyrrnefndu Nordur- og Austur-amti, uns hann, med fullum embættis-launum, fékk frá því lausn í nád, þann 12ta Maji 1783.

Sama dag vard þar eptir hann Amtmadur, Lögmadur Stephán Þórarinsson, sem enn er þar Amtmadur.

Sud-

Sudur- og Vestur-amtid, eptir Stiptamtmann Thódal, fêck med Stiptamtmanns embættinu, þann 27da Apr. 1785, Kammerherra Hans Christópher Diderich Wictor von Levetzow. Sudur-amtinu hêldt hann til þess 1790, þá hann frá mêr fór; en eptir hann var Amtmadur í Sudur-amtinu á 2ad ár Thómas Hammon Meldal, sem vard Amtmadur 1790, en deydi ad Bessastødum þann 19da Nóv. 1791, frá hverri tíd Stiptamtmadur minn Olafur Stephánsson þjónadi embættinu, og vard þann 17da Apr. 1793 og er enn Amtmadur í Sudur-amtinu.

Vestur-amtid var stiptad árid 1787, og til þess lagt mitt Vesturland, en núverandi Stiptamtmadur Olafur Stephánsson vard þar Amtmadur þann 6ta Júní s. á., og þjónadi

adi því embætti fram á sumar 1795, því þó það, árid 1793, væri veitt Amtmanni Jóachim Christjáni Wibe, kom hann þó ecki fyrr hingad enn 1795, og deydi ad Bessastødum þann 11ta Febr. 1802.

## V. Tilskipada í mínum Lands-Yfirrétti:

Eptir konúnglegu bodordi af 6ta Júní og Tilskipun af 11ta Júlí 1800, vóru Løgþíng min og hinn forni Yfirréttur aflegd, en í þeirra stad tilskipadur einn almennur Yfirréttur fyrir mig alla, sem nefnist sá konúnglegi íslendski Lands-Yfirréttur. Þeir fyrstu núverandi Dómendur í honum vóru undir eins útnefndir þessir: Løgmadur Magnús Stephensen, fyrsti Júštitiaríus hjá mér, og ásamt virki-



virkilegt Júſtítsráð. Vice lögmaður Stephán Stephenſen, efſti Aſſeſſor í ſama Rétti. Vice-lögmaðr Benedikt Gröndal og Sýſlumaðr Jsleifur Einarsſon Aſſeſsórar, og Vice-nótarius Björn Stephenſen Júſtits-Seckretéri, allir í ſama Rétti.

## VI. Lögmenn mína:

### a) J Suður- og Auſtur-Lögdœminu:

Sigurður Björnsſon varð Lögmaður árið 1677, ſagði af ſér embætti árið 1705, var dœmdur frá embætti, vyrðingu og lauſafé árið 1708, af Commiſſariis Arna Magnúsſyni og Lögmanni Páli Vidalín, en fécK Kóngsbréf af 4da Maji 1709, að þeirra dómar ſkyldu, til málaloka, honum enga hneiſu eða ſkaða orſaka, og ødlaðiſt allt hið frádœmda

aptur

aptur med Hærsta-réttar dómi þann 15da Maji 1713, ásamt 300 rdlm. í bætur af Arna og Páli, og deydi 3ja Sept. 1723 [210]).

Páll Jónsson Vídalín vard minn fyrsti Vice-lögmadur árid 1697 þann 20ta Apr. en virkilegur Lögmadur 1705, þá Sigurdur Björnsson sagdi af sér; vard Land-kommissarius hjá mér 1702, ásamt Professor Arna Magnússyni, um margvísleg erindi mér til góds [211]), ferdadist um mig alla, samdi uhja Jardabók hjá mér, og lauk þessu verki 1714. Árid 1713 vard hann fyrir fyrrnefndri sekt, med Arna Magnússyni, eptir Hærsta-réttar dómi, og sama ár settur frá embætti af Lög-

O manni

[210]) Sjá F. Johann. Histor. Eccles. Isl. T. III. Pag. 539.

[211]) Sjá þeirra Instrúx, af 22rum Maji 1702.

manni Oddi Sigurdssyni, bædi sem Fiscal og Fullmektugum Stiptamtmanns Gyldenlö-wes, en komst þó, eptir Hæsta-réttar dómi, 1716, med beggja miklum kostnadi og litlum sigri ad ødru leiti, til embættis aptur; átti sídan lengst af í deilum, og deydi, flæktur vid þras, á Løgþingi þann 18da Júlí 1727 [212]; var annars frægastur medal sinna tíma Løg-spekinga, einkum hvad eldri-løg snerti, skáld og fornfræda-dýrkari.

Jón Eyólfsson vard þar nærst Vicelog-madur í þessu Løgdæmi, þann 13da Maji 1707 og deydi, eptir lítid merkilegt í því embætti útrétt, árid 1716.

Níels

212) Sjá F. Johann. Hist. Eccles. Island. Tom. III, pag. 539.

Níels Kier, Tengda-sonur hans, vard eptir hann Vice-lögmadur, þann 18da Júní 1717, virkilegur Lögmadur eptir Páls V dalins fráfall, árid 1727, og deydi þann 11ta Októbr. 1730.

Magnús Gíslason vard virkilegur Lögmadur þann 15da Febr. 1732, settur Amtmadur 1752, virkilegur Amtmadur þann 16da Maí 1757 og sleppti þá Lögmanns embætti, og deydi, sem fyrr segir, bls. 236, þann 3ja Nóv. 1766 ad Bessastödum.

Björn Markússon vard Vice-lögmadur þann 4da Decembr. árid 1750, virkilegur Lögmadur 1757, deydi ad Innrahólmi þann 5te Martsj 1791.



Jón Olafsson vard Bjørns Vice-løgmadur, þann 10da Martii 1758, en 1767 féck hann Løgdæma skipti, og gjørdist Vice-løgmadur Nordan og Vestan [213]); hjá Birni vard aptur á sama ári Vice-løgmadur Sunnan og Austan.

Eggert Olafsson, sem drucknadi á Breidafirdi med Frú sinni og 6 mønnum ødrum, þann 30ta Maji 1768 [214]).

Magnús Olafsson vard Vice-løgmadur þann 10da Martsi 1769, virkilegur Løgmadur þann 9da Martsi 1791, deydi þann 14da Janúarí 1800.

213) Sjá Løgþingis-bók fyrir 1768 Num. 16 og Vatnsfjardar-Annál sídari, vid árid 1767.

214) Sjá hans Æfisøgu, bls. 11-14. Hrappsey 1784.

Benedikt Jónsson Grøndal vard Vice-Lögmadur þann 19da Aug. 1791, og Assessor í þeim konúnglega Lands-Yfirrètti hjá mèr, þann 6ta Júní 1800.

*b*) Í Nordur- og Vestur-Løgdæminu:

Laurus Christjánsson Gottrup vard Løgmadur í þessu Løgdæmi, þann 16da Apr. 1695, gaf frá sèr embættid árid 1714, deydi 1721.

Oddur Sigurdsson vard Vice-løgmadur þann 12ta Maí árid 1707, virkilegur Løgmadur 1714, missti æru og embætti algjørlega árid 1727, en deydi med æru þann 5ta Aug. 1741. Vid þenna embættismann var luckan æfinlega mislynd, eda hún var af honum misbrúkud. Frá 1708 til 1718 var hann hjá

 mèr

mér Fullmektugur þess mikla Stiptamtmanns Gyldenlöwes, og jafnvel þess úr því fjarlæga Amtmanns Christjáns Müllers [215]). Hérum bil um sama tíma var hann sá einasti hjá mér, hvörjum svo nefnt Fiscals embætti [216]), eptir ráðstöfun Kóngs, var á hendur falið [217]), því sá 6ti Artikuli í Instrúxi hans, dagsettu 15da Maí 1708, gaf honum vald til að ákæra og afsetja alla Réttarins þjóna, sem

ecki

215) Sjá F. Joh. Hist. Eccl. Isl. T. III. pag. 476-78. og N. Ketelsens Forordn. og aabne Breve for Island udg., 3dje D. Side 430, under 30te Decembr. 1707.

216) Fiscals-embættis skyldur og náttúru sýnir NL. 1-1-5 ljóslega.

217) Sjá Lögþingis-bók fyrir 1707 Num. 18 og hans embættis-bref af 16da Maji s.á. undir No. 4.

ekki rœktu sín embætti vel [218]). Þetta embætti mun og hafa átt að heimila honum þá, bls. 242, áður umgétnu afsetningu síns embættis-meðbróðurs Páls Vídalíns, árið 1713, máske og klögun, þann 18da Ágúst 1724, til Kóngsins yfir Sýslumönnum [219]), en Páll Vídalín, aptur til embættis-verka kominn 1716, galdt honum skjæðari klögun á móti, þann 1ta Sept. 1723, ofan á aðrar undangengnar, sem Kóngsbréfin af 17da Febrúarí 1721 og 11ta Apr. 1724 [220]), vitna um, og dæmdi Odd, sem settur var frá embætti 1724, loksins frá

 æru,

218) Sjá J. Arnesens Islandske Rettergang, Pag. 522 - 23.

219) Sjá M. Ketelsens Samling af Forordn. og aabne Breve for Island, 3die D. S. 376.

220) Sjá sama Safn.

æru, embætti og búslóð þann 21ta Júlí 1725. Þessi dómur, uppsagður af gømlum bvildarmanni Odds, nefnilega P. Vídalín, og Odds Vice-legmanni, er eptir hann átti að brauðinu að sitja, Benedikt Þorsteinssyni, stadfestist þó í Hæsta-rétti, þann 13da Apr. árið 1727. Þann 3ja Mart. 1730 gaf Kongungur honum ærnna aptur, hvørt Náðar-bréf Christján Kóngur minn VI. endurnýjaði, þann 12ta Nóvembr. 1734.

Eptir Odd kóm Benedikt Þorsteinsson, sem varð Vice legmaður þann 18da Júní 1717, Løgmaður 1727, og deyði 1733.

Alexander Smith varð Løgmaður 1734, yfirgaf mig ári síðar, og embættið 1736. Løgmaður minn Magnús Gíslason þjónaði Norður,

ur- og Vestur-lögdæminu 1736 og 1737, eptir Amtmanns Lafrentzes skickun, útgéfinni þann 29da Júní 1736.

Eptir Smith fylgdi í Lögmanns-embættinu Hans Becker, sem vard Lögmadur þann 31ta Maji 1737, og deydi vid húss-mennsku í Brokey þann 3ja Mart. 1746.

Honum fylgdi í embætti Sveinn Sölvason, sem vard Vice-lögmadur þann 30ta Mart. 1742, stód einn fyrir embættinu í Beckers forföllum frá 1744, eptir Kóngs-bodi af 10da Jan. s. á., vard virkilegur Lögmadur 1746, komst seinast til Lögþíngis 1779, og deydi þann 6ta Aug. 1782.

Hans fyrsti Vice-lögmadur vard núverandi Stiptamtmadur Olafur Stephánsson,

 þann

þann 17da Apr. 1756, en Vice-amtmadur yfir mér allri, þann 14da Maji 1764, virkilegur Amtmadur, þann 3ja Nóvembr. 1766, Amtmadur í Nordur- og Austur-amtinu, þann 15da Maji 1770, frá því leystur í náð, þann 12ta Maji 1783, vard á ný Amtmadur í Vestur-amtinu, þann 6ta Júní 1787, Stiptamtmadur minn, þann 14da Apr. 1790, og þann 17da Apríl. 1793 ásamt Amtmadur í Sudur-amtinu.

Jón Olafsson, Vice-legmadur Sunnan og Austan, gjørdist Løgmanns Sveins annar Vice-løgmadur árid 1767, og deydi 1777.

Minn nú verandi Amtmadur Stephán Þórarinsson vard Sveins þridji Vice-løgmadur, þann 3ja Febr. 1779, þjónadi fyrst

Løg-

Løgþíngis-rétti árid 1781 til 1788, vard Løgmadur 6ta Aug. 1782, Amtmadur í Nordur- og Austur-amtinu, þann 12ta Maji 1783, fèck algjørlega lausn í náð frá Løgmanns-embætti, þann 19da Aug. 1789.

Magnús Stephensen vard Vice-løgmadur þann 23ja Maji 1788, og þjónadi embættinu upp þadan, virkilegur Løgmadur þann 19da Aug. 1789, settur Landfógeti í rúm 2 ár frá 1793 til 1795; vard sídasti Løgmadur minn og fyrsti Júftitiarius í nýtilskipudum konúnglegum Lands-yfirrétti hjá mér.

Stephán Stephensen vard Vice-løgmadur þann 4da Júní 1790, effti Asessor í þeim konúnglega Lands yfirrétti hjá mér, þann 6ta Júní 1800, og þann 18da Júní f. á.

kóng-

kónglegur Commissarius til verdleggíngar allra minna fasteigna; honum er og á hendur falid, þann 6ta Júní 1800 [221]), ad semja nýja Løgbók handa mér.

## VII. Landfógeta mína:

Med því kónglegar tekjur og gjøld af mér, lengst af vóru forpøktud ødrum, einkum Lénsherrum mínum, átti eg, eginlega ad tala, engann Landfógeta, heldur ýmsa, er þessara verkmn gégndu í hinna nafni, sem þeirra fullmektugir, og vóru á stundum þannig af Kóngi tilsettir [222]). Sá fyrsti kónglegur Landfógeti hjá mér, ad nafni Christópher Heidemann,

[221]) Sjá Collegial Tidindi 1800, bls 476.
[222]) Sjá J. Arnesens Isländske Rettergang, bls. 512-13.

mann, var það frá 5ta Maji 1683 til 1693, þá hann yfirgaf mig, fèck Amt í Norvegi 3 árum seinna, og deydi 1703. Frá 1693 og á fyrstu árum samvistar þinnar, átti eg engann Landfógeta, líklega vegna þess, að Kóngs tekjur hjá mèr vóru, ásamt kaupheudluninni, lèntar aðskildum Kaupmanns-húsum í Kaupmannahøfn, sem hèldu hèr Fullmektuga til þeirra innkøllunar [223]. Merkilegastur þeirra var Páll Beyer, um þann tíma, sem Rentukammer-samningur við þá kaupheudlandi, af 3ja Maji 1695, og Kóngs brèf af 4da Maji s. á, um þvillíkt lèn í 10 ár, frá nýári 1696 til nýárs 1706, áskilur. Snemma er Beyer mèr

[223]) Sjá Pontoppidans Handels Magazin for Island, 1te Deel, S. 219. Deo, Regi, Patriæ, pag. 106.

mér þecktur eptir komu þína, sem Fullmektug-
ur Forpaktaranna, eptir Instrúxi af 13da Maji
1702, því Jens Jørgenssonar frá 25ta Jú-
ní 1696, er fyrir þína tíd; Beyer lèt sèr og,
sem Løgþingis-bækurnar votta [224]), ytar-
lega annt um Forpaktaranna og Forpaktara-
innanna gagn, med því meiri røggsemi, sem
hann, þann 6ta Júlí 1703, var af Amtmanni
Christjáni Müller kjørinn Fullmektugur hans,
medan utan færi, og var þad lengi þar eptir
ásamt Løgmanni Oddi Sigurdssyni frá 1708.
Loksins er hann, med Kammerbrèfi, þann 16da
Júní 1707, settur Landfógeti, og nefnist þar
þá, sem Fullmektugur Forpaktaranna. Arid
1717 var hann kalladur til Kaupmanna-
hafnar, ad standa skil á reikningum sínum,
sem

[224]) Sjá þar fyrir 1702 - 1705.

sem vegna ofdrykkju hans þóktu ískyggilegir, en deydi á leidinni í Lárvík í Norvegi.

Cornelius Wúlf vard hér fyrst settur Landfógeti í Beyers stad, hann 29da Maji 1717; hans Instrúx er útgéfid 26ta Júní s. ár, og vard hann Landfógeti eptir Beyers fráfall. Hann fékk lausn frá embætti 6tugur, hann 19da Martsí 1727, med þridiúngi launa af eptirmanni sínum, sigldi litt sakaadur sama ár, deydi 1734.

Christján Lúxdorph vard med ádursegdum skilmála Landfógeti hann 17da Apr. 1727, og kom til mín s. á., sleppti embættinu vid Christján Drese 1739, eptir Kóngs-leyfi, med sömu skilmálum, sem hann medtók þad.

Christján Drese vard Landfógeti, þann 9da Apr. 1739; vegna rádleysu hans og reiknínga rugls, var hann settur frá embætti, árid 1749; af Amtmanni Pingel, en Sýslumadur í Kjósar- og Hérads-dómari í Gullbríngusýslu Gudni Sigurdsson settur Landfógeti. Drese sigldi hédan 1750.

Skúli Magnússon vard Landfógeti, þann 9da Decembr. 1749; var, eptir Rentukammers skipun, vid embættid losadur 1793, sagdi því ásamt sjálfur frá sér, ødladist Pension og deydi 9da Nóv. 1794; hann vard mér, í mørgu tilliti, med merkilegustu embættis-mønnum um þína tíd.

Til adstodar fødur sínum, og med von um Landfógeta embætti eptir hann, var sonur hans

Hans Jón Skúlason, med kónglegu embættis-bréfi, þann 22ann Júní 1763, útnefudur Landfógeti, en deydi á undan fødur sínum, þann 10da Martsí 1789. Þeim fedgum var um lítinn tíma, í Majó 1786, vikid frá embættisverkum, en Hans Jakobi Lindal inn í þau trodid á medan.

Magnús Stephensen, þáverandi Lögmadur í Nordur- og Vestur-Logdæminu, var settur Landfógeti í 2 ár frá 1793—1795, uns eptirmadur hans, Landfógeti Páll Michael Sinne komst til mín, og tók vid embættinu á álidnu sumri 1795.

Georg Christopher Lidemark var ad sönnu útnefndur Landfógeti minn, þann 7da Augúst 1793, en losadist vid embættid aptur,

 þann

þann 9da April. 1794, og kom því aldrei til mín.

Páll Michael Finne vard seinast nefndann dag og ár Landfógeti, kom híngad 1795, fėck lausn í náð frá embætti, þann 10da Júní 1803, vard þann 25ta Nóv. s. á. Býfógeti og Býskrifari í Túnsbergi og Hólmastrønd í Norvegi, en deydi hér í Majó 1804.

## VIII. Nótaríusa í Yfirréttinum:

Árid 1776 vard Oddur Stephánsson, med kónglegri Bestalling, útnefndur til ad vera Nótarius í Yfirréttinum forna, hverju embætti hann héldt til 6ta Júní 1800, fėck þá lausn í náð frá því med sínum fullu launum í Pensíón, og deydi þann 16da Janúari 1804.

Björn

Bjørn Stephensen fêck, þann 14da Maji 1790, Bestalling uppá ad vera Vice-nótaríus í sama rétti, og vard, þann 6ta Júní 1800, Júśtits-Sekretéri í þeim konúnglega Lands-yfirrétti.

## IX. Løgþíngisſkrifara:

Sigurdur Sigurdsson eldri, Løgmanns Bjørnssonar, var Løgþíngis-ſkrifari frá árinu 1700, þá Søren Matthíasson, sem 1691 fêck embættis-bréf fyrir Løgþíngisſkrifara brandi eptir Arna Geirsson, ſleppti vid Sigurd embættinu, hvørt Sigurdur því hafdi á hendi, lengst af ſjálfur, uns Magnús Gíſlason, sem vard Løgþíngis-ſkrifari 1728, tók vid.

Jón Jónsson vard ad sønnu, þann 16da Júlí 1712, af Kóngi útnefndur Vice-legþíng-

is-skrifari hjá Sigurdi, en vard aldrei virkilegur; þvi, þó Sigurdur 1724 yrdi Sýslumadur í Arnesssýslu, frá hvörju embætti hann losſ deydi 1746, héldt hann ásamt og gégndi, til fyrrtalins tima, Lögþingis-skrifara embætti, en Jón fékk, þann 23ja Maji 1723, ½ Múnkaþverár-klaustur, og 29da Mart. 1727, Vadla-sýslu, bjó í Grenivík, og deydi þar 1762.

Magnús Gíslason vard Lögþingis-skrifari, þann 9da Júlí 1728, Lögmadur Sunnan og Austan, þann 15da Febr. 1732, settur Amtmadur 1752, virkilegur 1757, deydi 3ja Nóvembr. 1766.

Gudmundur Sigurdsson vard Lögþingis-skrifari, þann 15da Febr. 1732, en þann 15da Febr. 1734, Sýslumadur í Snæfellsness-

nefs-sýslu, og Arnarstapa Umbods-haldari, deydi undir Michaels-messu 1753 [225]).

**Oddur Magnússon** vard eptir hann Løgþingisskrifari, þann 27da Mart. 1734, en deydi 1738.

**Jón Þórdarson** vard settur Løgþingisskrifari, þann 13da Febr. 1738, virkilegur 3ja Októbr. s. á., deydi 1743.

**Gudni Sigurdsson** var, þann 6ta Júnii 1743, af Júftitsrádi og Amtmanni Lafrentz settur Løgþingis skrifari, eptir fráfall Jóns Þórdarsonar, uns ári seinna vid embættinu tók

**Sigurdur Sigurdsson** Sýslumanns í Árnefs-sýslu Sigurdssonar. Vard sonurinn



[225]) Sjá E. Olafssonar Harmataulur eptir hann, 1755.

útnefndur Løgþingis-ſkrifari, þann 29da Nóv. 1743, ſleppti embættis verkum við ſinn Vice-løgþingis-ſkrifara Þorleif, frá 1764, og deydi árið 1780.

Þorleifur Nikulásſon vard Vice-løgþingisſkrifari, þann 16da Mart. 1764, og gégndi embættis-verkum úr því, virkilegur 1780, fékk lauſn í náð frá embættinu og 80 rdli í Penſíón, þann 6ta Júní 1800, og deydi 1805.

Eptir þad eg hefi nú þanninn varpad tølu á helltu Yfirmenn mína í verdslegum yfirembættum úm þina tíd, mín framlidna! og af þeim Geiſtlegu einúngis minnſt á Biſkupa mína, vil eg nú, med einu ordi, nefna fáeina geiſtlega, ſvo ſem:

X. Stipt-

# X. Stipt-prófast'a mína:[225])

## a) Í Skálholts-stipti:

Eptir fráfall míns fræga Biskups Mag. Jóns Þorkélssonar Vídalíns, í Aug. 1720, þjónadi Stipti þessu, sem Stipt-prófastur, Prófasturinn í Mýra-sýslu og Sóknar-prestur til Hytardals, Jón Haldórsson, í 2 ár, deydi 1736. Doctr.



[225]) Þegar eg hier tel Stiptprófasta, meina eg þá, sem í Biskupanna fráveru, forfollum, eda á milli Biskupa hafa Biskups-embættinu giegnt, eins og sú sídar útkomna Kóngs Tilskipan af 10da Júní 1746 gjörir ráð fyrir, en ecki þá sierlegu Prófasta, er í fyrndinni vóru í hvorjum lands-fjórdúngi tilsettir, eptir Kóngsbrefi af 13da Aprílis 1565, og nefnduſt Officiales, en lítid annad í raun rettri vóru, enn Prófastar. Sjá F. Johann. Histor. Eccles. Isl. T. II, Pag. 374., Tom. III. pag. 15. 90.

Doctor og Biskup Finnur Jónsson þjónadi 3svarsinnum, ádur enn hann siálfur vard Biskup í Skálholti, Stipts-prófasts-embætti; í fyrsta sinn eptir andlát míns gódfræga Biskups Mag. Jóns Arnasonar 1743; aptur 1745, þá Biskup og General kirkna Visitator Harboe sigldi frá mér; og í þridja sinni, 1753, eptir fráfall Biskups Olafs Gíslasonar, siá meira um hann bls. 229—30.

A medan Biskup Doctor Finnur Jónsson, um veturinn 1753—54, var erlendis, eptir Biskups-vígslu, þjónadi Stipt-prófasts-embætti þá verandi Sóknar-prestur ad Odda, sídan Prófastur í Rángár-þingi Gísli Snorrason, sem deydi 1780.

Doctor og Biskup Hannes Finnsson var af Konúnglegri Hátign, þann 13da Októbr. 1775,

1775, stadfestur ad vera Dóm-kirkju-prestur ad Skálhollti, og þarhjá útnefndur ad vera Stipt-prófastur í sama Stipti, og vígdist 22ann Martsi 1776, af Biskupi Harboe; fleira um hann, sem Biskup, er ávikid bls. 230.

Eptir hans dauda í Augústó 1796, vard núverandi Prófastur í Kjalarness-þingi og Prestur til Garda og Bessastada, Markús Magnússon Stipt-prófastur, og þjónadi því embætti um 1 árs tíma.

b) Í Hóla-stipti:

Um Stipt-prófasta á Hólum hefi eg færra til minnis glegglega uppteiknad fundid, einkum hvørr þessir embætti gégnt hefir 1710—12, eptir Biskups Bjørns dauda, uns Biskup Steinn 1712 kom til Hóla-stóls (því eptir

 þad

þad hann 1711 kom inn sem Biskup, hvaldi hann 1 ár á Setbergi vestra), þó mun Þorleifur Skaptason, þá verandi Prófastur í Hegraness-sýslu og Dómkirkju-prestur ad Hólum, þá vafalaust hafa Stipt-prófasts embætti gegnt. Hitt er víst, ad eptir fráfall Biskups Steins 1739, var hann 1740, af Jústitsrádi og Amtmanni Lafrentz settur Stipt-prófastur, og aptur 1745, af Amtmanni Píngel, hvörju embætti hann þareptir þjónadi í 1½ ár. Líka þjónadi hann í Harboes tíd vid Prestavígslur jafnadorlega [227]); þó mun þad verid hafa í þessari tíd, edur frá 1739 til 1746, ad Stephán Einarsson Prestur ad Laufási, og sídan Prófastur í Þingeyar-sýslu, telst

[227] Hann fiell ofan um veikann ís á læk og drúcknadi 1748.

telst hast hafa Stipt-prófasts embætti á hendi um ½ árs tíma, frá hverju hann framvegis afsakadi sig, heilsuveikis vegna.

Arid 1752 vard Prófasturinn í Hegranesssýslu og Dómkirkju-prestur ad Hólum, Jón Magnússon, Stipt-prófastur vid burtsigllugu Biskups Haldórs Brynjólfssonar, s. á., og þjónadi því embætti til útkomu Biskups Gísla Magnússonar 1755, fluttist til Stadastadar, eptir Biskup Gísla, þad sama ár, og bendi 20ta Janúari 1796.

Eptir Biskups Gísla Magnússonar dauda, þann 8da Mart. 1779, var í fyrsta sinni Stipt-prófastur Rector vid Hóla-skóla Mag. Hálfdán Einarsson, uns Biskup Jón Teitsson ári seinna kom ad Hólum, og í ödru



ødru sinni, eptir nefnds Biskups dauda, þann 16da Nóv. 1781, þar til Biskup Árni Þórarinsson árid 1784 settist ad Hólum. Mag. Hálfdán deydi 1785. (sjá meira um hann í Rectóra-tali á 18du øld).

Eptir fráfall Árna Biskups Þórarinssonar, þann 5ta Júlí 1787, hafdi Prófastur inn í Hegraness-sýslu, og Dómkirkju-prestur ad Hólum, Þorkéll Olafsson Stipt-prófasts embætti á hendi, uns Biskup Sigurdur Stephánsson 1789 kom ad Hólum, og í ødru sinni eptir þessa sídasta Hóla Biskups fráfall, þann 24da Maji 1798, uns minn núverandi Biskup Geir Vídalín, eptir Kóngsbréfi, útgéfnu þann 2ann Októbr. 1801, á fylgjanda ári tók þar vid embættis-verkum.

XI. Pró-

## XI. Prófasta 1701 — 1801:

### A) Í Skálholts-stipti.

#### 1). Í Múla-sýslu a) allri [228]):

| | vard Prófastur | deydi. |
|---|---|---|
| Páll Amundason = | 1689 — | 1709. |
| Olafur Stephánsson = | 1710 — | 1740. |
| Páll Högnason tók vid af Olafi þvíst.nær | — | 1738. |
| Brynjólfur Halldórsson = | 1733 — | 1737. |
| Jón Þorláksson = = | 1738 — | 1790. |

#### b) Í Sydri Múla-sýslu:

| | | |
|---|---|---|
| Jón sami Þorláksson = | 1746 — | 1790. |
| Jón Högnason = | 1786 — | |

#### c) Í Nyrdri Múla-sýslu:

| | | |
|---|---|---|
| Einar Jónsson = | 1746 — | 1771. |
| Hjerleifur Þórdarson = | 1747 — | 1786. |

[228]) 1746 var Múla-sýslu skipt í 2 Prófasts-dæmi.

| | vard Prófastur deydi. |
|---|---|
| Páll Gudmundsson | 1769—1782. |
| Páll Magnússon | 1783—1788. |
| Arni Þorsteinsson | 1789 |

2). Í Skaptafells sýslu a) allri:

| | |
|---|---|
| Þorleifur Arnason | 1697—1713. |
| Sigurdur Hognason | 1720—1732. |
| Hogni Sigurdsson | 1722—1770. |

b) Í Austur Skaptafells-sýslu:

| | |
|---|---|
| Sigurdur Hognason | 1703—1732. |
| Bergur Gudmundsson | 1754—1789. |
| Arni Gíslason | 1787 |

c) Í Vestur Skaptafells-sýslu:

| | |
|---|---|
| Einar Bjarnason | 1703—1720. |
| Jón Bergsson eldri | 1754—1773. |
| Jón Steingrimsson | 1773—1791. |
| Jón Jónsson | 1792 |

3). Í

vard Prófastur deydi.

### 3). Í Rángár-þingi:

| | |
|---|---|
| Bjarni Hallgrímsson | 1695 — 1723. |
| Þorleifur Arason | 1721 — 1727. |
| **Olafur Gíslason** | 1727 — 1753. |
| Sigurdur Jónsson | 1747 — 1778. |
| Gísli Snorrason | 1775 — 1780. |
| Páll Sigurdsson | 1778 — 1792. |
| Gísli Þórarinsson | 1793 |

### 4). Í Arness-sýslu:

| | |
|---|---|
| Arni Þorvardarson | 1691 — 1702. |
| Jóhann Þórdarson | 1703 — 1734. |
| **Olafur Gíslason** | 1724 — 1753. |
| Arni Þorleifsson | 1726 — 1744. |
| Vigfús Erlendsson | 1745 — 1781. |
| Illugi Jónsson | 1750 — 1753. |
| Jón Þórdarson | 1753 — 1789. |

Hald-

| | vard Prófastur | deydi. |
|---|---|---|
| Halldór Finnsson | 1767. | |
| Jón Teitsson | 1775 — | 1781. |
| Sveinn Halldórsson | 1780 — | 1805. |
| Gudmundur Jónsson | 1792 | |
| Torfi Jónsson | 1797 | |

5). Í Kjalarness þingum:

| | | |
|---|---|---|
| Olafur Pétursson | 1699 — | 1719. |
| Torfi Halldórsson | 1708 — | 1747. |
| Bjørn Jónsson Thorlacius | 1738 — | 1746. |
| Gudlaugur Þorgeirsson | 1747 — | 1789. |
| Arni Þórarinsson | 1781 — | 1787. |
| Marcús Magnússon | 1782 | |

6). Í Borgarfjardar-sýslu:

| | | |
|---|---|---|
| Halldór Jónsson | 1663 — | 1704. |
| Hannes Halldórsson | 1704 — | 1731. |
| Finnur Jónsson | 1732 — | 1789. |

Gísli

| | vard Prófastur | deydi. |
|---|---|---|
| Gísli Bjarnason | 1754 — | 1771. |
| Þorleifur Bjarnason | 1767 — | 1783. |
| Biern Þorgrímsson | 1783 | |
| Eirikur Vigfússon | 1786 | |

7). J Mýra-sýslu:

| | | |
|---|---|---|
| Jón Halldórsson elldri | 1701 — | 1736. |
| Jón Jónsson | 1736 — | 1740. |
| Vigfús Jónsson | 1740 — | 1776. |
| Halldór Finnsson | 1775 | |
| Christján Jóhannsson | 1790 | |

8). J Snæfellsness-sýslu:

| | | |
|---|---|---|
| Asmundur Eyúlfsson | 1690 — | 1702. |
| Þórdur Jónsson | 1702 — | 1720. |
| Snorri Jónsson | 1720 — | 1755. |
| **Halldór Brynjúlfsson** | 1738 — | 1752. |
| **Gísli Magnússon** | 1746 — | 1779. |

| | vard Prófastur | deydi. |
|---|---|---|
| Vigfús Erlendsson = = | 1755 — | 1781. |
| **Sigurdur Stephánsson** | 1782 — | 1798. |
| Bjørn Þorgrímsson = | 1789 | |
| Arni Sigurdsson = = | 1791 — | 1805. |
| Bjørn Þorgrímsson aptur | 1793 | |

9). Í Dala-sýslu:

| | | |
|---|---|---|
| Magnús Magnússon = | 1699 — | 1720. |
| Jón Þórarinsson = | 1720 — | 1730. |
| Þórdur Þórdarson = | 1731 — | 1738. |
| Þórarinn Jónsson = | 1739 — | 1752. |
| Gunnar Pálsson = | 1753 — | 1791. |
| Olafur Einarsson = | 1781. | |

10). Í Bardastrandar-sýslu:

| | | |
|---|---|---|
| Páll Bjørnsson, fyrir = | 1654 — | 1706. |
| Jón Jónsson = = | 1705 — | 1735. |
| Halldór Pálsson yngri = | 1708 — | 1733. |

Eirík-

| | varð Prófastur. | deydi. |
|---|---|---|
| Eirikur Þorsteinsson [229]) | = 1712 | |
| Gudmundur Bernhardsson | = 1727 — | 1738. |
| Gudmundur Isleifsson | 1739 — | 1758. |
| Jón Teitsson | = 1743 — | 1781. |
| Bjørn Halldórsson | = 1756 — | 1794. |
| Jón Ormsson | = 1782 | |

11) Í Isafiardar-sýslu:

a) Í Vestur-partinum:

| | | |
|---|---|---|
| Sigurdur Jónsson | = 1680 — | 1730. |
| Hjallti Þorsteinsson | = 1711 — | 1752. |
| Páll Pétursson | = 1728 — | 1731. |
| Jón Sigurdsson | = 1732 — | 1757. |
| Magnús Snæbjørnsson | = 1741 — | 1783. |
| Jón Asgeirsson | = 1783 | |

S 2 b) Í

[229]) Fluttist 1726 til Saurbæar í Eyjafirdi og dó þar.



vard Prófastur deydi.

b) Í Nordur-partinum [230]);

| | | |
|---|---|---|
| Hjallti Þorsteinsson | : | 1711 — 1752. |
| Jón Sigurdsson | : | 1732 — 1757. |
| Magnús Snæbjørnsson | : | 1741 — 1783. |
| Magnús Teitsson | : | 1762 — 1779. |
| Gudlaugur Sveinsson | : | 1773 |

12) Í Stranda-sýslu;

| | | |
|---|---|---|
| Þorbergur Illugason | : | 1700 — 1706. |
| **Jón Arnason** | : | 1708 — 1743. |
| Jón Pálsson | : | 1725 — 1771. |
| Ásgeir Jónsson | : | 1768 — 1779. |
| Gudlaugur Sveinsson | : | 1779 |
| Jón Sveinsson | : | 1781 |
| Hjallti Jónsson | : | 1798 |

B) Í

230) Fyrir 1711 mun Sigurdur Jónsson hafa verid hjer Prófastur í allri Sýslunni eins og sídar var lengi 1, en sídan 1762 vóru 2.

B) Í Hóla-stipti:

13) Í Húnavatns-sýslu:

Páll Jónsson, fæddur 1651, vard Prófastur nálægt aldamótunum; var Prestur til Þingeyra-klausturs 3 ár, sídan ad Hoskuldsstødum 29 ár, deydi 1721.

Hallur Olafsson, fæddur 1659; nær Páll sleppti en Hallur tók vid Prófasts-embætti, er mér nú úr minni lidid, en Hallur sagdi því af sér 1720. Vard fyrst Klaustur-prestur ad Þingeyrum í 2 ár, hér um 1681, sídan ad Grimstúngum, deydi 1741 [231]).



231) Eptir Vatnsfjardar Annál sídari urdu hann og 2 synir hans, bródir hans, fadir og afi allir Jubil-

Ormur Bjarnason, fæddur í Reykjahlíd vid Mývatn 1680, vard tvisvar Prófastur, fyrst frá 1720 — 32, þá hann sýktist og aflagdi Prófasts-embættid; aptur 1741 —47, eptir bodi Biskups Harboes, sem ásamt eptirlét Ormi Capellán hans Þorstein Pétursson til adstodar vid Prófasts-verk. Ormur var fyrst Capellán ad Reykjahlíd hjá fedur sínum; 1708 Klausturprestur á Þingeyrum; 1722 Prestur á Melstad í Midfirdi hérum 40 ár; var alls Prestur nálægt 60 árum, deydi 1764 [232].

Bjørn

Júbílkjennendur, edur í geistlegum embættum yfir 50 ár, sjá þenna Annál fyrir 1777.

[232]) Ormur Prófastur Bjarnason vildi ecki nefnast Ormur, og skrifadi sig því ætíd Worm; þó mun

Björn Magnússon, fæddur 1701, var Pröfastur frá 1732 —1740. Fêck Bergstadi í Svartárdal 1726, Grenjadarstad 1742, og deydi 1766.

Þorsteinn Pétursson, fæddur 1710, var Vice-prófastur hjá Ormi frá 1741, virkilegur 1748, sagdi af sêr Prófasts embætti 1760, en losnadi fyrst vid þad 1767; vard Capellán Orms Prófasts 1734, Prestur ad Stadarbacka 1744, sleppti brands-

mun hann hafa skírdur verid Ormur, sem ráda má af frásøgu þeirri um hann, ad aldrei hafi lidid í sóknar-kirkjum sínum og heima-húsum ad syngja 2ad versid í Sálminum: Náttúran öll og edli manns, nema þanninn: Andskotinn hefir Evu ginnt, í stadinn fyrir Ormurinn etc. líka af því ad sumir kølludu hann í meinlausu gamni: Orminn á Melnum.



braudinu 1776, og deydi hèrum árid 1784 [233]).

Bjarni Jónsson, fæddur hèrum 1726, vard Prófastur 1767, sagdi af sèr þvi embætti, lasleika vegna, 1782. Hann vard fyrst Capellán ad Grenjadarstad 1753, en 1755 Prestur til Þingeyra, og 1767 til Breidabólstadar í Vesturhópi, deydi árid 1798.

Jón

[233]) Hann innsetti 8ta Presta, tók út 14 Presta-köll, konfirmeradi 185 úngmenni, samanvigdi 120 hjón, skírdi 300 børn, saung yfir 255 framlidnum; árid 1777 ljet hann frá ser 6 nákomin fósturbørn sín, flest varin, gipti nockur saman, og reisti ad miklu bú þeirra. Var einhvørr hinn duglegasti Prófastur á sinni tíd, og eptirskildi ýmislegar ritgjørdir.

Jónas Benediktsson, fæddur 1738, vard Prófastur 1782, og er þad enn. Vard fyrst Capellán á Stadarbacka 1763, Prestur til Vesturhópshóla 1767, en fêck Høskuldsstadi 1784—5.

14) Í Hegraness-sýslu:

Ari Gudmundsson[234]) var Prófastur hêrum 1689—1707, þá hann deydi í Stóru bólu; Prestur á Mælifelli í 46 ár, Prófastur í 18.

Þorleifur Skaptason, fæddur 1683, vard Prófastur í Hegraness-sýslu 1708 til 1720, en í Þingeyar-sýslu frá 1734—1748.

S 5 Vard

[234]) Var bródir Vice-prófasts Jóns Gudmundssonar í Stærra-Arskógi, lángafa Assessors B. Grøndals.

Vard Dómkirkju-prestur ad Hólum 1707, fèck vonar-bréf fyrir Múla braudi 1707, en fór þángad fyrst 1724 [235]); deydi 1748. (Meira um hann finust hèr ad framan, bls. 266, og í Rectóra-tali á Atjándu Öld).

Jón Þorvaldsson, fæddur 1664, var Prófastur frá 1724 til 1729; var Prestur ad Miklabæ í Blönduhlíd framundir 49 ár, deydi 1731 [236]).

Sæ-

235) Þorleifur Prófastur í Múla, kjendi únglíngum skóla-lærdóm lengi, hans merkilegustu Lærisveinar vóru þeir Biskup Gísli og Landfógeti Skúli Magnússhnir.

236) Þegar hann hafdi fengid veitíngu fyrir Þessu braudi hiá Amtmanni Müller, reid hann frá Besse-





Sæmundur Magnússon, vard Prófastur 1729 — 1748, visiteradi kirkjur í Vadlasýslu 1735, fyrir Biskup Stein, og var í hans stad Synodal-réttar Forseti 1738, Deydi hérum 1748.

Jón Magnússon (bródir Landfógeta Skúla) fæddur 1715, var Prófastur 1748 — 55, vard Dómkirkju-prestur ad Hólum 1747.

Bessastødum í Skálholt, tók Prestsvígslu hiá Mag. Þórdi Biskupi Þorlákssyni, fór svo ad Hamarsholltí í Ytra-hrepp, lagdi þadan upp árla á Sumardaginn fyrsta á fiøll nordur med 4 eldishesta, og nádi háttum ad Vídivøllum í Skagafirdi um qvøldid, sem þykir minnisverd reid. Af því ad hann vígdist í Skálholltí um vorid, er ad ráda, ad þetta skied hafi 1692, þá Biskupslaust var á Hólum.

1747. (Meira um hann er í Hóla Stipt prófasta-tali ad finna, blſ. 267).

Illugi Sigurdsſon vard Prófaſtur 1756—58; Dómkirkju-preſtur ad Hólum 1755, en frádæmdur kallinu 1758, fyrir ſúkyrdi vid Lögmann Svein, og deydi 1759, á 41ta aldurs ári.

Halldór Jónsſon, fæddur 1723, vard 1758 Prófaſtur, 1759 Dómkirkju-preſtur ad Hólum, hafdi ádur verid Klauſtur-preſtur ad Þingeyrum og Reynineſsſtad, deydi 1769.

Jón Jónsſon, fæddur 1725, vard Prófaſtur 1770—1787; var fyrſt Preſtur á Rip 1756, ſídan til Flugumýrar þínga, og lokſins ad Grímstúngum, hvar hann deydi 1799.

Þor-

Þorkell Olafsson Biskups Gíslasonar, fæddur 1738, vard Prófastur 1787, og hafdi þad embætti á hendi fram á árid 1803. Fyrst Prestur til Hvalsness þinga 1766, sídan Dómkirkju prestur ad Hólum 1770. (Meira um hann synir Hóla Stipt-prófasta tal, bls. 268).

15) Í Vadla-syslu:

Þórdur Oddsson, Eyólfssonar Prests í Holti undir Eyafjöllum, vard Prófastur 1698 — 1704; fyrst Conrector í Skálholti, svo Dómkirkju-prestur þar 1696, fékk Velli í Svarfadardal 1698, deydi 1704 og kona hans Valgérdur Jónsdóttir; fóru þau bædi í sömu gröf[237].

[237] Í Sóknarpresta-tali Skálholts-stiptis telur Biskup Dr. Hannes, ad Þórdur hafi dáid í Stórubólu 1707. Sjá bls. 56 nótu 87.

Jón Jónsson, vard Prófastur 1705, var Prestur til Mødruvalla-klausturs, deydi í Stóru-Bólu 1707.

Olafur Gudmundsson, vard Prófastur 1707 — 1721. Hann sigldi og fêck vonarbréf fyrir Hrafnagils braudi, vígdist fyrst til Grundar og Mødruvalla, vard Capellán ad Hrafnagili, og fêck sídan þetta braud; giørdi Prófasts verk hjá Þorsteini Prófasti Jllugasyni í Vadlasýslu, og var af Biskupi Birni 1698, þ. Þorsteinn sagdi af sêr, útnefndur Prófastur, frá hvørju Olafur Gudmundsson afsakadi sig en tókst þó þad embætti á hendur eptir Jón Jónsson árid 1707; deydi 1731 hjá syni sínum Stepháni, Presti ad

að Höskuldsstøðum, føður Stiptamtsmanns Olafs Stephánssonar. 238)

Jón

238) Olafur Prófastur var giptur Aünnu Stephánsdóttur Þjóðskálds og Prests að Vallanesi, Olafssonar Prófasts Einarssonar frá Kirkjubæ, bróður Odds Biskups í Skálholti. Þeir feðgar, Olafur Prófastur Einarsson og Stephán Prestur sonur hans, áttu annars skritilegar bréfur saman, út af Rafni nockrum, bónda að Kjetilstøðum, sem með Olafi Prófasti Einarssyni hafði lengi eldt grátt sylfur. Prófastur Olafur skrifaði Hirdstjóranum loks um Rafn, og sendi kvedling um viðskipti þeirra, hvar í stóð:

Ribbalda þessum ryð þú burt,
Með rótum sínum øllum,
Svo enginn fái upp hann spurt,
Á víðlendi nje fjøllum;

Aud-

Jón Gíslason, fæddur 1665, vard Prófastur 1721 —24. Fyrst Conrector á Hólum 1700—1708, þá Prestur til Saurbæar í Eyafirdi; deydi 1724.

Þor=

Audmjúkann planta í hans stad,
Sem elskar fridinn mæta,
Og sambúd sæta;
Sjer þad fólkid, og þá mun þad,
Þinna bodorda gjæta.

Hirdstjórinn leysdi Prófasti ad láta setja Rafn í vardhald; Stephán Prestur Olafsson var þá úngur en alda vinur Rafns, varadi hann vid og kom honum undan; qvad sídan þessa stöku:

Nú vill eigi standa um stafn,
Stódugann vin ad fánga,
Þó allir beinist ád þjer, Rafn!
Undan skal eg gánga.

Þorsteinn Kétilsson, fæddur 1687, vard Prófastur 1725 —51; fyrst Dómkirkju-prestur ad Skálholti 1713, Prestur til Hrafnagils í Eyafirdi 1716, deydi 1754. Hafdi þá skírt 432 börn, en súngid yfir 327 dánum.

Þorlákur Þórarinsson, fæddur 1711, vard Prófastur 1751 —53, Prestur til Mødruvalla klausturs 1745, drucknadi í Hørgá árid 1773.

Hallgrímur Eldjárnsson, fæddur 1723, vard fyrst Capellán til Hrafnagils 1748, og undir eins settur Þorsteini Prófasti Kétilssyni til adstodar vid Prófasts-verk, á hans seinustu Prófasts-árum; virkilegur Prófastur 1753 —68. Prestur til Bæsár í Hørgárdal 1751. Fékk 1754 veit-

T ing-

íngar bréf fyrir Hrafnagili, en nýtti sér það ecki; 1768 fèck hann Laufás, og fluttist þángað, en samsumars bréf fyrir Grenjadarstað, um hvørn hann ári ádur sókti, fluttist þángað 1769, og deydi 1779.

Erlendur Jónsson, vard Prófastur 1768; fyrst Capellán 1754 til Hrafnagils, síd- an Prestur þar og ásamt Prófastur til 1802, þá hann sagdi af sér, en Magn- ús Prestur sonur hans var honum settur til adstodar sem Vice prófastur árid 1794.

Magnús Erlendsson, fæddur 1758, vígdist til fødur síns Capellán 1784, vard Prest- ur til Múnkaþverár 1796, medhjálpari fødur síns í Prófasts-verkum 1794, en virkilegur Prófastur 1802.

16) Í Þingeyar-sýslu;

Geir Markússon, fæddur 1663, vard Prófastur eptir Skúla Þorlákson (er deydi 1704), hérum 1697 — 1734; fyrst Capellán til Laufáss, og sídan Prestur þar, deydi 1737.

Jón Markússon, bródir Geirs, fæddur 1676, vard Prófastur 1711 —34, annadhvort adstodandi bródur sínn, sem líklegast vyrdist, eda yfir parti Sýslunnar útaf fyrir sig. Var í 12 ár Prestur til Mødruvalla-klausturs, fèck 1705 Kóngsbref, ad mega verda Capellán bródur síns, og eptir hann Prestur til Laufáss, en deydi ári seinna enn hann, nefnil. 1738.

Þorleifur Skaptason, var hèr Prófastur 1734 —48. (Sjá framar um hann bls. 266,



266, 281 — 2 og Rectóra-tal á 18du Öld).

Stephán Einarsson, fæddur hérum 1697, vard Prófastur 1748 — 1754; Prestur til Múnkaþveráar-klausturs 1730, og til Laufáss 1738; var 1745 kjörinn af Biskupi Harboe til Biskups yfir Hóla-stipti [239]), hvad Stephán afbad. Hann var, árid 1752, þá Biskup Halldór sigdi veikur og deydi, Forseti i Synódal-rétti. Stipt-prófasts embætti var honum bodid, hvad hann, vegna heilsubrests, afþackadi, hafdi þad þó á hendi i ½ ár og vígdi 3 Presta; hvort heldur þetta þó hafi verid vid burtför Biskups Halldórs 1752, eda

[239]) Eptir Kóngs-brefi til hans, frá 29da Maji 1744, nefndu bls. 603.

eða, sem ágætskað er, bls. 266, á milli Steins og Halldórs, er mér nú efasamt. Stephán Prófastur deyði 1754.

Jón Jónsson Vídalín, fæddur 1726, varð Prófastur 1755 — 1767; fyrst Prestur til Rípur og Víðvíkur 1748, til Þingeyra 1752, og til Laufáss 1755, deyði 1767, en kona hans Sigríður Magnúsdóttir viku síðar, og vóru þau bæði undir eins lögð í sömu gröf. Þeirra yngsta barn, Biskup Hra. Geir Vídalín var þá 5 eða 6 ára, er þau deyðu.

Stephán Þorleifsson, fæddur 1720, varð Prófastur 1768 — 1784 í nyrðra parti Sýslunnar; fyrst Capellán 1743, síðan Prestur 1749 til Presthóla, deyði 1784.

Sigfús Jónsson, fæddur 1731, vard Prófastur 1768 í vestari parti Sýslunnar, og sídan í henni allri; Prestur til Høfda í Høfdahverfi 1760, deydi 1803.

Hannes Lauritzson Scheving, vard Viceprófastur hérum 1797, og virkilegur Prófastur 1804; fyrst Capellán til Grenjadarstadar 1775, Prestur til Helgastada 1781, og til Laufáss 1797.

## XII. Sýslumenn mína á Atjándu Öld.

| I. Í Múla-sýslu: | vard Sýslumadr. | slepti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| a) í hennar Nordur-parti: | | | |
| Björn Pétursson á Bustarfelli féck þenna Sýslu part, | | | |

sem

| | Vard Sýslu madr | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| sem Páll Marteinsson vid hann sleppti = | 1695 | 1721 | |
| deydi eptir • | | | 1726 |
| Hans Løgsagnari og Vice-dómari frá 1714 var Þorsteinn Sigurdsson = | 1721 | 1751 | |
| deydi 87 ára = | | | 1765 |
| Pétur Þorsteinsson hans sonur, honum til adstodar frá 1748 • | 1751 | 1785 | 1795 |
| Pétur var einhvørr Aldarinnar merkilegasti Sýslumadur. | | | |



| | Vard Sýslumadr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| Bjørn Thómasson var hans Løgsagnari í fiærvern hans 1757—58 (siá XX) | | | |
| Guttormur Hjørleifsson, kom Pêtri til adstodar, med vonum Sýslunna eptir hann 1766, datt hraparlega af hestbaki, dróst í istadi, og laskadist svo, ad hann litlu sidar deydi = | | | 1771 |
| Gudmundur Pêturson adstodadi fødur sinn med sýslubrauds von frá 1773 = | 1786 | | |
| *b*) í Mid-partinum: | | | |
| Jessi Gudmundsson = | 1684 | | 1723 |
| Gísli Eiriksson tekr hans | | | |

| | Vard Sýslu madr. | sleppti Emb: | deydi. |
|---|---|---|---|
| Løgsagnari 1709 —11, en med Þordla tilkostnadi fékk | | | |
| Jens Wium von um Sýsluna eptir Bessa árid 1716 | 1723 | | |
| Um misverknad grunadur, hvart Jens snøgglega til fulls 240) | | | 1740 |



240) Hann var nefnt ár flutt sjóveg med þjenara eda Løgsagnara sínum Jóni Þorleifssyni og einum qvennmanni, á skipi med 5 mønnum á. Formadurinn fannst med tveimur stíngjum hjá vidbeinum daudur; þóktu þeir líklegir eptir korda, og í óvissum tilgátum var sídan, ad þeir 5 skipverjar hefdu fyrir hønum fallid í þrasi eda rýskíngum, og verid hrundid útbyrdis, en Wium med þjenara sinn komist í útlendar duggur; qvennmadurinn spurdist ecki heldur upp framar.

| | Vard Sýslu madr | slepti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| Hans Wium settur strax, 1740 (sjá *IV.*) | 1741 | | |
| Ut af saka-persónu Sunn evu Jónsdóttur barnsfaderniss lýsingu uppá hann, var honum, eptir Kóngsbodi 1751, ári seinna, edur 1752 — 56 vikid frá embætti, fèck eid, og embætti aptur 1756, med Hæstaréttar dómi [241]. | | 1778 | 1788 |

A med-

241) Sunnefa Jónsdóttir átti barn og lýsti fødur ad barninu bródur sinn Jón Jónsson. Medan þessi

| | Vard Sýslu madr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| Á medan var settur Sýslumadur 1752 — 56, Jón Sigurdsson (sjá *II.*) Jón Arnórsson eldri várd Wiums Lögsagnari, med von um Sýsluna eptir hann 1769 — 78, (sjá *XII.*) | | | |

c) í

þessi saka-hjón sátu í Wiums vardhaldi, eda áttu ad sitja, átti Sunnefa aptur barn 1741, en lýsti Hans Wium fødur, sem orsakadi hans afsetningu 1752—56. Auka-løgþing í þessu máli hjeldt Løgmadur Sveinn loks ad Ljósavatni um haustid 1756, og tildæmdi Sunnefu neitunar eid um samrædi vid bródur sinn, sem og játadi sig fødur seinna barns hennar. Wium mótmælti þeim eidi; Sunnefa deydi litlu sídar og sór ecki ádur; Kóngsbref til Amtm. M. Gíslasonar kom út

1004

| c) í Sudur-partinum: | Vard Sýslu madr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| Jón Þorláksson, bródir Biskups Þórdar Þorlákss. hérum | 1670 | | 1712 |
| Høskuldur Halldórsson var honum 1693 settur til adstodar, med Sýslu-von eptir hann, en hann deydi af undarlegri veiki hérum árid 1701, og vard þvi sonur Jóns Sýslumanns Þ. s. | | | |

Jón

10da Júlí 1757, sem band ád halda Auka-riett til ad leida þessi gomlu blódskammar-mál til lykta, hvørsvegna þáverandi Vice-løgm. Bjørn Marcússon og Sýslumadur Þórarinn Jónsson ferdudust austur í Múla sýslu. Jón Jónsson var dæmdur frá lífi í Yfirrjetti 1758.





| | Vard Sýslumadr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| Jón Jónsson Thorlacius hans Løgsagnari 1702, fèck von um Sýsluna eptir fødurinn 1704, deydi | | | 1708 |
| Hallgrímur Jónsson Thorlacius, Rector frá Hólum [242]), vard 1712 vid | | | |

dauda

[242]) Ogiptur átti hann barn, og hefir máskje 1711 þessvegna sleppt Rectors embætti. Þegar kiærasta hans, vegna þessarar yfirsjónar sagdi honum upp hollustu, er honum eignad ad hafa qvedid þessa alkienndu vísu:

Vyrdtú þad ecki mjer til meins,
Menn erum vjer, þó hrósum;
Þjer kann verda annad eins,
Adur enn lykur nósum.

Og mælt er ad sú spá hafi rættst.

dauda födur sins, af þeim Fullmektugu, Oddi Lögmanni og Landsfógeta Beyer, settur Sýslumadur.

Af brèfi Sýslumanns Jens Winus til Stiptamtmanns Rabens 1724, má ráda, ad margvíslegar breytingar hafi ordid med parta-Múla-Sýslu, þvi hann telur: ad Jón Þorláksson hafi í nockur ár haft 14 þingstadi af Sýslunnar 16, en 1684 gódviljuglega sleppt 7 af þeim vid Bessa, og ad 1703 hafi Jón í elli sinni sleppt enn

| Vard Sýslumadr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|
| 1714 | | 1736 |

| | Vard Sýslumadr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| þá 4 af sínum 7 vid Jón son sinn, hvørja 4ra þíngstadi Bessi hafi hjá þeim Fullmektugu fengid festa sér, eptir Jóns Jónssonar dauda 1708, og þanninn háft 11 þíngstadi, en Jón gamli Þorláksson 3, sem Hallgrímur sonur hans eptir hann féck, en eptir Hallgríms fráfall (sjá meira um hann í Rectóratali á 18du Öld), vard Mid- og Sudur-múlasýsla 1737 ad einni Sýslu, undir Hans Wium, þókti þó sídarmeir ofstór eda of- | | | |



| | Vard Sýslumadr | sleppti Emb | deydi. |
|---|---|---|---|
| góð, var því allri Múlasýslu, eptir Kóngsbréfi af 29da Mart. 1779, skipt í 2 jafnari parta; héldt Petur þeim nyrdra, en í þeim sydra, vard, þá fyrirververandi, | | | |
| Þorlákur Jsfjord, (sjá *XII*) Sýslumadur , , | 1778 | | 1780 |
| Jón Sveinsson , | 1781 | | 1799 |
| Þórdur Skúlason Thorlacius , , | 1800 | | |
| II. Í Austur-Skaptafells-sýslu: | | | |
| Jsleifur Einarsson , | 1684 | | 1720 |
| Jón Jsleifsson, vard Lög- | 1721 | | |

sagn-

| | Vard Sýslumadr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| sagnari 1716[243]). | | 1726 | 1733 |
| Jón Þorsteinsson, Klaustur-haldari, var settur Sýslumadur í hins stad 1726—31 (sjá *III.*) en, árid 1731 —34 var Jón Sigurdsson, settur þar Sýslumadur, sidan í Mid-múla-sýslu, | | | |

 1752—

241) Hann var settur frá af Amtmanni Fuhrmann 1726, fyrir grunsamt falskt þingsvitni; átti hann lengst af í útistödum og Þrasi hjer um úr því, uns hann deydi.

| | Vard Sýslu madr. | sleppti Emb. | deydi |
|---|---|---|---|
| 1752—56 (sjá *I. b*) 244) Skúli Magnússon, (sjá *XVIII.*) | 1734 | 1737 | |
| Sigurdur Stephánsson, (sjá *IV.*) | 1738 | 1758 | 1765 |
| Sigurdur Olafsson, sídan Klausturhaldari ad Kirkjubæ, vard 1758—59. Þá hinn sagdi af sèr, þar settur; líka vid og vid í Skaptafells-sýslum, svo sem 1768 og 1781, og í Gullbringu sýslu | | | |

244) Hann sókti lengi mál á Løgþingi, svo sem madur frætugjarn, seinast 1767, deydi litlu seinna, nálægt 1770.

| | Varð Sýslu madr. | sleppti Emb: | deydi. |
|---|---|---|---|
| sýslu 1792, í einstökum málum Dómari. | | | |
| Jón Helgason [245]) . | 1758 | 1798 | |
| Christján Vigfússon, settur í hans stað 1798, frádæmdr 1804. | | | |
| Jón Þorleifsson, settur Dómari 1798, (sjá *IV*) | | | |
| *III.* Í Vestur-Skaptafells-sýslu: | | | |
| Olafur Einarsson (bróðir Ísleifs, (sjá *II.*) . . | 1691 | | 1717 |



[245]) Atti opt erfidt og í stappi fyrir Yfirrjettinum, var settur frá 1798, frádæmdur 1799, og [illegible]
ar



| | Vard Sýslumadr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| Bjarni Nikulásson, vard Olafi til adstodar med vonum Sýsluna 1714 [246]) | 1717 | 1755 | 1764 |
| Jón Þorsteinsson var hèr settur Sýslumadur 1731 —36 (ádur sjá *II.*) deydi hèrum 1747. | | | |
| Þorsteinn Bjarnason (Nikulássonar), vard Bjarna Løgsagnari 1751 | | | — 54 |

ar, enn í mála-vastri, um embættis-hald eda tøpun.

[246]) 1731 var honn settur frá, søkum falska þíngs-vitnis-málsins (sjá 243 skíring. gr.) til 1736, þá hann vann mál sín fyrir Hæsta-rjetti; en sagdi af ser 1755.

| | Vard Sýslu madr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| —54 [247]). | | | |
| Lýdur Gudmundsson (sjá IV.) settur, þá Bjarni sagdi af sér 1755, ; | 1756 | 1801 | |
| IV. Í Vestmanna-eyjum: | | | |
| Ólafur Arnason, var 1696 eda fyrri, Lögsagnari hjá Sýslumanni þar, Markúsi Snæbjörnssyni, sem deydi 1697, og fékk eptir hann Sýsluna hérum ; ; | 1698 | | |
| hefir líklega dáid nálægt ; | | | 1723 |

U 3     því

247) Þorsteinn komst sár-illa frá Dómara-verkum, þeim frádæmdur 1754 ; ; 55, dróst sídann upp í gulu og vesældómi.

| Því þá er þar fyrst settur Sýslumadur | Vard Sýslumadr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| Sigurdur Stephánsson, ní. 1723, sem fèck brandid : (sjá undir *II.* meira um hañ) | 1725 | 1738 | |
| Háns Wium telst hèr ad hafa verid settur Sýslumadur milli Sigurdar og Bødvars 1738—40 (sjá *I.* vid *b.*) | | | |
| Bødvar Jónsson : : | 1740 | | 1754 |
| Þordur Gudmundsson, fèck embættis-brèf uppá sýsluna, en var í á. settur Sýslumadur í Vestur-Skaptafells sýslu, þá Bjarni Nikulásf. sagdi af sèr (sjá *III.*) | 1755 | | |

Bryn=

| | Vard Sýslumadr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| Brynjólfur Brynjólfsson vard Løgsagnari í Eyunum eptir Bödvar 1754 allt til 1758, því, þó Halldór Jakobsson fengi hér Sýsluna . . | 1757 | | |
| var hann s. ár settur Sýslumadur í Stranda-sýslu, hverri Einar Magnússon þá sagdi af sér (sjá *XVI.*) | | | |
| 4 Sigurdur Sigurdsson . | 1758 | 1786 | |
| 1760 var hann, á medan á affetningar-málum Erlendar Olafssonar stód, til 1766, settur Sýslumadur í Isafjardar-sýslu, kom þó aptur til Eyanna 1768. | | | |

| | Vard Sýslu madr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| (sjá meira vid *IX.*) Á medan, eda frá 1760—68 stódu fyrir Sýslumanns embætti í Vestmanna-eyum, fyrst: | | | |
| Þorlákur Expressur Gudmundsson frá Selárdal, sem 1754 var settur Sýslumadur i ata sinni, í Erlendar Sýslumanns Olafssónar fyrri útistödum, vard 1759 Klausturhaldari ad Þyckvabæ, en nú hér í ödru sinni settur Sýslumadur. Seinast vard hér settur Sýslumadur 1768 | | | |

Einar

| | Vard Sýslumadr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| Einar Jónsson, fyrrum Rector í Skálholti. | | | |
| Jón Eiríksson (bródir Jóns Conferents-ráds) = = | 1786 | | 1796 |
| Jón Þorleifsson var settur Sýslumadur 1797 = | 1801 | | |
| Jón Gudmundsson var hér á milli Sýslumadur 1798 —1801, en fékk þá Vestur-Skaptafells-sýslu. | | | |
| V. Í Rángárvalla-sýslu: | | | |
| Hákon Hannesson, fékk vonar-bréf fyrir Sýslunni eptir Gísla Magnússon 1688, | | | |



| | Nard Sýslu madr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| stadfest 1701, og Sýsluna vid hans dauda 248) = | 1696 | | |



248) 1711 var hann af Þeim Fullmecktugu, Oddi
Løgmanni og Landfógeta Beyer orsaka-litid af-
settur, en hálf sýslan strax af Þeim veitt Bryn-
jólfi Þordarsyni Thorlacius frænda Odds, en
Kóngur band 1712 og aptur 1714 ad setja Há-
kon aptur strax í embættid, og gjora honum skil
fyrir embættisgjøldum. Jón Vice-løgmadur Ej-
ólfsson hafdi um Þessa afsetningu Hákonar bedid;
Því er audrádid ad honum og Oddi ecki hafi vel
gjedjast bodord Kóngs 1712 og 1714 ad setja
Hákon inn í embættid aptur, um hvört Bryn-
jólfur 1712 forgiefins sókti. Merki Þess tel eg:
ad Løgmadur Oddur Sigurdsson og Vice-løg-
madur Jón Ejólfsson 1714, dæmdu Hákon
undir





| | varð Sýslumaðr. | sleppti Emb. | deyði. |
|---|---|---|---|
| Hákon Sýslumadur deydi 7tugur hérum.[249]) | | | 1730 |
| Brynjólfur Þórdarson Thorlacius fékk hjá þeim Fullmektugu ½ Sýsl. | | | |

una

undir Kóngs úrskurd á ný, hvort embættinu mætti halda edur ecki vegna Arrestis eda fyrrsetningar á nockrum verdaurum, er Hákon hafdi giort, en nockru seinna sán þeir sitt óvænna, komu saman í Løgrjettu 1716, og lýstu þar merkilega: ad þeir vogist til, í Guds traústi og Lagaleyfi: ad upphefja þeirra eginn ádur áminnsta Dóm, 1714. Sjá Løgþ. b. 1716 No. III

[249]) Hann hafdi, frá 1724, Níkulás Magnússon Løgsagnara, og sókti 1726 Kóng um, ad veita honum ½ Sýsluna, med von um hana alla eptir sig, sem veittist 1727.

| | Vard Sýslumadr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| una sér veitta 1711, medan Hákon var frásettur, sókti um hana 1712, fékk affsvar 1713 (sjá *VI.*), en fyrir hálfri Sýslunni var 1711 —13 settur | | | |
| Stephán Jónsson, sem Lögsagnari. | | | |
| Páll Hákonarson var og Hákonar Lögsagnari frá 1716 —24 | | | |
| Níkulás Magnússon, Lögsagnari frá 1724 [250]) = stackst í gjá á Lögþíngi = | 1727 | | 1742 |

Jón

[250]) 1740 sat Nículás í Lögmanns Beckers stad á Lögþíngi, vegna hans lasleika, eptir Amtmanns Lafrentzes skipun.

| | Vard Sýslumadr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| Jón Þórdarson, Løgþingisskrifari (sjá bls. 261), var af Amtmanni Lafrentz eptir hann settur Sýslumadur, en á milli Vestmannaeya og lands, drucknadi hann um vorid | | | 1743 |
| Þorsteinn Magnússon [251]) | 1743 | | 1785 |
| Jón Jónsson, fèck Kóngsbrèf uppá embættid eptir Þorstein 1768, og var honum til adstodar upp þadan | | | |
| Þorleifur Nikulásson Sýslumanns Magnússonar, | | | 1788 |

[251]) Hann var einhvorr hinn merkilegasti Sýslumadur, og sá fyrsti Íslendingur, sem tók juridiskt Attestats.

| | Vard Sýslu madr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| sonar, var settur Sýslumadur eptir Jón 1788 —89, og var á stundum honum til hjálpar seinast í lasleika hans (sja bladsí. 262). | | | 1805 |
| **Vigfús Þórarinsson**, (sjá *VII* og *VIII*.) Þjónadi Lögþingis rètti 1784, í stad Lögmanns B. Markúss. | 1789 | | |
| *VI.* Í Árness-sýslu: | | | |
| **Hans Vilhjálmsson Londemann**, danskur, sigldi hèdan alfarinn 1692 med konu og börn [252]), vard | 1682 | | |

252) Því ad eins set eg þennann Hans Londemann í Sýslumanna-tölu á 18du Öld, ad eg hygg hann hafi

seinast Tollheimtumadur ad Presteyu í Wordingborgar-Amti á Sjálandi[253]), og deydi hér-

Arness-sýslu haldid fram yfir aldamótin, edur til 1702, þá Vigfús [illegible]nesson, þann 19da Maji fieck nýtt veitingar-bref fyrir Sýslunni. Eg segi nýtt, því árid 1694, þann 12ta Maji, fieck hann og Einar Ejúlfsson Köngsbref hvørr fyrir hálfri Sýslunni, eptir Londemann, en vóru þá og framvegis hans Løgsagnarar. Þannuinn nefnir og álítur Doctr. Finnur Jónsson Einar þenna Ejúlfsson alltaf, hvad Arness-sýslu snerti, en hann vard Sýslumadur í Snæfellsness-sýslu 1695, komst þó ecki þángad heldur deydi í Arness-sýslu s. á. (sjá F. Johann. Histor. Eccles. Isl. T. III. Pag. 557 og 566). Eptir hann finnst hvørki heila ne hálfa Sýslan ad vera ødrum veitt, heldur ad Vigfús einn hafi fyrir henni stadid Londemanns vegna, uns hann algiørlega feck hana alla 1702.

[253]) Sjá Thormod Torfesens Levnets-Beskrivelse ved J. Erichsen 1788 bls. 14.

hérum 1705[254]).

Vig-

254) Í Lögþ. b. 1705, býdur Halldór Sýslumadur Einarsson erfingjum (eda samerfum) Everts Hanssonar Londemanns ad leysa til sín, ef vilji, 5 Hundr. í Þyckvabæ, sem eptir líkindum hafa þá ad erfdum eptir Hans verid Evert tilfallin. Hans Londemann var giptur Gudrídi Marcúsdóttur, dóttur Gudrúnar Torfadóttur, Erlendssonar Sýslumanns í Arnesós-sýslu, en systurdóttur Þormóds Torfasonar, konungleg Sagna-skrifara. Af þeirri Gudrídi eru merkilegir ættleggir sprottnir, því sonur hennar og Hans Londemanns, fyrrnefndur Evert edur Játvardur, hjer fæddur 1680, fjeck sídan ýmislegg geistleg og verdsleg embætti, loksins Biskups-titil og vard 1749 hafinn í Adals-stjett, med nafninu Rósencróne, en deydi sama ár. Þadan er sú blómstrandi Greifa-ætt af Rósencróne upprunnin. Gudrún

| | Vard Sýslumadr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| Vigfús Hannesson var Lögsagnari frá 1694 = | 1702 | | |
| deydi snegglega heima = | | | 1715 |

X.

Axel

rún Marcúsdóttir systir Gudrídar, var módir Sýslumanns Marcúsar Bergssonar, fødur Lögmanns Björns Marcússonar, sjá Worms Lexicon over lærde Mænd; Thormód Torfesens Levn. Beskriv. ved J. Erichsen Bls. 12, 13 og F. Joh. Hist. Eccl. Isl. T. III. pag. 568 nótu a). Ad Henrich Londemann hafi verid sá nafnfrægi Gledispils-leikari í Kaupmannahøfn, og Everts Hanssonar Londemanns sonur en Gudrídar Marcúsdóttur sonar sonur, sem Sýslumadur Magn. Ketilsson vill telja (í Ísl. Maanedstidend. 1te Aarg. Bls. 20), kjemst ecki heim vid lýs-



| | Vard Sýslu madr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| **Axel Fridrik Jónsson**, vard hér Løgsagn. 1714. **Sigurdur Sigurdsson** eldri, Løgþingisskrifari, (sjá bls. 259) fêck brêf fyrir Arness-sýslu, útgêfid 10da Nóv. 1715, af Sýslumanni Laurusi Scheving, hvørn Løgmadur Oddur Sigurdarson, er sigldi s. á., setti hêr Stipt-amtmanns | | | |

Full·

lýsingu nafns, ættar og ástands þessa ordlagda Leikara hjá Worm (i fyrrnefndrar bókar 3 Parts Vidbætir bls 955), sem ecki heldur kannast vid hann undir Hendrichs heldur Gerhards Londemanns nafni.

| | Vard Sýslumadr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| Fullmektugann í sinn stad, en þar þeim Fullmektugu sjálfan kom saman um þær mundir í embættis-verkum, gaf Landfógeti Beyer, þann 9da Maji 1716 Grími Magnússyni og Torfa Hanssyni Londe-mann bréf fyrir Arness-sýslu; þá alla boladi þó frá ári sídar | | | |
| Brynjólfur Þórdars. Thorlacius 255), | 1716 | 1721 | 1762 |



255) Danskt herskip, ad nafni Gottenborg, send þingad til varnar kaupförum, strandadi nædr.



| | Vard Sýslu madr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| sem gaf til Sýslunnar 300 rdl. (sjá V.) | | | |
| Grimur Magnússon, var hér lengst af Løgsagnari frá 1715, og sókti um Sýsluna, þá Brynjólfur beiddist eptir ad sleppa 1720 [256]) | 1721 | | 1723 |
| Niels Kjer, Vice-løgmadur (sjá bls. 243) vard eptir | | | |

vetur 1718, eins og fyrr segir bls. 202, vid Hafnarskeid í Arnes-sýslu. Stapp um medferd og skil á ýmislegu þar tilheyrandi, hjeldu nockrir ad hit hefdi nudir Brynjólfi Thorlacius 1720 ad beidast lausnar frá embætti.

[256]) Hann stack ser i brunn hjá Lángholti í Flóa; en, þó hann tjádist biladur til gjedsmuna, var hans buslód samt, fyrir þetta atvik, upptæk gjørd.

| | | | |
|---|---|---|---|
| ir Grím settur Sýsslumadur 1723 —24, uns vid embættinu tók | vard Sýsslumadr. | sleppti Emb. | deydi. |
| Sigurdur Sigurdsson eldri, Løgþingisskrifari fyrrnefndur (sjá bls. 259) = | 1724 | | 1746 |
| Brynjólfur Sigurdsson, vard 1733, þá úr siglingu kóm, Conrector í Skálholti, en frá 1734 fødur sins Løgsagnari, = = | 1746 | | 1771 |
| Gudni Brynjólfsson fékk med Kóngs-brefi 1769 von um Sýssluna = = | | | 1770 |
| Einar Brynjólfsson eldri, hefir, sem Løgsagnari 1771 dæmt nockra dóma. | | | 1785 |

 Þor-



| | Vard Sýslu madr. | sleppti Emb. | deydi |
|---|---|---|---|
| Þorlákur Ex-prestur Gudmundsson, vard hér í 3ja sinni settur Sýslumadur 1771 eptir Brynjólf (sjá *IV* og *XV.*) ; | | | 1772 |
| Steindór Finnsson (Biskups Jónssonar) ; | 1772 | | |
| *VII.* Í Gullbringu-sýslu: | | | |
| Jón Eyúlfsson var 1683 þegar Sýslumadur í Gullbringu- og Kjósar-sýslum [257]), en synist ad hafa | | | |

sleppt

257) Jón tjáist þá hafa Sunnlendínga Fjórdúngs vegna, uppá Taxtann siglt, þó er mjer óljóst hans

fyrsta

| | Vard Sýslu madr. | sleppti Emb: | deydi. |
|---|---|---|---|
| Var frægur lögvitríngur á sinni tíd, og frígédja madur[296]), féll þó í Stóru bólu : : | | | 1707 |
| Pétur Markússon var hér Lög-sagnari þegar 1701, þó meina eg Pétur enn hafa stadid fyrir Sýslumanns-verkum eptir Halldór 1707, en sjálfann og í Stórubólu dáid : : | | | 1707 |
| Þorgrímur Jónsson í | | | |

Reyk:

[296]) Mælt er ad hann hafi sagt, þá fyrst frjetti til bólunnar: ecki skal hún fella mig! og eptir þad hún greip hann, verid á felli til þrautar, aldrei lagst, en loks af henni daudur hnígid.



| | Vard Sýslumadr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| Reykjahlíd, var þegar 1699 Lögsagnari, en tók þá aptur vid 1708, og deydi hérum = | | | 1709 |
| Benedikt Þorsteinsson, sídan Lögmadur (sjá bls. 248.) var Sýslumadur frá 1708, þá settur; fékk ad eins festibréf fyrir Sýslunni . en kóngl. stadfestingu fyrst 1725. . . | 1710 | | 1733 |
| Olafur Arnason meinast hér verid hafa Lögsagnari eda settur Sýslumadur 1733 til 1734, þá hann vard Skrifari hjá Amtmanni Lafrentz og Full- | | | |

mekt-

| mektugur í fjærveru hans 1736—1737 (sjá *XIV* og *XV*.) | Vard Sýslu madr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| Jón Benediktsson, vard settur Sýslumadur 1734, hann fèck | 1735 | | 1776 |
| Bjørn Thómasson, sem Løgsagnara 1756. | | | |
| Vigfús Jónsson var Jóni til adstodar gèfinn med von um embættid eptir hann 1766 = = | 1776 | | |
| biladist til heilsu og gèdsmuna 1783, fèck lausn frá embætti = = | | 1786 | |
| deydi rænu-skèrdtur voveiflega úti = = | | | 1795 |



| | Vard Sýslumadr. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| Bjørn Thómasson nýnefndur (sjá *I, a*), var, þá Vigfús biladist 1783, settur ad gegna Sýslumanns-verkum, sem hans Legsagnari, en frá 1786 stód hann, eptir kónglegri skipun, einn fyrir Sýslunni, og vard virkilegur Sýslumadur þ. 27da Aug. = = | 1790 | | |
| þessi ordlagdi reglu- og ráð-vendnis madur deydi = | | | 1796 |
| Þórdur Bjørnsson vard settur Sýslumadur eptir Fødurinn 1796 = | 1797 | | |

## XIII. Rectóres Látínu-skólanna:

| a) Í Skálholti: | Vard Rect. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| 1.) Þórdur Jónsson, Biskups á Hólum Vigfússonar, 13 ár [297] | 1698 | 1701 | 1720 |
| 2.) Magnús Jónsson Biskups Vigfúsonar [298] | 1701 | | 1702 |
| 3.) Magnús Markússon [299], merkilegur Rector í 6 ár | 1702 | 1708 | 1733 |



[297] Hann fekk vonar bref fyrir Stadastad 1701, vard þar Prestur, og Prófastur í Snæfellsnessýslu 1702.

[298] Hann drucknadi á Örfars-eyjar Granda.

[299] Hann var fadir Biskups Gísla, og fieck Grenjadarstad 1710.

| | Vard Rect. | sleppti Emb: | deydi. |
|---|---|---|---|
| 4.) Jón Halldórsson[300], stód fyrir Rectors embætti í 2 ár , , , | 1708 | | 1736 |
| 5.) Þorleifur Arason (Thorkelín), í 8 ár[301]) , | 1710 | 1718 | 1727 |

6.)

[300]) Hann var Prestur til Hýtardals og Prófastur í Mýra-sýslu, vard Stipt-prófastur 1720. (sjá bls. 263. og 273.)

[301]) Hann feck Breidabólstad í Fljótshlíd 1718 og var sama ár kosinn Prófastur af Prestum í Rángár-þingi, hvad Biskup Mag. Jón Vídalín og samþyckti, en Þorleifur færdist sífellt undan ad takast embættid á hendur, og qvad sig, sem ýngsta Prest þar, öldúngis þartil ófærann. En — undir eins og Biskup Vídalín var andadur, fann hann sig ecki einúngis færann til Prófasts-embættis, hvört hann þá þóktist hafa í 2 ár, heldur og til Biskups-embættis, uppá hvört hann sama haust sigldi

| | Vard Rect. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| 6.) Erlendus Magnússon, í 6 ár [302] | 1718 | 1723 | 1724 |
| 7.) Bjarni Halldórsson, í 5 ár [303] | 1723 | 1728 | 1772 |



sigldi og lagdi allt fram til ad ødlast þad, en — 1721 kom hann svobúinn út híngad aptur og tók þá fyrst vid Prófasts-verkum. Hann átti opt í mála-vafsri, seinast greylegu mót Páli Kinch, undan hvørs úttekna Hæsta-rettar sjefnu druckan Þorleifs í Markarfljóti 1727 feck honum heppilega skotid, (sjá 319 skíríngargr) og F. Joh. Hist. Eccles. Island. T. III. pag. 544-45.

302 Hann vard Rector á Hólum 1723, í 1 ár, Prestur til Odda 1724, deydi sama ár, besti Rector, mesti gáfumadur.

303 Vard Sýslumadur í Húnavatns-sýslu 1728, og þar størgjerdur embættis-madur (sjá bls. 387.)

| | Vard Rect. | fleppti Emb. | deydi |
|---|---|---|---|
| 8.) Jón Þorkellsson í 9 ár [304]) | 1728 | 1737 | 1759 |
| 9) Gísli Magnússon Rectors (sjá No. 3.), var Rector í 9 ár [305] | 1737 | 1746 | 1779 |



304) Hann reisti med Harboe, sem Sekreteri hans hjer hjá mjer, fyrir 150rdla. árleg laun, gaf samansparadar eigur sínar til Barna-skóla stiptunar 1759, undir umsjón Stiptamtmanns míns og Biskupsins yfir Sjálandi (sjá bls. 145), og deydi í Kaupmannahöfn sama ár, var lærdur madur, en opinn, lasimáll og illa lidinn.

305) Fjekk Stadastad og Prófasts-embætti í Snæfellsness-sýslu 1746, en Biskups embætti á Hólum 1755.

| | Vard Rect. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| 10.) Einar Jónsson, ádur Conrector [306] , , | 1746 | 1753 | |
| deydi nálægt , , | | | 1781 |
| 11.) Mag. Bjarni Jónsson, ádur Conrector nockur ár, vard Rector [307] , | 1753 | 1781 | 1798 |



306 Hann gaf upp ad kienna sökum augnveiki, og gjördist 1753 settur Sýslumadur í Snæfellsness-sýslu, en 1754 Rádsmadur í Skálholti, og um 1768 var hann settur Sýslumadur í Vestmannaeyjum (sjá bls. 313. og 343.)

307 Embætti þessu þjónadi hann med mesta sóma, allt fram á vorid 1781, og dimitteradi á sögdum tíma alls 194 (sjá Fortegnelse over Disciple, dimitterede fra Skalholt Skole 1754 - 1781, ved Rector B. Johnsen, Kjøbenh. 1782. Allir þeirra, sem enn eru lifs, munu heidra þessa ágæta

| | Vard Rect. | fleppti Emb. | Deydi |
|---|---|---|---|
| 12.) Páll Jakobsson, í mørg ár Conrector i Skálholts- og Reykjavíkur-skólum, uns hann 1804 fêck lausn frá þessu embætti, stód frá 1781—1784 fyrir Rectors embætti, en vid því tók | 1781 | 1784 | |
| 13.) Gísli Þórdarson Thorlacius ; ; fêck lausn frá embætti 1804. Sekum hans elli lasleika, stód | 1785 | 1796 | |
| 14.) Jakob Arnason fyrir hans embætti frá 1796 til aldamótanna [308]). | 1796 | 1800 | |

b) A

Lærimeistara minníngu); vard Prestur ad Gaulverjabæ 1781.

308) Hann vard þó 1799 Prestur til Gaulverjabæar.

| b) Á Hólum: | Vard Rect. | sleppti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| 1.) Jón Arnason, í 12 ár [309]. | 1695 | 1707 | 1743 |
| 2.) Jón Einarsson var Conrector á Hólum 1698—1702, fékk Kóngsbréf uppá Rectors embætti 1697, en, ádur enn hann tók ad þjóna í virkilegu Rectors embætti, deydi hann í Stóru-bólu | | | 1707 |
| 3.) Þorleifur Skaptason, hafdi, eptir Jóns dauda, Rectors embætti á hendi 1707 — 1708 [310]. | | | 1748 |

309 Hann vard 1707 Prestur ad Stad í Steingrímsfirdi, 1708 Prófastur í Stranda-sýslu, 1722 Biskup í Skálholti og Magister ad titli.

310) Hann var Dómkirkjuprestur ad Hólum, sídan Prófastur Skagfirdinga allt ad 1724, þá hann

| | Vard Rect. | slepti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| 4.) Hallgrímur Jónsson Thorlacius[311]. | 1708 | 1711 | 1736 |
| 5.) Mag. Þorleifur Halldórsson, kom út med Biskupi Steini, vard Rector[312] | 1711 | | 1713 |
| 6.) Snorri Jónsson Sýslumanns Magnússonar (sjá bls. 366 - 68), vard Conrector 1712, Rector[313] | 1713 | 1720 | 1755 |

7.)

feck Múla Presta-kall, vard Prófastur í Þingeyjar-sýslu 1734 — 48 (sjá meira um hann bls. 266 og 281 - 82.)

[311]) Hann vard, 1712, Sýslumadur í Sudur-parti Múla-sýslu (sjá bls. 301 --2).

[312]) Þessi ordlagdi gáfu-madur deydi af megru-sótt og vanþrifum.

[313]) Hann fieck Kóngsbref fyrir Helgafelli 1717, en kona hans fæddi honum heldur snemma barn, sv

| | Vard Rect. | stepti Emb. | deydi. |
|---|---|---|---|
| 7.) Gudmundur Bergmann, Biskups Steins sonur, var Rector í 3 ár | 1720 | | |
| drucknadi | | | 1723 |
| 8.) Erlendur Magnússon í 1 ár. Um hann sjá No. 6. í Skálholts Rectóra tølu. | 1723 | | 1724 |
| 9.) Sigurdur Vigfúss. [314] | 1724 | 1742 | 1753 |
| 10.) Gunnar Pálsson [315] | 1742 | 1753 | 1791 |
| 11.) Stephán Bjørnsson, | | | stód |

- hann feck kónglega uppreisn 1719, og komst því fyrst 1720 til Helgafells, vard þá og Prófastur í Snæfellsness-sýslu.

314) Hann þókti tæpur í Skóla-lærdómi, í Harboes tíd, hvorjum bodid var ad yfirheyra hann; vard Sýslumadur í Dala-s. 1746, fyrir medalgangu Harboes.

315) Fieck Hiardarholt í Dala-sýslu, og vard þar Prófastur 1753.

| | Varð Rect. | sleppti Emb. | deyði |
|---|---|---|---|
| stóð fyrir Rectors embætti 1753 — 55 [316]). | | | |
| 12.) Hálfdán Einarsson, í 30 ár, varð Magister 1765, tvisvar Stipt-prófastur 1779 og 1781; gjørdi og flest Biskups-verk á seinustu árum Biskups Gísla (sjá bls. 267); hann ødladist tvefalda lausn í náð, frá embætti og frá mædusömu lífi [317]) = = | 1755 | | 1785 |

13.)

316) Hann sigldi þá, flæktur í þras við Stiptprófast Jón Magnússon, lifdi sidan við fátækt og frægð af lærdómi miklum í mælingar-frædi, uns hann deydi í Kaupmannahøfn 1798.

317) Hann var gódlyndur og þolinmódur madur, einhverr hinn forþjentasti ydju- og lærdóms-mad-

3.) Hallddór Hjálmarsson, lengi Conrector, stód fyrir Rectors embætti eptir Hálfdánar dauda, þegar Skóli vard haldinn, frá 1785 til 1789; deydi 1805.

4.) Páll Hjálmarsson fékk embættid 1788, kom ad Hólum ásamt Biskupi Sigurdi, 1789.

ur, fieck og árid 1778, þá blſ. 151 nefndu 3. Minnis-peninga, ſer ſkenkta til heidurs fyrir ſitt merkilega lærda rit: um íslendſka Rithøfunda, 2 frá Kóngi og 1 frá Hans konúnglega Bródur. (Sjá Forberedelſe til Olavii Reiſe blſ. CLXX.) Hann gaf eptir ſig 20 ſkrifadar ritgiørdir um andleg efni, Hóla Dómkirkju, en til Hóla-ſtipts bref-ſkiala-hyrdſlu bindini gamalla reikninga, brefa og ſkiala, egid Safn ſitt til Preſta-tals Hóla-ſtiptis og annad ad Æfiſøgum lútandi; en Skólanum: Worms Lexicon yfir lærda menn og Gjeſſing um Júbil-kjennendur.



1789. Med Skólanna samsteypingu 1801, fæckadi Rectors embætti nyrdra.

---

Nú hefi eg þanninn í veikleika varpad ad eins telu á mína hellstu Yfirmenn og Frædara, um ockar samveru tíma, mín framlidna! ad því leiti eg til man; sumir þeirra lifa enn mér til heilla, þó meiri fjøldinn sé mér horfinn; medal þessara mér øldúngis horfnu sakna eg hvad mest:

Stiptamtmannanna: O. M. Ranzaus og L. A. Thódals.

Biskupanna: Jóns Þorkéllssonar Vídalíns, Jóns Arnasonar, Doctors Finns Jóns-

Jónsſonar og Doctors Hanneſar Finnsſonar [318].

Amt-

[318]) Um verd Þeſſa mikla manns víſa eg til hans Æfiſögu, prentadrar 1797 og Minnisverdra Tídinda 1796 1. B. blſ. 268-72 med Þar í blſ. 295-322 framſettri, enn Þótt ófullkominni Heidursminníngu hans; vid hvørja eg met ſkyldu mína hjer ad bæta eptirfylgjandi ýngri, edur mjer-Þá óÞeckri:

Þrútin af ecka Þryckti hjálm
  Protin Minerva ſældar gengi,
Yfir-fram ſtudd á Atgeirs ſkálm,
  Andadann fyrgdi Hannes lengi.
Frá harma djúpi hvøſſum augum,
  Hvarfladi Landſins yfir mengi,
Lifandi menn og lagda haugum,
  Litid jafn-oka hans ef fengi.

Ap-

Amtmannanna: N. Fúhrmanns[319]) og Magnúsar Gíslasonar.

Leg-

Appolló horfdi ófugt vid
I ángurs líka beygdur kengi,
Kropinn á øndverdt kletta-rid
Knúdi hljóð-dymma Gýgju-strengi.
Hvørjir støllundum hamra belltum
Hljómi frá eg ad eptir þreyngi,
Sem ad laungum í lopti hvelltu,
Lætur margtekid: einginn, eingi.

Hvørr, sem á vandadann skáldskap ber skynbragd, mun ecki halda villu-gjarnt um høfundinn, heldur vyrda ofanskrifadar støkur fullverdugar Assessors B. Grøndals meistaralega skáldskapar anda.

342) Fúhrmann var madur fyrir-mannlegur, skarpvitur, málsnjall, í flestum Lærdóms-mentum og í mørg-

morgum túngumálum svo lærdur, ad vansjed er, hvort nockur verdslegur Yfirmadur hjer á 18du Öld, hafi, ad øllum lærdómi samlagdum, tekid honum fram. Þared hann ásamt var madur frid- en þó stjórn-samur, ljúfur og lítilátur, gladsinna og giestrisinn, tryggur og vinveittur, og stundadi ecki eptir nockurs manns ólucku edur hrøsun, heldur ad fá óreglur sem mannúdlegast afmádar, øllu hrundid sem best í lag og haldid vid fridsemd í Laga-stjórn, verdskuldadi hann og ávann, sem einhvørr merkilegasti og besti Yfirmadur, almennings lof og søknud, því framar, sem hann ad þvílikum dádum og øllum dugnadi, var Formanni sínum, Amtmanni Müller, miøg svo ólíkur. Í ýmsu tilliti átti hann þó erfidt: fyrst vard hann eptir Kóngsbodi þ 3ja Aug. 1716 ad kaupa vonina um Amtmanns embætt-

## Magnúsar Gíslasonar og Sveins Sölvasonar.

Land-

bættid fyrir 1000rdli, og þó undirgángast 1718, ad gjalda af því helmíng launa edur 200rdli. árlega til Amtmanns Müllers, sem deydi loks 1720. Hvad þó ecki gat fríad Führmann frá ad gjalda stríds-skatt af embætti sins þá verandi fullu launum edur 400rdlm. Auk þessa bættust á hann enn ur þýngri utlát: Hann hafdi nefnilega, skuldbundid sig skriflega til ad ekta Yngis-stúlku ad nafni Appollóne Schwartzkopf, en — hjónabandid dróst lengi, honum snjeriſt því hugur til annarar, ad nafni Katrine Hólm. Appollóne, sem elskadi Führmann af hjarta, gat ecki vitad hina eignast hann og stefndi honum því um þetta fyrir Consistorial-rett, hvers dómur fiell honum á móti, svo hann appelleradi því máli til Hæsta-rettar, sem 1719 dæmdi Furhmann skyldugann ad ekta Appol-

Landfógetans: Skúla Magnússonar.
Logþingis-skrifaranna: beggja Sigurda Sigurdssona.

Dd 2 Stipt-

pollóne. Hún ljet dóminn honum anglýsa, til hvørs hann engn gjegndi, en fjeck því meiri óbifur á ad ekta hana, sem hún frekar ásókti. Hún skírdi Kóngi frá þessu og fjeck útvegad hans skipun þann 24da Febr. 1721 til Stiptamtmanns Rabens, ad tilhalda Amtmanni Fúhrmanni, annadhvørt ad hlýdnast Hæsta-rettar Dómi, eda gjallda Appollónu Schwarzkopf árlega 200rdli af launnum sínum. Til þess ad hlífa honum vid þessu útgjaldi og í von um ad fá hann enn mýktann til trygda vid sig, ferdadist þessi góda Yngis-mey híngad sjálf til hans 1722 snemma vors, og settist ad hjá honum á Bessastødum. En — litlu seinna kom Katrine Hólm og módir hennar út híngad til Amtmanns, og vóru þar bádar í meiri metum hinni,

en



Stipt-prófastanna: Jóns Hallórsson-ar, Þorleifs Skaptasonar og Mag. Hálf-dáns Einarssonar.

Sýslu-

en fæd vard mikil þeirra og hennar á milli. Loks-ins deydi Appollóne 1724 uńdarlega. Hún hafdi litlu ádur til sín kallad Kaupmanns-svein nockurn, ad nafni Pál Rinch, og sagt honum, ad ser mundi vera eitur í mat inngefid, sem valda mundi dauda sínum og bedid hann bera þad náúngum sínum er-lendis í sínu nafni. Páll Rinch fór utan sama ár og gjørdi svo, var þar náqvæmlega undir ran-sókn og í eid tekinn, hvarsvegna Kóngur útnefndi þann 17da Maji 1725 Þorleif Prófast Arason og Hákon Sýslumann Hannesson, sem Commis-sarios ad ransaka og dæma þetta Mords-mál, en Sigurd eldra Sigurdsson Løgþíngisskrifara til ad sækja þad og uppgøtva mordingjana. Commis-sariis kom í engu saman; Þorleifur Prófastur geck

Sýslumannanna: Sigurdar Sigurdssonar eldra, Þorsteins Magnússonar,
Dd 3 Pét-

geck beint eptir Amtmanns innblæstri, sem stefnt hafdi Páli Kinch til straffs fyrir útborinn óhróður um sig og sitt hús, og dæmdi Kinch til megnra útláta og ærulausann. Kinch appelleradi til Hæsta rettar 1727, sama ár drucknadi Þorleifur Prófastur í Markarfljóti, en Fúhrmann var af nefndum retti dæmdur í 300dla. útlát til Kinchs, 50 rdla bætur til Kristjánshafnar kirkju og 50rdli. til óvildarmanns síns Landfógeta Wúlfs, sem þessu var vidridinn. Í Adal-málinu var í margar vikur 1725 og á ný 1726 þingad og lengi stappad, og Mag. Jóni Biskupi Arnasyni seinna árid vid Commissiónina bætt; ekkert vard þó uppá Amtmann Fúhrmann sannad, en megnar og slæmar líkur framkomu mót Katrínu Hólm, hvorja Amtmadur loks á bana-sæng sinni gjördi ad einka erfingja

sínum,

Péturs Þorsteinssonar, Sigurdar Jónssonar, Orms Daðasonar, Jóns Arnasonar, Magnúsar Ketilssonar, Jóns Jónssonar í Grenivík og Bjørns Thómassonar.

Rectóranna: Magnúsar Markússonar, Erlendar Magnússonar, Mag. Jóns Arnasonar, Jóns Þorkélssonar, Gísla Magnússonar, Mag. Bjarna Jónssonar og Mag. Hálfdáns Einarssonar.

Eg sakna þorsinna merkis-manna í ýmsum lærdómum; tel eg med þeim frægasta

J Gud-

sinnum, ríkur ordinn af Testamentis-gjof allra eigna Gudmundar Þorleifssonar ríka í Brokey, og konu hans Helgu Eggertsdóttur, bædi í føstu og lausu. Súhrmann deydi 1733 og var med vidhøfu iardadur ad Bessastødum hjá Páli Stígssyni Høfudsmanni.

Í Gudfrædinni: Pál Prófast Bjørnsson í Selárdal, sem var Prestur yfir 60, Prófastur yfir 50 ár, frægur einkum af kunnáttu í Austurlandanna túngumálum, og deydi 1706 [320]), Biskupana,



[320]) Hann hefdi enn betur verdskuldad þad hól, er Þormódur Torfason (sjá Deo, Regi, Patriæ bls. 47) og Dr. Finnur Jónsson á hann bera fyrir lærdóm (sjá Hist. Eccl. Isl. T. III. pag. 554-55) hefdi ecki hjegómlegur átrúnadur hans um galdur og þesshàttar gjørninga á ser og ødrum leidt hann, sem annars upplýstann geistlegann mann, til ad blanda þeim heimskulega átrúnadi í flest sín rit, og tileinka serhvad, er frábrugdid fannst, yfirnáttúrlegum og einmidt Djøfulsins verkunum, og þessvegna ad bletta um of Æfisøgu sína, med því ad ofsækja marga menn, meinga þá med galdri,



## Mag. Jón Vidalín, Doctor Finn. Doctor Hannes, Arna Þórarinsson.

I Log-

og kresja líf þeirra framselt í bál og bruna. Ofnýstárlega votta þar um giefa Logþíngisbækurnar 1669 og 1670, til þess, ad ecki se verdt, ad 17du Aldar þenkingarhátt í þessu tilliti, yfir hvorium þú, mín framlidna! maklega mátt því mikiu framar stæra þig, sem enginn um þína tíd, er fyrir kukl og fiølkíngi til danda eda útlegdar dæmdur, en yfir 20 á 60 árum, og þó hellst frá 1631 til 1690, eptir þad Jón Gudmundsson, fyrir svo nefnda Galdra-bók sína, var í útlegd dæmdur; en Páll Prófastur Biørnsson tók ad ofsækja fólk um Galdur, og med trúu lidsinni Þorleifs Logmanns-Kortssonar frá 1662-79 fieck margann misgrunadann, en ad líkindum saklausann á bálid dreginn. Hier eru nú vottarnir, eptir Logþíngisbókunum, greinilegir:

„ 1.)

I Logspeki: Logmennina: Pál Jónsson Vidalín og Svein Sølvason, Sýslu-
Dd 5 mann

„1.) Annó 1669 þann 29da Júni, kom heidurlegur Sýslumadur Eggert Björnsson í Løgrettu á Oxarár þingi med þann máls-veg og dóma, sem gengnir eru í máli Jóns Leifssonar, sem nú er rjettadur og brenndur, og var allrar Løgrjettu, sem Løgmanna meining og álit, ad þeir dómar væru eptir Konungl. Majest. brefi og Lands-løgum stýladir, med þeim Løgmanns Urskurdi, sem þar er á genginn, og ætti þacklæti medfylgja vid þá Sýslumenn, sem svo rettvíslega og gudrækilega framfylgia rettinum í svoddan málum. En sami Jón Leifsson hafdi auglýst Erlend nockurn Eyjólfsson verid hafa sinn' Skólameistara og af valdann þessari ólucku. Um Erlend Eyjólfsson hefir Jón Leifsson bedid had eptir ser skrifa, ad Erlendur Eyjólfsson se í þessari sinni ólucku valdur,

mann Jón Arnason, Stiptamtmann Þor-
kel Jónsson Fjeldsted, en lángt yfir
alla-

ur, en einginn annar, hvørki daudur ne lifandi, sem hann hafi af galdra medferd fyrir fallid, og þad eptir siálfs sins umbeidni. Þar þverneitar Erlendur, ad því einn undanteknu, ad hann hafi fengid Jóni heitnum þá mynd Ausu-kross, ad Erlendur kallar. Sykur hjer á ábirdi gódfrægs Kiennimanns Prófastsins í Bardastrandar-sýslu Sira Páls Bjørnssonar, sem hjer eptir fylgir ordrjett:"

„Æruverdugum og vyrduglegum Herr-
„um og Landsins Høfdingjum, Løgmønnum
„Hra. Sigurdi Jónssyni, sunnan og
„austan, Hra. Þorleifi Kortssyni, min-
„um Herrum med allri alúd!

„Þeg-

alla minn si-saknada Conferentsráð Jón Eiríksson. Ogleymdir þar hjá eru mér í þessu

„Þegar jarðskjálftar gánga, grípur hvørr til „fastra taka sem til nær, og eg nú bædi mín vegna „i mínum hørmum, sem spurt mnnud hafa, og „annara vegna, sem líkann málahlut eigu, seilist „til Yckar beggja, sem fastra landsins stólpa, midt „í þeim Galdra-gángi og ædi, sem árlega skiekja „og skielfa frómra velgengni og grundvøll kristi-„legrar kirkju hier á Vestfjørdum, hvarum ecki „verdur Yckar H. D. svo tilkynnt sem bæri, Yd-„ar annríkis vegna og umsvifa á Løgbergi. Þó „þessi leki sýnist fyrst aysandi, sem søckva ætlar „annars þessum landsparti. Því beidist eg, í „nafni Guds og hans dýrdar vegna, ad þessi Jón „Leifsson, sem eg lýsi valldann í øllum þeim qvala-„feiknum, sem gengid hafa í vetur yfir mitt hús, „sem máls-rekstur þarum genginn ljóslega vottar, „og 12 dánumenn hafa til lykta búid, sleppist ecki

„und-

í þessu tilliti, Sýslumennirnir: Halldór
Ein

,, undan rettlætisdómi sem galdramønnum hæfir
,, því nái hann komast med lífi frá þessari ódædi
,, sem sjálfur einninn medgengid hefir, er vísi hann
,, deydi, qvelji og tjón gjøri mjer og ødrum, er
,, þad þá í Vckar ábyrgd bædi fyrr og sídar,
,, ef þad af Vckur hlotnast hann lífi haldi.
,, I annann máta tilsegi eg Yckur hans Skóla
,, meistara Erlend Ejólfsson, sem þessum Jón
,, hefir kjennt, hvørjum hann skyldi mínum þessa
,, eymd med gøldrum, yfirhella, og annann
,, fleiri galdur honum sem ødrum undirvísad. I
,, einn ordi: þessi Erlendur órádvandur er Seck
,, ur Djøfulsins úr hvørjum lekur hvad hvørr
,, vondur girnist, meistari þeirra, sem lært hafa
,, og læra vilja, uppsprettu-brunnur alls Djøf
,, uls í þeirri sveit, og kannskje vídar, fullryktad
,, ur og fordæmanlegur, fullur af Djøfli, svo
,, eg meina þúsund manns muni hann afmádann
vilja!

Einarsson og Jón Magnússon.

I Sagna-

„vilja. En hvørjir geta eda voga upp ad synja? „gáid því ad Gudi, hvørjum Þjer egid reikníng „ad gjøra, svo þad illa, sem møgulegt er, mætti „takast af Israel, annars, vegna eins, þó ecki „væri fleira, kann ólucka ad koma yfir land og „lýdi. Gud veri med Ydur og styrki í því og „øllu gódu.

„Selárdal, Annó 1669, þann 7da Júní

„undirskrifadur

„Páll Bjørnsson mpria."

Og ad því innfærdu, er svar og álit Løgmanna og Løgrettu: ad tjedur Erlendur se rett-tækur til fánga af Valdsmønnum Bardastrandar-sýslu undir ýtrasta ransak, eptir Kóngl. Majest. brefi Annó 1617, (enn þótt þetta Kóngsbref aldrei se híngad sem løg sendt eda gefid); og þad eptir kríngumstædum og øllu adhnigandi í þessu máli.

„2.)

# I Sagna- og Forn-frædum: minn Þormód Torfason, konúnglegann Sagna-skrif-

„2) Annó 1670, þann 30ta Júní let Hra. Þorleifur Kortsson Lögmadur upplesa þann dóm og málsrekstur, sem skiedur er um Erlend Ejólfsson, sem eptir sína galdra- og fjölkýngis-brúkunar játníngu, var í hanst brenndur, og vyrdtist Hra. Fógetanum, sem Lögmanninum Hra. Sigurdi Jónssyni og Lögrettumönnum, sá málsrekstur og danda-dómur rjettilega framgengid hafa.

Vid þetta má og samanbera Lögþingisb. 1674 um ablahindrun, sem haldin var gjörd med galdri á skipi Síra Bjørns Snæbjörnssonar í Snæfellsness-sýslu, og kostadi því snápinn Bödvar Þorsteinsson, er þó qvadst þessu á sig logid hafa, lifid á sama þíngi. (sjá og somu Lögþingis-bók No. IV. og XII., og Lögþingis-bók 1677 No. IV. og VI.)

Lok-

skrifara, er deydi 1719 [321]), og Prófes-
sor Arna Magnússon, sem deydi 1730;
Páll

Lokfins var Clemens Bjarnason úr Stranda-
sýslu árid 1690 á Logþingi sídarslur dæmdur til
ad brennast í eldi, fyrir heit-ngar, galdra-kukl og
brúkun á Tóu-versi yfir sienadi sínum. Amtmad-
ur Müller frestadi straffsins framqvæmd, og út-
vegadi Kóngsbref þann 5ta Mai 1691, sem nád-
adi Clemens á lifi, en baud honum ad vera út-
lægum úr landi; hann deydi sama ár í Kaup-
mannahöfn, fieck þar afláusn og Sakrament hjá
Einari Þorsteinssyni, sem þá kom þángad til
Biskups-vígslu ad Hólum."

[321]) Honum einum sona minna veit eg um þína og
systra þinna tíd, þá vyrdíngu og nád hlotnast hafa,
ad vera jafnadarlega heimsóktur í sitt hús af Kóngi
vorum, til yfirvegunar lærdóms-efna, svo sem gjordi
minn mikli Kóngur Fridrik III. frá 1660-1664,
og



Pál Vídalín, Stiptprófast Jón Halldórsson, Prófast Vigfús Jónsson, Eyólf Prest Jónsson ad Vøllum i Svarfadardal, sem deydi 1746, Rector Mag. Hálfdán Einarsson, Biskupana Doctor Finn og Doctor Hannes, Vice-løgmann Eggert Olafsson, Prófast Gunnar Pálsson, Jón Eiríksson. Vid þenna fræga flock mætti vel tengja Benedikt Presti Péturssyni (til Hvanneyrar og Bæ-

og sídan andnadist hónum þó sunnur vidlík 1704, þá minn ódaudlegi Kóngur Fridrik IV. á ferd sinni í Norvegi, þann 10da Júlí, heimsókti hann á eyjunni Barmen, og hvildist þar, med fylgd sinni, nóttina yfir á bæ hans Strángalandi; sjá hjerum Worms Lexicon over lærde Mænd, og Thormod Torfesens Levnets Beskrivelse ved J. Erichsen, 1788, Side 25-27, 172-74.

Bæjar hérum í 50 âr), er samdi Annála frá 1664 til 1724, þá hann deyði; Jóni Olafssyni frá Grunnavík, Gudmundi Magnæus, sem deyði í Kaupmannahøfn undir burtför þina.

Í Læknis-lærdómi: Rector í Skálholti Þórd Þorkélsson Vidalín, er deyði 8rædur 1742; Læknarana Bjarna Pálsson, Jón Sveinsson, Jón Pétursson, og, sem Ljósmódur: Mad. Gudrúnu Halldórsdóttur ad Þingvøllum.

Í Mælingar-frædi: Legmann Pál Vidalín, Mag. Jón Biskup Arnason, Capitain Magnús Arason, Rector Mag. Þorleif Halldórsson, Mag. Jón Davidsson Gam, sem var sídast Rector í Nestved í Sjálandi, og deyði 1734; Eyólf

Jónsonius, en — þó öllum framar fyrrum Rector á Hólum Stephán Bjørnsson [322]).

Í Náttúru-frædum: Rector Þórd Þorkélsson Vidalín, Bjarna Pálsson. Eggert Olafsson, Jón Pétursson, Doctor Hannes Finnsson, Olaf Olafsson Kammersekretéra, er deydi undir burtför þína erlendis.

Í Búnadar- og Landa-stjórnunar-frædum: nýnefndann Olaf Olafsson, Eggért Olafsson, Dr. Finn Jónsson, Magnús Ketilsson, Bjørn Prófast Halldórsson, Skúla Magnússon, Þorkél

322) Hans Introductio in Tetragonometriam. Havn. 1780, er bók, sem gjörir hans mathematíska lærdómi mikla æru.

kél Fjeldsted, Jón Eiríksson, Páll Vídalín og Mag. Arngrím Þorkélsson Vídalín, er var Rector í Naschow-skóla í Lágalandi, og deydi 1703 [323]).

Í lærdum Túngumálum: fyrr-nefnda merkilegustu Rectóra hjá mér og í Danmørku, og Dr. Hannes Finnsson.

Í eginlegri Heimsspeki átti eg ad sønnu marga vel ad sér, en þó enginn ljós.

Í Skáldskap: Páll Vídalín, Gunnar Pálsson, Svein Sølvason, en øllum

Ee 2 frem-

[323]) Sjá hjer ad lútandi Ritid Deo, Regi, Patriæ, í því má, bls. 47, lesa Þormóds Torfasonar sára søknud þess lærda manns Arngríms; Worms Lexicon over lærde Mænd, og Mag. H. Einarssonar Sciagraph. Hist. Lit. Isl. pag. 176.



fremur, sem fodur góds skáldskapar-smecks hjá mér, Þjód-skáldid Eggert Olafsson [324]. Vid dáinna Gódskálda flock þenna, er mér og all-ljúft ad bæta gáfumanninum Magnúsi Presti Einarssyni ad Tjørn, sem deydi 1794 [325]). Rimnaskáld-

[324]) Um skáldskap hans tekur Løgmadur Sveinn Solvason svo til orda:
Skil eg valla skáld ad kalla'um skarir Ís,
Iþrótt snjalla eins muni lýsa,
Og ódreirs salla slíkann prísa.
Sjá Rimur af Gissuri Jarli, 1800. bls. 178.

[325]) Lifandi Þjódskáldid, Jón Prestur Þorláksson hefir, ad søgn, orkt þessa støku vid fráfall hans:
Nú grætur mikinn Møg,
Minerva tára-gjørn.

Nú

skáldin: Gudmund Bergþórsson, sem deydi 1705, Þorlák Sýslumann Gudbrandsson, er deydi 1707, Arna Bødvarsson og Svein Sølvason; en í látinskum skáldskap: Rector Þórd Þorkélsson Vidalín, Biskup Mag. Jón Vidalín, Pál Legmann Vidalín, Rector Jón Þorkélsson, Gunnar Pálsson, Pál Bjarnason Vidalín, sem stúderadi seinast í Leipzig, hvar þessi efnilegi úngi madur deydi milli 1760—1770, Mag. Bjarna Jónsson, Mag. Hálfdán Einarsson, Kolbein Þorsteinsson Prest ad Middal, og Odd Sýslumann Vidalín.



Nú kjætist Mória mjøg,
Mørg sem á Dára-børn.
Nú er skard fyrir skildi!
Nú er Svanurinn nár á Tjørn.

Við alla þessa tølu mér horfinna merkilegustu manna, um þína tíd, mín framlidna! bæti eg, ad lyktum, þremur: Halldóri Jónssyni, Prófasti í Borgarfjardar-sýslu og Presti til Reykholts, er deydi 1704, var 53 ár í Prests-embætti, átti 4 syni og 4 dætur; synirnir urdu vid Prestskap ellidaudir, og vóru 3 af þeim Prófastar undir eins[326]. Þar næst-aan tel eg Jón Halldórsson, Prest ad Vøllum í Svarfadardal, sem var Prestur yfir 60 ár, átti 10 syni og 10 dætur, og deydi 1779[327]. Sá þridji má vel vera Erlendur Bóndi Sigurdsson í Rángárvalla-sýslu, sem fyrstur hitti uppá og kénndi ødrum þar ad nota sér Meltakid edur villi-korn, er hjá mér vex, med

[326]) F. Joh. Hist. Eccles. Island. T. III. pag. 556.
[327]) Vatnsfjardar Annáll sídari.

med því ad þurka það, troda og mala til matar, og sem sjálfkrafa skar nidur allar sínar saudkindur í vestar-tídinni, ádur enn nockur skipan þar um útgéck, keypti sér á ný frískar, og med gódri adgætslu þeirra, gat varid þær samgaungu og sjúkdómi; en þó þær reyndust allar ad vera heilbrygdar, er Tilskipanin af 12ta Maji 1772, um fjárskurdinn útkom, skar hann þær samt fúslega allar ásamt ödrum, til þess ad géfa ödrum med sínu dæmi því kroptugri upphvatningu til undirgéfnustu hlýdni, í svo mikilvægu efni, mér til heilla. Hann verdskuldar því, fyrir hverttveggja, engu sídur heidurs-minníngu í þessum Eptirmælum, enn í Conferentsrádanna Mallings og Jóns Eiríkssonar merkilegu ritgjördum [328]). Med

[328]) Sjá Mallings Samling af store og gode Handlinger, S. 522, og J. Erichsens Forberedelse til Olavii Reise S. LXXIX-LXXX.

Med innilegum søknudi tel eg nú fyrr⸗ talda Yfir⸗ og Merkis⸗menn mér horfna med þér, mín framlidna! og óska ad Systir þín færi mér marga jafníngja þeirra, en — fáir vita hvørju fagna skal!

Eg hefi ad undanførnu drepid á merki⸗ leguftu Réttar⸗bætur og Rétta⸗breytíngar, nú skal med einu ordi minnast á merkileguftu Nefndir manna edur Commissiónir, sem Kóngar mínir tilsett hafa mér til vidreistar, en ecki á minna markverdar til úrskurdar inn⸗ byrdis misklídum; tel eg þá fyrstar og mark⸗ verdastar Commissiónir hjá mér tilskipadar, um samanteknfngu nýrrar Løgbókar og Kirk⸗ ju⸗sida⸗laga handa mér. Med Kóngs bréf⸗ um var bádum Løgmønnum mínum, þann 14da Apr. 1688 bodid, ásamt med løgvitrustu Sýslu⸗ menn⸗

mennum, ad yfirskoda Christjáns V. norsku Løgbók, og skíra Canselliinu frá, hvert mín Løgbók yrdi eptir henni legud. Sama var undir eins bodid bádum Biskupunum med vitrustu Prófóstum ad yfirvega, ad því leiti 2ra bók Norsku laga um Trúarbrøgd og andlega Stétt áhrærir. Þó nú Biskupinn Mag Þórdur Þorláksson, med 4 Prófóstum, útrétti eitthvad hér ad lútandi 1699, og um komu sína sendi álit þeirra, á Dönsku útlagt, undir kóngsleganu úrskurd, mun þetta þó ecki vyrdst hafa allskostar gott; því Fridrik Kóngur minn IV. ítrekadi med bréfum sínum, þann 29da Maji 1719, sama bodord til Biskupanna Vídalíns og Steins, og Løgmannanna Páls Vídalíns og Odds Sigurdssonar, og baud þeim samantaka ný Kirkju-løg, handa mér, eptir 2ari

bók. Norsku-laga, og ný Kirkju-sida-løg (Rituale) eptir þeim dønsku, af 25ta Júlí 1685, en Løgmønnunum auk þessa, med dugleguſtu mønnum ødrum, ad samantaka nýja Løgbók mér til handa. Sømu Løgmønnum var og med Kóngsbréfi, þann 9da Júní 1721, bodid, þegar Løgbókin væri búin, ad semja mér hentuga Pólitie-reglugjørd [329]), hvar til Stipt-amt-

[329]) Fyrsta tilefni eitthvørt til þessa bodords hygg eg gefid hafa Utkast til Politie-reglugjørdar samid og inngefid til Kóngs í birjun Aldarinnar, af Løgmanni Laurusi Gottrup, (sjá 288 skíringar-gr. bls. 380) med hverjum Fridrik IV. í Kaupmannahøfn tilskipadi Commissión þann 25ta Martsí 1702, hvar í vóru Conferentsrád Worm, Etatsrád Bentzen, Júſtitsrád Hjort, Dr. Vandal, og Amtmennirnir Müller og Heidemann til ad

amtmadur minn Raben ári ádur hafdi innsendt útkast med vidbætir, sem Lögmönnunum aptur var sendt til yfirvegunar, en Kóngs-bréf af 11ta Apr. 1724 deilir á Odd Lögmann og nockra Sýslumenn fyrir adgjørdaleysi vid hverttveggja [330]). Sýslumönnum var og med Kóngs-bréfi bodid, þann 23ja Apr. 1725, ad mæta til rádslegunar um nýju Lögbókina á Alþingi. Biskup Vidalín deydi 1720, en Bisk-

ad yfirfara nefnt Gottrups Utkast, og eptir þorfum ad umbæta þad, en, ad þad hafi þó ad lokunum ecki vyrdst medtækilegt, vottar ofannefndt bodord af 9da Júní 1721 til Lögmannanna, um nýja Politie-reglugjørd.

[340]) Almæli erú og ad Land-commissiónin 1771 hafi samid og inngefid Utkast til Politie-laga, en af þessu er sídan eckert útkomid.

Biskup Steinn lét, 1721 og 1722, af beggja Stiptanna helstu merkis-mönnum beggja stètta, ad Þingvöllum og Kalmannstúngu, yfirskoda hvad gjört var, en baud þeim sídan nordur ad Hólum, til ad afljúka verkinu; en þessu bodi var slegid í vind, svo Biskup Steinn sendi, 1726, Cansellíinu útkast til míns Ritúals, og til nýrra Kirkju-laga, eptir 2ari bók Norsku-laga, sem hann tjádi samid af öllum Commissaríis allt til XIX. Kap., en IV. þá sídustu hafdi hann einn umfjallad, þar Commissaríi vildu ecki nordur ferdast. Ari sídar var allt sendt bádum Biskupum til baka, og þeim, ásamt Lögmönnunum Páli Vídalín og Benedikt Þorsteinssyni, med Kóngs-brèfi, þann 12ta Maji 1727, bodid ad yfirskoda og vinna allt upp aptur. Biskup Steinn bar fyrir

fyrir lasleika, er bægdi honum ferdir, og baud Commissariis nordur til sín, en allir afþöckudu. Páll Vídalín deydi 1727, en Kóngsbréf til Biskupanna Steins og Jóns Arnasonar, og Lögmannanna Benedikts Þorsteinssonar og Nielsar Kjers, útgéfid þann 23ja Apr. 1728, baud þeim strengilega ad mæta ad Kalmanns-túngu fyrir Lögþíngid, fullgjöra verkid, og senda sídan til Kaupmannahafnar, sem mælt er ad skéd hafi. Sídan veit eg eckért né heyrt hefi um afdrif þessa geistlega Lagaverks.

Ad eg nú minnist á verdslegu Lögbókina, er nóg sagt ad henni géck engu betur. Lögmennirnir Benedikt og Kjer tóku þad Utkast til nýju Lögbókarinnar, er eptir Pál Vídalín fannst, yfirfóru þad og sendu Sýslumönnum til yfirvegunar, birjudu sídan ad mynda nýtt

nýtt Utkast til Logbókar, og héldu sig þegar búna med ıtu og 3ju bókina; en Logmadur Njer deydi 1730, og Sýslumenn nenntu ecki ad mæta til Log-gjafar fyrir eckért, kom því dok á verkid sjálft. Christján Kóngur minn VI. baud því þann 2ann Maí 1732, ad Logmenn skyldu til adstodar fá 1 Sýslumann af hverjum fjórdúngi, nefnil. Benedikt Logmadur Þorsteinsson feck Orm Dadason i Dala-sýslu og Jón Jónsson (i Greniv:k) Sýslumann í Vadla-sýslu, en Logmadur Magnús Gíslason feck Þorstein Sigurdsson í Nordur-Múla-sýslu og Sigurd Sigurdsson í Árness sýslu. Utkostin áttu nú ad fara um medal embættismanna og allt á endanum ad leggjast til ysirskodunar fram fyrir alla embættismenn á Alþingi, en Logþíngisskrifarinn þar ad fara

færa þennann vid Laga-verkid. Lögmadur Benedikt deydi 1733, Alexander Smith vard Lögmadur 1734, litt hér til laginn, og yfirgaf mig 1735, en Hans Becker kom fyrst 1737 eptir hann. Nockrir þeir útnefndu Sýslumenn afþöckudu Lagaverks-starfid fyrir eckért, og tjádu sig lasna. Köngsbréf útgéfid 7da Maí 1735 baud enn ad bæta 2ur Sýslumönnum vid til adstodar Lögmönnunum vid Lagaverkid, en, úr þessu mátti telja þad algjörlega sofnad, þvi aldrei sjest af Rikis-stiórninni framar á þad minnst, fyrr enn þann 16da Maí 1760, þá Vice-lögmanni Jóni Olafssyni var falid á hendur, ad semja uþja Lögbók fyrir mig. Formáli Köngsbréfsins þar um sýnist ad votta, ad eldri Laga commissiónirnar og þeirra vidburdir vid þetta verk, hafi allt verid þegar gleymt,

gleymt; líka vóru menn þar um ad raun komn-
ir, ad lítid mundi ávinnast med ítrekudum Skip-
unum, til efna- og launa-lítilla Lögmanna og
Sýslumanna, um svo mikilvægt verk fyrir eck-
ert, er krafdi mikla mædu, lángann lestur og
mikinn kostnad med ferdum og ödru. Eg gaf
samt ecki einsömul vottinn þar um, því ecki gëck
hótinu betur med þad vidlíka lángsama danska
Lagaverk, um þína tíd, mín framlidna! þó öll
faung og hjálpar-medöl væri þar meiri og betri,
og Laga-commissarii fleiri og betur á vegi stadd-
ir, svo Kónúngur minn Fridrik V. sá ad lít-
id mundi þetta launa-lausa verk, mörgum á
hendur falid, útrëtta; gjerdi því enda um sinn
á Laga-commissióninni ytra med bréfi sínu þann
25ta Nóv. 1746, en fól þad einum á hendur
ári seinna, eins og 1760 Lagaverkid fyrir mig,
Jóni

Jóni Vice-løgmanni Olafssyni, sem fêck 200 rdla laun árlega fyrir þad fyrst í 4 ár. Sýslumadur Bjarni Halldórsson var honum í þessi til adstodar settur. Kóngsbrêfid, af 31ta Dec. 1762, skipar Biskupum med 2ur vitrustu Prófestum í hverju Stipti, ásamt verdslegum embættis mønnum, ad yfirfara á Alþingi 2ra bók Laga-verksins, þegar hún verdi búin í fyrsta Utkasti. Annad af 13da Júlí 1764, átelur Vice-løgmanns Jóns Olafssonar adferd vid þetta verk, og skipar honum strax ad láta sitt Utkast gánga á milli Løgmannanna Sveins og Bjørns, og sídan umdæma af Amtmanni og Alþingis-mønnum; leggur honum þó 100 rdli. til enn þá í 3 ár, en hverjum Løgmanni fyrir yfirskodun Lagaverksins 50 rdli. árlega, og skipar ad allt sê komid í stand á þeim tíma

Bjarna Sýslumanni Halldórssyni lagdi Kóngur minn Christján VI., þann 7da Mart. 1765, til árlegra launa 50 rdli. í 3 ár, fyrir tilhjálp med Jóni Olafssyni vid Laga-verkid, en fyrir Jón sjalfann og Legmennina lengdi Kóngsbréfid af 18da Maji 1767 somu laun sem ádur, uppá 2 ár, þó svo, ad annars árs launin betaluduft fyrirfram, en hins sídara, þegar allt væri búid. Uppkast til hér um 5 laganna bóka vard þanninn, ad nafninn, til, en — launin hættu — og Laga-verkid med. Frá ollu hálfgjørdu dendi Vice legmadur Jón Olafsson 1777. Laus bled, sem samkostud funduft eptir hann, til þeirrar 6tu edur vandasomustu Laganna bókar, lét Stiptamtmadur minn Thódal, þá ólegleſinn Skrifara ſinu, útſkrifa, og ſendi ſvo allt þetta gamla og hálfkarrada Uppkast

kast til Cansellíisins. Að liðnum 16 árum frá dauða Jóns Olafssonar, eður 1793, fól Cansellíð Biskupunum á hendur að yfirskoða 2ra bókina í þessu Laga-útkasti, og Lögmönnunum Magnúsi Stephensen og Magnúsi Olafssyni hinar, en — skjótt sáu þeir, að umbreytíngar tímanna, kauphöndlunarinnar, bjargræðis-veganna, laga-setnínganna grundvallar, mergð Kóngs-bréfa og úrskurða frá 1760, er þetta verk að nýju hófst, gjörðu fullkomna umgjörð þess nauðsynlega, og afsökuðu sig því frá henni launalaust. Lá svo Laga-verk þetta skipað og byrjað fyrir meir enn 100 árum, eða 1688, í dái, uns Kóngi mínum þóknaðist, þann 6ta Júní 1800, á ný að bjóða efsta Assessóri í Lands-yfirréttinum Stepháni Stephensen, nýja Lögbók handa mér frá grundvelli að skrásetja,

 við

vid hvert erfida og lángsama verk sífelldar Commissións ferdir og annir og lengst af sótt-haldt heimili, hann híngad til hafa stórum tafid; en Lands-yfirréttinum sól Cansellíid, þann 2ann Aug. s. á., á hendur, útgáfu hellstu til min útkomandi sérlegra Laga á mína túngu.

Svo sem lútandi ad Laga-verkinu, nefni eg hér Commissión, þann 18da Júlí 1800, tilskipada med Jústitiarió og 3ur Assessórum í Lands-yfirréttinum, til ad samantaka Reglugjörd um auka-tekjur Réttarins þjóna hjá mér, hvar um eg á hverri stundu vænti kóngleqs Lagmáls.

Þessu næst nefni eg 3 Land-commissiónir, nefnilega: eina fyrst á þinni tíd, edur 1702, skipada med Prófessor Arna Magnússyni og Páli Lögmanni Vidalín. Þeir áttu

áttu ad yfirvega allt mitt ástand mér til vidreistar, eptir því sem Instrúx þeirra vottar, dagsett 22ann Maji 1702, og semja nýja Jardabók med árlegu afgjaldi, eptir jardanna sérlega ásigkomulagi; því ferduðust þeir um mig alla frá 1702 til 1712. Þessari jardabók hefir lengst af híngad til sídan fylgt verid, þó ysrid ófullkomin sé[331]), því önnur nýrri, svo nefnd harmónísk Jardabók, gjörd af Landfógeta Skúla eptir hinni og eldri jardabókum, med tilliti til jardanna ástands 1760, smámsaman samantekin til 1769, þó enn ófullkomin; aptur framhaldin og aukin til 1778, er hvørki løgtekin né almennt birt, og í mjøg fárra høndum, jafnvel og ávida áreidanleg nú



[331]) Um hennar bresti sjá Forberedelse til Olavii Reise blf. LXVIII-IX.

um stundir. Skúla erfidi vid hana launadi Kóngur minn honum þó med 700 rdlm.[332]

Ad þessari Commissión var falid á hendur ad dæma á stundum í ýmsu þrasi manna á milli, tel eg hvørki henni né mér til gagns eda gyldis, því Hæsti-réttur óuhytti flesta þá dóma, á stundum ecki án hennar tøluverds kostnadar. Merkilegri útréttíngu hennar mun eg ega ad telja, útkomu Tilskipunar þann 15da Maji 1705, um aftekníngu ýmissra óreglua, m. fl. ef hún og enn vyrdist mér í øllu ad henta; og þó svidamesta þá afleidíngu hennar umferda hjá mér, ad hún ásamt rúdi mig dýrmætustu skjølum og handskriftum á kálfskinn af fornfrædum, søgum og ødrum lærdóms-menjum, sem þá algjørlega hvurfu mér, og urdu þó, árid

[332]) Sjá samastadar S. 19-20.

árid 1728, ad miklu leiti eÿdinum offur í Kaupmannahafnar fyrra stórkostlega elds-bruna [333]).

Samrar náttúru Land-commissión ad nockru leiti, tilskipada sídasta ár þess, nefnil. þann 18da Júní 1800, nefni eg, svo sem í framhaldi hinnar, edur núverandi Matricul-Commissión, til hverrar þá vóru af Kónginum nefndir: Kammer-rád Lodvík Erichsen, Assessor Stephán Stephensen, Canselli-sekreteri Arni Sigurdsson og þá Lögsaguari, nú Sýslumadur í Vadla-sýslu og Kammer-sekreteri Gunnlaugur Gudbrandsson Briem; átti hún um mig alla ad ferdast, grenslast nákvæmlega á þingum um allt hid sannasta ásigkomulag allra minna fasteigna, og sídan verd-

Ff 4 legg-

333) Sjá F. Joh. Hist. Eccl. Isl. T. III, p. 575-76.

leggja og skuldsetja þar. Mér sýndur til at hugsa; hvörsu vøllt og óáreidanleg fráskirsla þessari loflegu Nefnd, muni af ásælnum ábúendum allvída bodist hafa, til grundvallar fyrir svo mikilvægt verk, sem best sannadist, ef svarnar skodunargjørdir um jardir framfæru, og orsakirnar til þeirra núverandi trassalega ástands sumstadar, upplýstust løglega. Ferda-løg þessarar Nefndar um mig, endudu 1805.

Þridja edur Mid-Lands-commissiónin var tilsett, þann 20ta Mart. 1770, og Tilskipan um hana útgefin, þann 15da Maji s. á. Hennar Nefndar-menn vóru þáverandi Yfir-land-commissaríus og Vice-rádherra í Christjanía, sídan Etats-rád Andrés Holt; þáverandi Færeya Løgmadur, sídan Amtmadur, Etats-rád, Stiptamtmadur og General-Póst-Direk-

tekteur Þorkéll Jónsson Fjeldsted[334]), og minn fyrrum Kaupmadur, sídan Cansellíráð Windekilde. Commissíónarinnar Skrifari var Eyólfur Jónsonius, sem 1772 vard Observator Astronomiae. Innihald af hennar merkilega Instrúxi, útgéfnu 22ann Maji 1770, á-hrærir því nær allt, er mér mátti markverdast telja[335]). Launin vóru því samsvarandi — hvorr Commissarius fékk 3 rdli daglega til uppheldis, og til útgjørdar 400 rdli; Skrifarinn 2 rdli daglega, og 1 útgjørd 300 rdli, og allir

Ff 5 ferda-

[334]) Mjer til mesta saknadar deydi hann þann 19da Nóv. 1796, en hvad eg med honum misti, er í styttsta ágripi ávikid í minna Tídinda I. B. fýrir þad ár, blf. 243-44.

[335]) Siá Forberedelse til O. Olavii Reise blf. VIII-XIV.

ferda-kostnad allann ókeypis. Þessi Commissión dvaldi hjá mér 1 ár, og ásamt mínum hellstu Yfirmenum, yfirvegadi grandgæsilega hjálpar-medöl öll til vidreistar mér, hvörju mér og ber ad þacka hér af leiddar födurlegar fyrirskipanir: um fjárskurdinn, til aflèttirs fjársykinnar plágu; um breytíngar og lausn minnar Kauphöndlunar seinna meir; um betri jardar- og kálgarda-rækt; eydi-jarda og nýbýla byggingar; garda-hledslu og þúfna-sljettun; um Apótheksins adskilnad frá Læknirs embætti (en slect annad, Læknis-lærdómsins útbreidslu hjá mér snertandi, eptir Land-commissiónarinnar rádum, bídur enn betri útvega til ad standa kostnadinn); ómalads korns innfærslu og þess mölun hjá mér; Póstferda og vegabóta nidurskipanir, og margt annað

annad á seinni tímum mér til góds innleidt, á eg medfram þessari Commissión ad þacka.

Commissiónum mér vidvíkjandi, sem haldnar vóru í Kaupmannahøfn um þína tíd, sleppi eg, þar eg læt Eptirmæli þín einúngis áhræra hvad hjá sjálfri mér gjørdist, þó má eg ad eins nefna þessar 2 mér einna merkilegustu: Commissión setta þar 1784, um mínns almennilega ástands vidréttingu eptir eldgosid 1783, og jardskjálftana 1784, hvørrar afleidíng vard Skálholts-skóla, Biskups-stóls og Dómkirkju flutníngur til Reykjavíkur 1785, og Skálholts-jarda sala þá og sídan, undir umsjón Magnúsar Stephensens, sem. tilskipads Commissarii, en lausn minnar Kauphøndlunar 1786, og Vestur-amts stiptanin 1787. Commissión setta þar 12ta Dec. 1799, med Júst-

Júſtits-ráði og Geheime-Archivarius Grími Jónsſyni Thorkelin, Amtmønnunum Ste-pháni Þórarinsſyni og Vibe, og þáverandi Legmanni Magnúſi Stephenſen, um Skóla minna, Júſtits-málefna og Réttanna áſig-komulag, hverrar afleidíng vard aflegging Lög-þínga og Yfirréttarins forna, og Lands-yfirréttarins ſtiptan árid 1800, en B.ſkups-dæmanna og Látínu-ſkólanna ſamtenging 1801, og Hóla Biſkups-ſtóls og Skóla og undirliggjandi jarda ſala litlu ſidar.

Minnaſt má eg ad lyktum á þá lángſemu Biſkups-ſtóla Commiſſión, ſem hjá mér var tilſkipud 23ja Maji 1755, til ad uppgøtva og uppteikna øll Skálholts- og Hóla-ſtóla inn-gjøld, og adſkilja frá Biſkupunum og þeirra verkum, allt hvad Dómkirkjunum og Skólanna upp-

nsupphelldi ætti ad vidkoma; lengi var um verk
e:ḟad stapp mikid. og ágreiningur, þó komst þad
d:oks svo til enda eptir 9—10 ár, edur 1764
[...]og 1765, ad Kóngur minn stadfesti eptir því
g:Skilnadar-gjørdirnar Biskupa og Skóla-for-
:stodumanna á milli 1767, en gømul øsund og
s:bvild þar um qveikt, eins og ávikid er, bls.
:167—68, vyrdtist jafnvel eckért ad minka vid
g:þær, og sifelldar umqvartanir á allar sidur ysir
g:þægindum og bágbornum kjørum, leiddu eptir
:sig Stóls-górsanna sølu, Skólanna flutning
u:og samsteypingu, og viss ágvørdud embætt-
r:is laun í peningum, fyrir Biskupa Í stuttu
g:máli: sú Commissión vard mér til litilla bóta
:brád eda lengd, og adgjørdir hennar nádu
a:ecki heldur hjá mér varanlegu gyldi, því —
a:innan 20 ára var þeim sleygt. Á adra enn
ómerki-

ómerkilegri Commissión haldna í Kaupmanna-hofn um Stólana 1783—84, sæ eg ecki af mér ad minnast, því hvørki nádu henuar gjørdir algjerlegu gyldi, sìst um Skálholt, hvørju vidvíkjandi ádurnefnd merkilegri Commissión sett í Kaupmannahøfn 1784, útrétti allt annad 1785 (sjá bls. 459), og varla nema í fáu um Hóla, eptir Fyrirskipun af 1ta Maji 1789, sem þó algjørlega var aftekin med annari þ. 9da Sept. 1791, og þari tjád óbrúkanleg; þessarar sídustu gyldi leid einninn undir lok med Skólanna samsteypíngu 1801; já! gyldi allra fyrrtaldra og fleiri, Nefnda, Stóla-afgreidslu þrasi og edru vidvíkjandi, er med þér, min Framlidna! útrunnid, og vænti eg uþrra med Systur þinni, en — fáir vita hvørjum fagna skal!

Í því

I því tókstu fram eldri Systrum þínum, sem í fleiri, að engin þeirra lét sér svo annt um að granskoða mig, sem þú. Þú vildir vita hvar hellst á jarðar-hnettinum eg lægi, og hvað stór eg væri; hvörnin ásyndum og hvörnin á mig komin; því tókstu þér fyrir, héðan frá mér, að granskoða stjörnur og himintúngl, að mæla mig í krók og kríng, að mála mig upp, að forvitnast um leyndardóma míns líkama, að skygnast um ástand mitt. Eg vil drepa framar á sérhvört þessara Atriða:

Ymsir sona minna og útlendra hafa ýmislegt ritað og haldið um samastað minn, og því nær engum borið saman. Þó telja nú flestir það vafaminnst, að eg kúldist hér á milli

þeirrar 63 og 67° [336]) ad nordlægri breidd, edur fyrir nordan Midjardar-lunina. Um lengdina, edur hværsu austarlega og vestarlega eg lægi í þessu nordlæga belti, hafa engir enn gétad neitt fullvist sagt, en margt um ritad; snemma í þinni tíd var minn lærdi sonur, þá verandi Capitain vid hernadar-bygginar (Ingenieur) og Yfir mælinga-meistari (Conducteur) Magnús Arason fyrrnefndur, bls. 433, ad bodi míns Konúngs, þann 10da Febr. 1721, mér sama ár sendur til ad mæla mig og uppmála [337]), en hann drucknadi vid Hrappsey um

[336]) ° þýdir Grádur eda Mælistig, ′ merkir Minútur og ″ Secúndur.

[337]) Sjá Admiral og Stiptamtmanns P. Rabens Vegabref med honum af 10da Maji 1721 í Lögþingis-bók 1722.

um midjann=vetur 1728 [338]). Var mér því, til verksins framhalds, sendur Yfir=mælinga=meistari Thómas Hans Hinrik Knoph árið 1730, sem lauk því af 1734, og skiladi Kóngi vøndudu málverki af mér, í hverju hann reiknar breiddina edur bústad minn mót nordri á milli 63 og 67°, en lengdina, edur hversu aust= og vest=lag eg sé, frá 348 til 2arar lengdar grádu, þegar talid er austur og vestur frá þeim fyrsta middags=bríngi, er gángi yfir canarisku eynna Ferró vid Afriku. Borgmeistari Anderson í Hamborg lýsti mér í mørgu hrakmannlega og ósatt, sagdi eg lægi í

Og Nord=

338). Magnús þessi, sonur Ara Sýslumanns Þorkellssonar á Bardastrønd, hafdi þjénad í Danmerkur herførum, jafnvel undir þeim mikla Tordenskjold med sæmd, og ordid þar vid bækladur.

Nordsjónum, sem þó telst enda við Hjaltland, og væri 70 milur á lengd en 41 á breidd [339]), en Fedur mínum Fridrik V. var í svo mörgu um mig annt, sendi hann mér því 1749 vitrann mann og gódann, Niels Horrebow, til ad grennslast eptir náttúrufari mínu og búnadar háttum; hann dvaldi hjá mér í 2 ár, og gaf út 1752 merkari ritgjörd um mig á Dönsku, Þýdsku og Frönsku, med hverri hann hratt af mér óhródri og álygum annara, en hældi mér, ad summum þókti, nógu frekt. Hann qvad mig búa 4° austar enn ádur

339) Sjá hans Nachrichten von Island, Grønland etc. Francf. und Leipzig 1747 §. 1, til hvørra Utlegg. á dønsku Rector Jon Þorkelsson skrádi rjettingar nefndar; Tilgift til Anderson um Island 1748.

ádur var haldid, hêldt mig vera 120 mílur á lengd, mjósta 41 mílu, en á mørgum stødum framt ad 60 mílum á breidd[340]). Knoph fylgdu sídan Jón Eiríksson, Schönning, O. Olavius í Landkortum eda málverkum af mér, sem útgéfin vóru med Ferdasøgu Eggerts Olafssonar og Bjarna Pálssonar og O. Olavii 1772 og 1780, en eptir sjálfu Knophs stóra Landkorti lét Stiptamtmadur minn Greifi Rantzau 1761 minna málverk af mér grafa í eyr og hjá Hómanni útgéfa. Franskir Herrar ferdudust seinna umkring mig austan- og vestan-verda á herskipum, adgættu og mældu afstødu mína, einkum 1767 og 1768 Kergue-

Gg 2 len

[340]) Sjá hans Tilforladelige Efterretninger om Island 1752 p. 2-3.

len de Tremarec [341]), Verdun de la Crenne, Borda og Pingrè 1771 og 1772, og fundu hana eptir málverkunum rångt setta; Verdun de la Crenne segir mig styttri enn eg ádur var haldin, og þar hjá ausilægari, svo hann vart hefdi gétad fundid mig eptir sióar-kortunum, í hverjum eg var of vestarlega sett. Etats-rád Chr. U. D. Eggers, sem eptir þeim og þeirra mælingum hefir viljad gløggvari útreikníng yfir stærd mína gjøra, setur medal-breidd mína hérum 55 mílur, og lengdina hér um 85 mílur, eda med Kerguelen um 90 mílur [342]). Hann telur og á sama

[341]) Hans Ferdasaga útkom 1772 Amst. med titli: *Relation d un voyage dans la mer du Nord*, par de KERGUELEN de TREMAREC.

[342]) Sjá hans Beschreibung von Island. Erst.

sama stad, ad frá mér til Grænlands séu 35 vikur sjáar, þar sem nærst veiti mér, en ecki yfir 60 til bygdar í sama landi. Rector Jón Þorkelsson reiknar 40 vikur frá Snæfells-Jökli til Hvarfs á gamla Grænlandi [343]). Frá mér til Færeya teljast ad eins 78, eda 80 mílur; til Þrándheims í Norvegi, sem liggur vidlíka nordarlega, edur á sömu breidd, 120 mílur frá Austfjördum, og vidlíka lángt var í fyrndinni talid til Skotlands og Englands edur Bretlands; 130 mílur til Hjaltlands, en 150 undir Irland [344]). Frá eystra



Th. I Abtheil 1786, S. 26 bls. 160-161, nótu l, og yfir höfud S. 26-27.

343) J hans Tilgift til Andersons fordanskede Efterretninger 1748 bls. 299.

344) Sjá sama.

horni mínu í Sudur-múla-sýslu reiknast hér-inn 254—260 mílur til Kaupmannahafnar, og frá Reykjanesi sydra 400 mílur til Hamborgar elfu mynnis [345]). Þó verdur, sem ádur er sagt, vegna minnar óvissu lengdar, á öllu þessu vafi, uns gleggvari adgætslur stjörnufródra og mælingar taka tvímælin af; því, þó mörg málverk af mér stærri og smærri séu bædi sérílagi og med ödrum landa afmálunum gjörd um þina tíd, eda útgéfin med ýmsum ritgjördum, svosem af Knoph 1734 og eptir því 1751 af Greisa Ranzau hjá Hómanni, af Horrebow og

345) Líkt telur Arngrímur Prófastur Jónsson, og qvedst svar vita til, ad Hamborgarar hafi á 7da degi verid í Hamborg, frá því þeir sigldu hiedan. Sjá hans Brevis Commentarius de Islandia, 1593 á bladi 6ta.

og fleirum sídan eptir hans, bædi í Fránkaríki og Þýdskalandi; af Jóni Eiríkssyni, Schönning, O. Olavius 1772, 1780, oll eptir Knoph, og eptir því lítid málverk til Troils Ferdasøgu [346]); eru þó oll óviss. A Bellins korti, gjørdu eptir Kergnelens siglíngum 1767 — 68, ligg eg frá sydsta parti minum til Nordur-horns, á milli 63° 14′ til 66° 48′, en Búlands-nes mitt í Sudurmúla-sýslu, 3° 30′ í austur, frá Ferros fyrsta middags-hríngi. Þó ber þessu ecki fullvel saman vid þau af Petit 1776 útgéfnu kort, eptir Verduns de la Crenne ýtarlegu athugasemdum á siglíngum 1772, þar er sydsti partur minn undan Mýrdals-jøkli 63° 7½′, en Nord-



346) Sjá Dr. Uno von Troils Bref rørande en Resa til Island 1772.

Nordur-horn mitt á 66° 44′ breidd, en lengdin frá Bjarnanúpi edur Bjargtánga í Bardastrandar-sýslu, til tángans milli Breidavíkur og Herjólfs-víkur í Nordur-múlasýslu, talin ad ná frá 352° 48′ 25″ til 1° 33′ 45″ [347]).

Fyrrnefnd óvissa um minn rétta Legstad og mína stærd, meinleg mjøg fyrir skipa ferdir, orsakadi og, ad Kóngar mínir létu sér annt um ad fá hvorttveggja eptir athugasemdum Stjørnuskodenda og gløggvum Mælingum rétt fundid. Því var mér, sem ádur er sagt, sendur Niels Horrebow 1749, eginlega þó af enu konúngl. danska Vísinda Félagi; hann adgætti og ýmislegt þar ad lútandi í 2 ár. Sídan var Ey-

ólfur

347) Sjá v. Eggers' Beschreibung (fyrrnefnda) §. 29.

ólfur Jónsonius 1772 (sjá bls. 457) af Kóngi mínum settur til ad skoda Himin-túnglanna gáng hjá mér (Observator Astronomiæ); eginlega átti þetta ad gjeraſt ad Stadastad, hvørsvegna honum og var veitt kónglegt vonarbréf fyrir því braudi, þegar þad loglega losnadi, naudsynleg verkfæri til stjørnufródra skodana í hendur fengin og 80rdl. til launa; en Kóngur minn skipadi, árid 1774, ad hann skyldi ad Lambhúsum vid Bessastadi hafa fritt adsetur og þadann skoda þad honum fyrirlagda; vóru honum þá losadir 100rdlr. til launa úr því Stadastadur losnadi, en vonar-bréfid fyrir því braudi apturkallad. Hann deydi 1775, en Rasmus Lievog var 1778 útnefndur til Observators í hans stad og mér sendur 1779, laun hans sídan svo aukin smámsaman, ad

hann loks fêck 200rdli í árleg laun, fríann bústað og enn þá vænt hús handa sêr uppbyggt, vann lítið merkilegt mêr til nota, og yfirgaf mig loks árið 1805.

Til áðurnefnds augnamiðs, og ásamt til lêttirs kauphöndlun, skipaferðum og duggu-dorgunum, var Skipherra Hans Erik Minor mêr sendur með velútbúið skip 1776, til að uppleita, mæla og afmála hafnir umhverfis mig, aðgæta líkleg fiski-mið og fiski leitir, og gjöra áreiðanleg Sjóarkort hêrum. Hann mældi hjá mêr þetta ár og 1777, og hafði þá með sêr sem málara, Stúdent Frisser. Árið 1778 komu þeir enn sama erindis, en kollsigldu þann 17da Maí s. á. skúffu á Hafnarfirði nálægt skipi sínu og druknuðu ásamt fleirum skipsmönnum, mêr til því meiri sorgar, sem Mi-

nor einkum var duglegur madur og mèr vel unnandi. Í stad Minors var Søren O. Malling til þessa verks framhalds útvalinn 1779, en deydi frá skipinu híngad seglbúnu sama ár í Kaupmannahøfn.

Med herskipi dønsku sigldi Capitainn Wleugel til min austanverdrar og þar nálægt 1776. Hann lèt tilbúa góð Sjóar-kort yfir Breiddals flóann, Fáskrúds- Lodmundar- og Seydisfirdi, og auk þessa afstedu kort yfir Austfirdi mína frá Vesturhorni nordur ad Borgarfirdi í Nordur-múla-sýslu. Capitainn Lütken samdi Kort yfir Patrixfjørd, hvort Verdun de la Crenne og hafdi komid 1772. General-Adjutant Löwenörn kom 1786 í hvms-ar hafnir mínar sydra og vestra, ásamt Lieutenant Egede (sem dvaldi hèr vetrarlángt og kom apt-ur

ur 1787 eins og árinu fyrri, inn á Dyrafjörd og Skutulsfjörd), á eptirleitingar siglingum þeirra eptir Grænlands fornu Austurbygd; þó ferda-áform þad heppnadist ecki, hjálpadi þessi Löwenörns sigling samt til hans, þeim mun áreidanlegri, útgáfu árid 1788 af Minors Sjóar-kortum frá Geirfugla-skerjum og Reykjanesi til Stickisholms, med Vidbætir um sjóar-strendur og hafnir á mér sunnan- og nord-vestan-verdri; þessum sídarsta eptir Capitains Verduns de la Crennes, Löwenörns og annara athugasemdum[348].

Ept-

[348]) Beskrivelse over den islandske Kyst og alle Havne fra Fugle-Skjærene og til Stikkelsholm i Breedebugten etc. med Tillæg etc. Kjøbenhavn 1788.

Eptir þetta hætti med ollu hafna mælíng-in, því Kammerſekretéra Ol. Olavii ferdalög í 3 ár, frá 1775-77 um veſtan-nordan- og auſtan-verda mig, met eg í þeſſu tilliti mjeg ſvo litils, þó hét Kóngur minn því med opnu bréfi þann 18da Aug. 1786, ad henni ſkyldi enn framhaldid verda; bídur þetta ſamt enn betri tída, því — ad ſönnu er af Kóngi mínum þann 28da Maí 1800 Rentukammerinu á hendur fal-id, ad gángaſt fyrir mælíngu hafna minna og ſjáfar-ſtranda, og 2 Off:ſérar mér ári ſeinna, en ſídan 3 ſendir til gloggt ad mæla og afmála aſtødu minna ſjáfarſtranda umhverfis, en þó eng-inn enn til ad mæla mínar hafnir; óttaſt eg ſamt fyrir, ad þetta koſtnadar- og láng ſama verk, med þeim launum og útbúnadi þad útkrefur árum ſam-an, gjöri afmálun mína údragsſamari, egi hún

af

af minum egin Collectu-peníngum ad borgast, enn eg hefi nú líklega von eda sjón á hvörsu eg sjálf brádlega kunni upp ad vinna.

Ad forvitnast um Náttúrufar mitt og um Leyndardóma míns líkama, vóru til mín útgjördir Eggert Olafsson og Bjarni Pálsson, fyrst 1750 af Mølmenni, er frá 1748 var Bóka-vördur Kóngs, sídan kónglegur Sagnaskrifari, Etatsráð og margt fleira, bædi til söfnunar fornra bóka, til hvers mælt er þeir hafi styrk ødlast af Arna Magnússonar (Legats) Gjafar-stiptun, og til safns náttúru hluta, svosem: grasa, dýra og steina [349]), sídan eptir Kóngs-

[349]) Æfisaga B. Pálssonar, útkomin 1800, nefnir bls. 38-39 og Dr. Hauber til þess, þó med þeim mismun ad Hauber er þar allt af talinn

Kóngsbodi þann 23ja Aprilis 1751; komu þeir út híngad ári seinna og forvitnudust um nærig alla til 1757; átti hid konúnglega Danska Visinda-félag ásamt þátt í athugasemdum þeirra, undir hvers umsjá og stjórn þeir framhéldu verkinu. Eggért samantók hid fyrsta Utkast þeirra merki-legu

inn Bókavørdur Kóngs, til hvørs eg alls eckert veit, ne finn likur í Worms Lexicon over lærde Mænd, heldur ad hann hafi verid þýdskur Sókn-arprestur til Peturs kirkju í Kaupmannahøfn; Eggerts Olafssónar prentada Æfi blf. 6 minn-ist ecki heldur ødruvísi á þessa ferd, enn ad hún hafi af sjálfs dádum Eggerts og Bjarna „til egin „framfara þeim og reynslu í Náttúru-speki" stofn-ad verid Møgulegt því ad hin frásagan í Æfi-søgu Bjarna, bædi um Hauber, sem Bóka-vørd Kóngs og ferdar-tilefnid, megi telja med fleiru midur áreidanlegu í þeirri Æfisøgu.



legu Ferda-sögu, en þá verandi Prófessórar Jón Eiríksson og G. Schönning endurbættu það allt að stýlnum og fleiru, sem formálinn sýnir [350]). Aður hafði Eggért [351]) ýtarlega lýst á prenti

[350]) Sjá þeirra Reise igjennem Island, Sorøe 1772.

[351]) Sjá hans Enarrationes histór. de natura & const. Isl. 1749. P. I. Við þetta efni þykir mjer hlýða mega hjer að tengja merkilegri frásögn úr Eggerts og Bjarna Ferða-sögu bls. 740, og eptirláta Lesaranum, hvort heldur hann vill eigna þau nýstárlegu tilfelli, hverjum hún skírir frá, náttúrlegum eða yfirnáttúrlegum verkunum, trú eða hjátrú, þar eg með þeim náttúru-fróða Fleischer læt mjer sóma að játa: að eg allś ekkert í-þrjósinni stilii. Sagan er þessi: Á Siglufjarðar-skarði, sem er stuttur en hár fjallvegur á milli Fljóta og Siglufjarðar, við Sýslumót Eyja- og Skaga-fjarð-

á prenti 1749, náttúru-fari minu og áſigkomu-
lagi í eldri tídum, en eg ſakna ad eg enn ecki
Hh            fèck

fiardar ſýſlna, hafdi hierum í 100 ár jafnadar-
lega ſieſt einhvor ógnarleg og bauvæn Loptſión, lík
ſvörtu ſkýi og líkuſt ſtrocki ad lögun, ſem á miô-
um ſtígi á ſkardinu hafdi þeſs á milli ſteypſt ofan
á ferda-fólk, eins um ljóſann dag, ſem á nóttu,
þó einúngis á einn mann í einu, þó fleiri væru opt
á ferd ſaman, á ſtundum bædi á undan og eptir,
en ſá, ſem ſký þetta ſettiſt á, hveig ſtrax daudur
nidur. Þó komuſt menn og opt hjá þeſſum háſka.
Þetta hafdi vidhaldiſt, ſegi eg, hierum í 100 ár,
þegar ſkadrædi og manntjón af þeſſu hier um 1730
tók ſtórum ad vaxa, hvörs vegna Mag. Steinn
Jónsſon Biſkup tók þad til bragds, ad ſkipa Stipt-
próſaſti Þorleifi Skaptaſyni, ſem þá ad
ſönnu var Próſaſtur í Þíngeyjar-ſýſlu og Preſtur
ad Múla, en einhvörr hinn merkilegaſti Gáfu-
madur og Preſtur Nordanlands haldinn á þeirri
tíd, ad framflytja opinbera Gudsþjónuſtu, og bæna-

féck ſeinna part þeſſa ſnotra rits prentadann ad ſiá, en Bjarni ritadi um mín Søl ſama ár [352]. Um Jøkla mína ſkrifadi Rector Þórdur Þor=kells=

giørd á þeſſum ſtad. Vid ſteina, ſtigi þeſſum ná=læga, høfdu ferda=menn þó ádur opt giørt bæn ſína, ádur enn á hann løgdu, margir þó ørendir hnigid. Altari af grjóti var á ſtiginum reiſt hjerum 1735 og opinber Guds=þjónuſta og bæna=giørd þar þá framin í vidurviſt fjølda fólks, en — alls enginn tjáiſt á þeim vegi nockurt tjón þadan, í frá bedid hafa. Eggert og Bjarni nefna, ad Þorleiſt Skaptaſyni, þá þegar ſem Stiptprófaſti, haſi verid þetta ſkipad af Biſkupi, nefnilega Steini, er deydi 1739, ſem ſtadfeſtir þad, blſ. 266, ádur framfærda, ad Þorleifur verid haſi Stiptprófaſt=ur á Hólum, bædi á undan Steini Biſkupi og eptir hann.

352) Sjá hans Obſervationes de Alga ſacharifera mar. Isl. 1749.

Eellsson Vídalín þegar 1695 [353]), en það rit útkom, aukið og útlagt á þýðsku af Páli Bjarnesyni Vídalín í 12ta B. af Hamburg. Magazin. Sönduverdlega á þinni tíð, fyrir 1717 ferðaðist einhvörr mér lítt kénndur hér um, og ritaði um náttúru-far mitt, að sögn, ecki ómerkilega fráságu [354]). Jón Sæmundsson, Prestur til Reykjahlíðar og Skútustaða, lýsti eldgosunum við Mývatn 1724 — 25, 1727 — 28;



353) De montibus chrystallinis Islandiæ.

354) Sjá hjerumm Eggers's Beschreibung, sem bls. 63-64 í nótu i, lýsir henni sem óprentaðri uppá 192 bls. í 8vo, með Titli: Reise-Beskrivelse til Island, Kjöbenh. 1717, (hvörja ritarinn hefir tileinkað Teiti Presti Pálssyni til Eyrar við Skutulsfjörð) og skamstafað nafn sitt undir með N. L.

28; frásaga um fyrri 2 árin var prentud á Dönsku 1726[355]). Niels Horrebow kom, sem ádur er sagt (bls. 466), til mín 1749, var hjá mér 2 ár, og gaf 1752 út greinilega lýsingu af mér í þar nefndu riti. Frásegu þeirra Eggerts og Bjarna um jardskjálftann og eldgosid úr Kötlugjá 1755, setti Jón Eiríksson (sídan Conferents-ráð) á dansta túngu, og lét prenta[356]). Halldór Sýslumadur Jakobsson lét 1757 prenta frásögur um mín eldgjósandi fjöll[357]); sama ár útkom

[355]) Relation om det udi Island brændende Field Krabla.

[356]) Kiøbenhavns Videnskabers Selskabs-Skrift. 7de D. No. 6.

[357]) Fuldstændig Efterretning om de i Island Ildsprudende Bjerge, Kiøbenh. 1757.

kom Jóns Sýslumanns Snorrasonar lærda rit, um Akuryrkju Islendínga[358]. Arid 1764 kom til mín um vorid: Jóhann Gerhard Kónig, og dvaldi hér til haustsins árid eptir, til ad grenslast eptir jurtum og grøsum, er hjá mér vara, hvörra registur Conferentsrád O. F. Müller sídan gaf út á prent[359], en Kónigs tala þeirra fylgir aptan vid Eggerts og Bjarna Ferdasøgur, undir titli: Flora Islandica, edur íslendska Blómstur-gydjan. Arid 1766 brann Hekla mín seinast, og lýsti Dr. Hannes Finnsson hennar eldgosi á dønsku



358) *Tractat. Hist. - phys. de Agricultura Islandorum.*

359) Enumeratio stirpium in Islandia sponte crescentium, í Nov. Act. Nat. Curios. T. IV. (sjá Worms Lexicon).

s. á.[360]). Nafnfrægur enskur Herra Jóseph Bancks, sem til náttúru-fródleiks og landa ht-arlegri þeckingar, ferdadist vída um jördina, kom og til mín 1772, med honum Dr. Solander og Dr. Uno v. Troil; þeir fóru til Heklu, dvöldu hèr fáar vikur, og skildu eptir hjá mèr mikid ljúfmennsku, örlætis og lærdrar starfsemis mannord. Uno von Troil gaf sídar á prent frásögur um þessa ferd hingad[361]). Tel eg þá nærst ad tímatalinu fyrrnefnda, bls. 477, O. Olavii ferdalög 1775—77 um mig vest-

att:

[360]) Sjá hans Efterretning om Tildragelserne ved Bjerget Hekla, etc. 1766.

[361]) Sjá hans Bref rörande en Resa til Island 1772 Uppsala 1777; þó telst útlegging þessarar bókar á þýdsku útkomin í Uppsölum og Leipzig 1779 enn þá vissari.

an- nordan- og austan-verda, en Conferents-
ráds Jóns Eirikssonar fródlegu inngángs
ritgjørd fyrir hans ferdasøgum, láng-merkileg-
asta af því verki, hvørt hann þó gjørvallt, likt
og Eggérts og Bjarna Ferdasøgur, ad stýlu-
um merkilega bætti. Henkel og Ziener vóru
mér sendir 1775, sá fyrri til at skoda Brennu-
steins-námur mínar sydra og nyrdra, en þessi
til ad skygnast um min Surtarbrands-fjøll
vestra, þeir sigldu samsumris hédan, en ferda-
søgur þeirra finnast aptan vid nýnefnda Ola-
vii Ferdabók, eins og eg, blf. 109, hefi ávikid.

Eg hefi, blf. 110, einninn til þess bendt:
ad Walter og Adam Usler vóru mér sendir
1776, til ad útsjá, hvad best mætti haga
Sallt-verki mínu, byrjudu 1773 á Reykja-
nesi, og ødru áformudu á Reykhólum, og vil

 því

því ecki framar ordlengja þar um, nema ad eins bæta því vid: ad þeir álitu 124 Saltpönnum gjørlegt nidur ad koma á Reykhólum, og í þeim ad sjóda 125 tunnur salts á mánudi hverjum, en gátu alls eckert sagt, hvørt innsigling hafskipa yrdi þángad fær, né heldur hvørja feiknar summu Salltverks stiptan þar, svo stórkostleg, kresja og gleypa mundi [362].

Á umferdum sinum 1775—77 hafdi Sekretéri Olavius fundid liklega Porcellainjerd í Mókollsdal í Stranda-sýslu, og sendt nockud af henni til prófs, Fyrirrádendum ennar frægu, nýbygdu dønsku Porcellain-fabriku í Kaupmannahøfn, en þad senda reyndist oflítid til duganlegs prófs; óttinn, ad góda porcellain

[362]) Sjá Forberedelse til O. Olavii Reise bls. CLXXVI. CLXXVIII.

cellain-jørd mundi med tímanum þrjóta, fyrir nefnda Fabríku, frá Borgundarhólmi, sendi Stúdent Nikulás Móhr af stad til mín 1780, ad ransaka betur Porcellain jørdina í Mókollsdal, og vídar ad henni leita, en um leid adgæta allt, er til upplýsingar í náttúru-søgu minni, og til búsældar framfara horfa mætti; hann lét sama ár drjúgari sendíngu af Porcellain-jørd úr Mókollsdal, ad álitum gódri, sigla til prófs med Skagastrandar-skipi, en — undir eins med því kollsigla, og þanninn verda ad engu. Móhr ferdadist um mig nordan og austan frá Skagastrønd til Djúpavogs, og yfirgaf mig 1781, en lét á prent útgánga 1786 fullkomnari Náttúru-søgu mína, enn eg þángad til átti [363]). Ad

[363]) Sjá hans Forsøg til en islandsk Natur-historie 1786.

Að eg nú minnist hèr til enda á Sendimenn til skodunar náttúru-fars míns, gèt eg þess: ad Kammer-herra og sídan Stiptamtmadur minn Levetzow, fyrrnefndur bls. 227, var um haustid 1783, eptir Skaptár-jökuls sídasta eld-gos til mín, útgjördur af Kongi mínum, og ásamt honum Magnús Stephensen; átti hinn ad yfirvega einkum hvad til vidréttingar eydilegdu plátsunum horfa mætti, en þessi, auk þess ad hjálpast ad til sama, ad gjöra gloggva útmálun og fráſögu þessara stórkostlegu náttúru minnar umbrota, hvar um hann útgaf bókar-korn, prentad 1785, med eyrgrøfnum málverkum[364]).

Lok-

[364]) Sjá hans Kort Beskrivelse over den nye Vulcans Ildsprudning i Vester-Skaftefells-Syssel paa Island i Aaret 1783, Kjøbenhavn 1785.

Lokſius var núverandi Land-chírúrgus Sveinn Pálsſon mér ſendur frá ný ſtiptudu Náttúru-ſögu Félagi i Kaupmannahöfn hérum 1792 — 1794, ad ferdaſt um til frama náttúru-ſögu minnar, en — hann ferdadiſt litid eitt, og ad hann hafi nockud ſérlegt hér i útrétt, heſi eg ecki ſpurt.

Seinaſtur útlendra, er til mín ferdadiſt, annadhvört egin lyſtiſemdar eda náttúru-ſögunnar vegna, var enſkur úngur Herra, ad nafni John Stanley, ſem ſkodadi Geysir og og Heklu 1790.

Fleiri enn þá vóru þó þeir, ſem annadhvört med ferdum til mín eda ritgjördum létu ſér annt um, ad ſá mína Land-búſtjórn og búnadar-háttu vidrétta. Med þeim tel eg fyrſt og merkilegaſt Lögmanns Páls Vidalíns opt-

nefnt

nefnt rit, Deo, Regi, Patriae, aukid, umbætt og á Dönsku útgefid 1768, af Jóni (Conferents-rádi) Eirikssyni, og nálægt sömu, eda fyrst í þinni tid, Rectors Arngrims Þorkelssonar Vídalíns rit um betrun míns ástands [365]. Matthias Jóachimsen Wagel ferdadist hér um mig hálfa, seinast á dögum Fridriks míns IV., qvadst hafa hans munnlega skipun, ad adgæta sérhvad, er mér mætti til vidreistar þéna, og samdi í Christjáns VI. tid Paradlútandi Athugasemdir [366]. Lögmadur Hans Becker ferdadist med Arna Magnússyni

[365]) Hier enn óprentad, med titli: Consilium de Islandia in optimum Statum constituenda.

[366]) Anmærkninger over Islands Indbyggeres fattige og forarmede Tilstand, enn óprentadar.

syni og Páli Vídalín í 4 ár, og ritadi heilrædi um mína vídreisu[367]. Niels Horrebow sámdi, auk hans fyrrnefnda, 1752 prentada rits (sjá bls. 466), annad, sem enn er óprentad, um búnadar-háttu og vídréttingu mína 1751[368]. Svenskur Barón, Fridrik Vilhjálmur Hastfer, færdi mér, árid 1756, 10 hrúta af enskn kyni, sigldi um haustid, eptir þad hann hafdi sannad ad þeim 100 ám til betrunar fjárbragdsins og ullarinnar, og skilid eptir þénara sinn til þeirra umsjónar; en kom þó aptur 1760 med spanska hrúta, hvadan ógjæfan eptirá reis, er þeir syktust á leid til mín;

367) Forslag om Islands Opkomst (enn þá óprentad).

368) Relation og Betænkning over Islands Oeconomie, etc.

mín; ſkrifadi ſamt mér til góds ritkorn 1757, vidvíkjandi þáverandi áſtandi mínu og þeſs betrun, og deydi 1762 [369]). Kaupmadur Thómas Balle útgaf Búnadar-þánka ſina um mig 1760, eptir margar ferdir til mín, og 1771: Jslendínga von til Kóngſins, um allrandduga ſta umbreytingu á þeirra hørdu kjørum [370]). Eggért og Bjarni og Olavius ferduduſt og, ſem ádur er ſagt, í þeſſu tilliti, ſem þeirra marguefudu ferdabækur votta; Móhr ad nockru leiti 1780 (ſjá blſ. 488—89); Land-commiſſióna ferdirnar hefi eg ádur

369) Upartiſke Tanker om Jslands nærværende Tilſtand, etc. (enn óprentada).

370) Sjá hans Oeconomiſke Tanker over Jsland, til høiere Betænkning, 1760, og Jslændernes Haab til Kongen, etc. 1771.

ur nefnt. Í merg ár fèck Jón Grímsson, Urtagards-madur, laun nockur af Kóngi til ad ferdast um hjá mèr, og kénna kálgarda-rækt, en útrètti vid þad ofur lítid. Þórd Stúdent Þóroddsson lèt Kóngur minn ferdast frá 1773—80 á sinn kostnad, bædi í Svía-ríki og hjá mèr, til athugunar alls þénanlegs, er vidrètta mætti búnadar-hætti mína; 2 af þessum tilnefndu árum, 1779—80, ferdadist hann med þáverandi Kammerjúnkur, en sídan Kammerherra og Stiptamtmanni Levetzow um hjá mèr í þessu og fleiru tilliti, þó eg ecki hafi fengid uppspurt, hvad upplýsandi eda mèr gagnlegt sú ferd þeirra, eda Hofjúnkurs von Brandts hingad 1756, hafi fædt, hefdur enn nockrar fleiri. Nálægt í sama tilgángi lèt Konúngur minn 1779, þá nýordinn Vice-legmann, nú Amt-

Amtmann Stephán Þórarinsson, ferdast til Norvegs á sinn kostnad, og lagdi honum sídan, í næstu ár þar eptir, 100 rdli árlega, til ad framqvæma og kénna þad, vid vatnsveitíngar af mýrum og annad, sem hann hafdi uppástúngid. Þad leiddi hellst af sér Rit hans um þetta efni í Lærd. L. Fél. R. II. B. og fyrirheit verdlauna af Kóngi fyrir þessháttar störf. Á seinni árunum skrádi hann, sem fyrr segir, í sömu ritum, um mér enn markverdari búnadar-efni, svo sem: Heyforda-búra stofnun, og um jöfnud Heyja-nota mót Korn-yrkju, auk þess, er hann á Dönsku ritadi um Hallæri og þeirra verkanir (sjá bls. 122). Adrar líks efnis merkilegu Ritgjördir í sama Félags Ritum, einkum míns Stiptamtmanns O. Stephánssonar: um Gagns-

muni

smuni af Saudfé; um Not af Nautpeníngi; um Hesta; um Sjáfar-abla, etc.; um Edar-varp; um Jafnvægi Bjargrædis-veganna. Biskups Dr. Hannesar Finnssonar: um Mannfækkun af Hallærum; um Barnadauda; um Brennusteins-nám, etc. Landfógeta Skúla Sveita-bónda med Vidbætirum, og M. Ketilssonar Athugasemdum; Rit þessa: um Innilegu búsmala, Islands Mánada-tídindi frá 1773—76, á Dönsku í Hrappsey útgengin; hans og Björns Prófasts Halldórssonar og annara ymisleg fleiri búnadar-rit, hefi eg ádur nefnt.

Auk Páls Vidalíns og Jóns Eiríkssonar, sem útgaf og vidjók hins margnefnda merkis-rit Deo, Regi, Patriae, Rectors Arngríms **Vidalíns**, **Wagels**, Beckers, Horre-

 bows,

bows, Hastfers, Balles, er allir ritudu skor-
inordt um mina kaupḥøndlun, hennar form og
breytingar, tel eg sérlegasta Rithøfunda um
sama mér merkilega efni þessa: Geheime-ráð
Ove Høgh Guldberg [371]), Etatsráð Christ-
ján M-rtfelt [372]), Strids-ráð Arva Gud-
mundsson [373]), hann þó mér og sjálfum sér
til

[371]) Sjá hans edur Philodani Undersøgelse af Phi-
lopatreias Anmærkn. 1770-71. og hans Tan-
ker om Philocosmi Betænkninger 1771. Til-
læg til Philodanus, útkomid 1771, man eg nú
ecki ad fedra.

[372]) Sjá Philocosmi Betænkninger over adskillige
rigtige politiske Materier, 1771, og Brev til
Philodanus, 1771.

[373]) Sjá hans edur Islandophili upartiske Tanker
om Handelen paa Island 1771 og Anmærknin-
ger

til litilla sæmda; Landfógeta Skúla Magn-
Ii 2 ús-

ger over Compagniets Handel paa Island 1772. Að Landfógeti Skúli og Arvi Guðmundsson hafði ecki verið vinir, má bædi ráda af þeirra gagnstædu ritum og ólíkri velvild til Islendinga, líka af tilefninu til Arva innkomu hingað 1768, sem var, að Skúli þetta ár tapaði sinni og samfelaga málssókn, mót kaupþendlunar Compagníenu (sjá blſ. 156) var með lagsbrædrum sínum dæmdur að betala 5000rdli, og sjálfur settur frá nýju Innrettinganna Umsjón í Reykjavík, en — til hennar aptur settur og innsendur Stríds-ráð Arvi Guðmundsson, áður Kaupmaður í Finnmørku. Sama árið 1768, sendi nefnt Compagnie hingað skiemmt og óheilnæmt mjøl, af hværjum 1000 tunnum var ytra fleygt, hitt hjer niðursett, hóf Skúli þá mál á ný mót Compagníenu, sem 1772 dæmt var til 4400rda. útláta, um hværra radstøfun eg vísa hjer aptur til blſ. 156-57.

úsſon [374]), Vice-legmann Jón Olafsſon [375]), Jón (Conference-ráð) Eiríksſon [376]), Stiptamtmann Þorkél Fjeldſted [377]), Etats ráð Carl Pontoppidan [378]) og Stiptamtmann Olaf Stephánsſon [379]). Lok-

[374]) Sjá hans Svar paa den i Magaz. for Patr. Skrib. 1771 inddragne Islandophilus.

[375]) Sjá hans Betænkninger over den islandſke Handel 1772.

[376]) Sjá hans Forſøg til Forberedelſe til at beſvare det kongelige danſke Landhuusholdings Selſkabs Spørsmaal: om den bedſte Handels Indretning for Island 1783.

[377]) Sjá hans Pris-ſkrif: Om en nye Handels Indretning udi Island 1783.

[378]) Sjá hans: Samlinger til et Handels Magazin for Island, 2 Dele 1787-88.

[379]) Sjá hans: Kort Underretning om den islandſke Handels Førelſe, etc. 1798.

Loksins má þad vera vinum mínum til æruminníngar, ad þeir undir burtför þína legdu sameginlega vidleitni á, ad fá í fyrstu aflaga gengnu kauphöndlunar formi hjá mér, kippt í lidinn. Gódur vilji og vidburdir vöru þad eina, er í þeirra valdi stód, um hvörttveggja hefir veröldin opinberann vott [380]), sem eg alla tíd á ad vyrda. Þó óheill mín bægdi mér þ.. strax frá ardmeiri uppskéru, brást hún þó ecki med öllu, og ecki er um betri örvænt med framtíd. Stapp og strídsskrif hér út af spunnin, met eg mér alls ecki vidkoma, med því eg veit fullvel uppá nockur þeirra hlyda, er leitudu eptir grundvallarlaust ad ósæma mig og vini

 mína,

[380]) Sjá Islands almindelige Ansögning til Kongen, etc. med Erklæringer 1797, undirskrifada af flestum Yfirvöldum á Islandi.

mína, viturs manns Voltaires orð: "Syndú "mér," segir hann[381]), "eitt einasta níð-rit "í allri Norðurálfunni, sem eilíf skömm ecki "hylur, eða varanleg gleymska ecki haldi "niðurkleſſtu undir því forugá feni, hvað-"an það útvall." Eg vænti og fagna meiri mannúðlegleika, upplýsingar og siðsemdar í far-hugstu systur þinnar, mín Framliðná! þó fáir viti hvørju fagna skal!

Vilji eg nú í einu yfirlita hið merkileg-asta eptir áðursegðu um Lærdóms ástand og Vísinda-framfarir hjá mér í þinni tíð, verð eg að nefna þeirra merkileguſtu verkfæri, Prent-verkin, Fornfræði mín, Lærdóms-félög og sérleguſtu Bækur. For-

[381]) Í sínu nafnkjenda brefi til Dana-Kóngs af 15da Jan. 1771. Ut. og prentuðu á Dönsku, bls. 10.

Forleg Hóla prentverks hefir á mitt mál greinilega sýnt, minn forþénti fornvinur Hólanophilus, samqvæmt ritum Biskups Doctors Finns Jónssonar og Magnúsar Ketilssonar[382]), nefnilega: ad þessi vafalausa eign Biskups Mag. Þórdar Thorlacii[383]) var af syni hans Brynjólfi Thorlacius árid 1704, seld burt frá Skálholti Biskupinum á Hólum, Mag. Birni Þorleifssyni, sem keypti Prent-



382) Sjá Minnisverd Tídindi I. B. bls. 322-338. Hist. Eccl. Isl. T. III. p. 226, 373, 381, 676, 746, og Fororðn. etc. for Island T. II. bls. 352 etc. í nótu.

383) Sjá þar ad lútandi Kóngsbref af 14da Febr. 1685, 7da Apr. 1688 og Mag. Þórdar Thorlacii Testament af 3ota Júní 1695 auglýst á Logþingi.

verk Biskups Thorlacii fyrir sina egin pers-
ínga, og flutti ad Hólum. Af Eckjufrú hans
var þad sidan 1712 lagt og betalad 1 álag
þess, er med Biskupsstólnum afhendast átti
Biskupi Steini, hvørr 1724 fann uppá þann
ástædulausa fyrislátt, ad Hóla-stóll ætti Prent-
verkid, eptir Testamentis bréfi Biskups Gud-
brands, fèck þarum tilnefnda Commissión mót
fáráðlinginum Brynjólfi Thorlacius, út af
hvørjum hann loks, med umtølum og klókind-
um Páls Løgmanns Vídalíns, fèck þad flæk-
ad án dóms, þann 17da Júlí s. á. Þadan
útgèck samt um þína tíd, hmislegt af nytsøm-
um og gódum bókum, þó medfram enn meira
af smeckltitlum sálma- og ljóda-drusslum, hug-
vekja- og bæna-russi. Loks hvíldist þad því
nær med øllu hèr um 20 ár, og var, eptir
Kóngs-

Kóngs-bréfi þann 14da Júní 1799, lagt útslitið, með öllum tilheyrandi leifum, til Prentverksins í Leirárgörðum og saman við það, undir einka-stjórn og umsjón míns Landsuppfræðingar Félags.

Kóngs-bréf, útgéfið þann 4da Júní 1772, leyfði þáverandi Stúdent, síðan Kammersekretéra Olafi Olavius, að reisa hér upp annað Prentverk, og brúka það til annara enn andlegra bóka prentunar; hann setti það niður í Hrappsey 1773, hvar það gékk um eins árs tíma undir hans, en síðan Magnúsar Sýslumanns Ketilssonar umsjá. Frá þessu Prentverki útkomu: Skardsár-Annálar, 1ti og 2ar Part. konúngl. Tilskip. og Kóngsbr. til Islands, Norsku-lög íslendskud, Mánada Tídindi dönsk, Rímur og ymislegt. Loks

hvíldist þad, eins og Hóla, undra lengi, vegna útdráttarsams kostnadar, er ecki fèckst endurgoldinn. Bjørn Gottskálksson keypti þvi Prentverkid 1794, lèdi þad Lands-uppfrædíngar Fèlaginu, sem setti þad nidur í Leirárgørdum, undir stjórn Magnúsar (þáverandi Løgmanns) Stephensens, og seldi þad sídan nefndu Fèlagi aptur 1798, sem undir eins gaf þad til opinberrar Vísinda-stiptunar mèr til nota. Um þess ádur þraungu Prentunar-takmørk rýmdi Cansellí-brèf þann 13da Sept. 1794, ad því leiti Tilskipanin af 27da Sept. 1799, ecki bannar, og vid þetta verk vard, sem fyrr segir, Hóla-prentverks leifum samansteypt 1799. Mergd fyrirliggjandi óútgenginna bóka, hallæri og gripa-fellir fólks sídar uppáfallin, deyfdu lyst og faung þess til bóka-

bóka-kaupa, og dýrleiki alls naudsynlegs, rédu nú seinast til, um stund, ad draga eins stór-kostlegann kostnad og ádur til sifelldrar prentunar margra bóka, uns í árum batnadi, og eitthvad útgengi af fyrirliggjandi bóka upplegum, til ad standa med tilkostnadinn.

Í Fornfræda minna tilliti vil eg nú fyrst minnast á þær útgáfur minna eldri Sagnaritа og Fornfræda, mér til gagns og sæmdar, sem þú léstst þér einka umhugadar vera, undir umsjón lærdrar Commissiónar og sérlegra Lærdóms-framara. Ad sönnu drap eg þar á (bls. 454—55), ad sú fyrsta Land commissión 1702—12 hefdi sárlega rúid mig dýrmætustu héradlútandi skjölum, sem þó ad miklu leiti logudu upp í Kaupmannahafnar bruna 1728, nú minnist eg þess, sem fyrri, bls. 431, ad

ad minn yyrdti og lærdi fonur, Prófessor Arni Magnússon, deydi í nefndum Høfudstad 1730, testamenteradi Kaupmannahafnar Háskóla bóka safni allt hvad hann átti af skrifudum Fornfræda = og Sagna = bókum eptir, sem þó var furdu mikid, og þaradauki 10,000 rdli, til ad styrkja fátæka stúderandi med, er legdu sig eptir Nordurlandanna fornfrædum, og þénudu til þeirra gódrar útgáfu á prent, og semuleidis til ad standa prent = kostnadinn. Fúndsárstan fyrir þessari hans Stiptun komst loks í stand 1760, en litid vard ágengt med fornfræda útkomu frá þenni um hríd, nema hvad hún styrkti Jón minn Olafsson, Stúdent frá Svefney, sem lengi og enn hefir þar, med øllum sóma, lagt sig eptir fornfrædum, til prentunar kostnadar hans lærdu rita, um Skirn og

Gud=

(Guðsyfjar [384]). Því nefndi Kóngur minn til stöduga Commissión af lærdum Herrum í Kaupmannahöfn 1772, til þess ad framfylgja fornritanna útgáfu á prent, eptir stiptun Árna Magnússonar, af alefli. Biskup minn Dr. Hannes Finnsson vard hennar Sekretéri um tíma, og eptir hann minn lærdi sonur, Jústitsráð og Prófessor, nú Geheime-Archivarius Grímur Jónsson Thorkelin. Ymsir Stúdenta minna þágu lengi hjálp af þessari stiptun til útleggínga og útskýringa minna fornfræda á látínska túngu, og í fyrstu gèck verk þetta allgreidlega, svo Kristni-saga, Gunnlaugs Ormstúngu-saga, Húngurvaka med Páls Biskups og Þorvalds Vídförla-sögu, út-

384) Sjá hans ritgjördir: de Baptismo, 1770 og de Cognatione spirituali, 1771.

útkomu til 1778, gaf þá Kóngur minn Stiptinnni 1000 rdli, til ad létta undir prentunar kostnadinn. Seinna kom út partur af Sæmundar Eddu, og Grettla mun lokſins vera útkomin, þó eg hafi hana enn ecki ſjed, þar hún var komin vel á veg fyrir 25 árum[385]. Vid þetta, vyrdiſt nú ſamt mikid dodnad hafa yfir þesshattar ydna útgáfum frá fyrrnefndri Commiſſión, ſem um tíma er ſem gengin til hvíldar á unnum lárberjum.

Sá mikli Lærdóms framari, Kammerherra Súhm, vottadi ſína dæmalauſu góðvild og rauſn, med því, í mørg ár, orlátlegaſt ad ſtyrkja allmarga ſonu mína til lærdóms=ydkana, einkanlega í Nordurlandanna fornfrædum, og til

[385]) Sjá um þeſſi efni Forberedelſe til Olavii Reiſe blſ. CLXV=VIII.

til ad draga fram í allsherjar ljós fjølda minna fólgnu fjársjóda, í vídast ókénndum sagna-ritum, sem hann med ótraudnasta egin erfidi og tilkostnadi lét smámsaman á prent útgánga. Medal þessara tel eg Landnámu, Orkneyínga-søgu, Rímbeiglu, Njálu[386]), sem lengi átti í ad fædast á ný (ef hún og enn er algjørlega fødd); Egils Skallagrímssonar-søgu[387]), Eyrbyggju, Vígaglúms-søgu, Hervarar-søgu. Ad eg ecki gat fengid í hans tíd ad sjá á prenti þad markverda verk, af gømlum samandregnum Annálum mínum, er hann lengi kostadi uppá, syrgi eg mjeg, og margt fleira,

386) Hana útgaf Olavius og í Kaupmannahøfn árid 1772.

387) Hún er og med Armanns søgu í Hrappsey útkomin, 1782.

fleira, mèr ókunnugt, mun eg víst ega þessum mikla manni að þakka[388]) Með enn meiri, já, kónglegri prakt, lætur Hs. K. H. Erfðaprinz Fridrik á mína, danska og látínska túngu útgánga Safn bestu og stærstu Sagna-rita minna, Norvegs ségu viðvikjandi, svo sem Snorra Sturlusonar Heimskrínglu, Sverris-sögu, Hákonar Kongs Hákonarsonar, skráða af Sturla Þórðarsyni, og Knytlíngu, edur Dana-kónga-sögu í miðeldunum (hver þó áður er, með lát'inskri útskíríngu Arna Magnúsonar prentuð); útgáfan hin lofar þó ecki einasta sinn koníngl. Utgèfara, heldur og þá, er íslendska textann, af bestu fornskjelum samanlesa, og gjöra síðan hans útleggíngu á danska

[388]) Sjá hjer um Forberedelse til Olavii Reise bls. CLXIX-X.

danska og látinska túngu, hvørt vandaða verk lengi má heidra Júſtits-ráds heitins G. Schönnings lærdóms minníngu, sem fyrir sinn dauda 1780 áſtauk þeim fyrstu 2ur pörtum af Snorra, eins og hitt ſidan útkomna, og hvad enn áhrestur þad áformada, gjörir og gjera mun mins forþénta vyrdta-sonar, Júſtits-ráds Skúla Þórdarsonar Thorlacii og míns lærda Jóns Olafssonar (frá Svefney) loflegu nefnum. Þó hefir velnefndur Jón Olafsson ecki sídur gjört minníngu sína ódaudlega, med lærdu Prís-riti um Nordurlandanna forna qvedſkap [389]), sæmdu 100 rdla verdlaunum, af enu konúnglega danska Vísinda Félagi.

Mér siálfri finnst þad heldur ecki litill sómi, ad Erfda-prints Fridrik hefir ecki alls

Kk fyrir

389) Om Nordens gamle Digte-konst 1786.

fyrir laungu, med konúnglegri prakt og kostnadi, látid reisa mínum Snorra Sturlusyni Heidurs varda, vid Slot sitt Jægerspriis i Sjálandi, medal annara forþéntustu merkismanna.

Biskup minn, Dr. Hannes Finnsson, gaf út á prent Kristinn-rétt hinn gamla 1760, og sídán Athugasemdir vid hann; ellstu Annála mína, med látinskriútleggingu [390]) og fleiru hér ad lútandi; en Jústitsrád Thorkelin gaf út þann, bls 150, fyrrnefnda Kristinn-rétt Þorláks og Ketils 1775, Kristinnrétt nýja eda Arna Biskups 1777, ádur þó prent-

[390]) J Langebeks Scriptores rerum Danic. T. II. J somu bók á hann og ecki allsáar skiringar-geinir vid: Necrologium Islando-Norvegicum vetus T. II, p. 503-19.

prentadann med látínſkri útlegg'ngu Próf:ſſors Arna Magnúsſonar [391]), Kóngs-erfda og Rikisſtjórn i Nórvegi 1777, Vaſprúonis-mál 1779, Vigslóda 1779 — 80 og annad hér ad hniganti [392]). Þó eru, ad mínum dómi, engin lærdóms-verk ſona minna í þinni tíd, min Framlidna! útkomin, er jafniſt í mergu tilliti vid Kirkju-ſogu mína, ſkráda af Biſkupi Dr. Finni Jónsſyni, þar hún ſvo mikid af annari margsháttar ſogu yfirgrípur; eda vid Rectors Mag. Hálfdánar Einarsſonar, blſ. 150 nefndu Lærdóms ritgjörda ſráſogu 1777, er ſvo ljóslega vitnar um þeſs lærda

Kk 2 manns

[391]) Vid Pontoppidans Annales Eccl. Dan. Diplom.

[392]) Svoſem: Statuta provincialia 1778. Analecta ad hiſtoriam, &c. ſ. á. Index Geographiæ, veterum, Diplomatarium Arna-Magnæanum.

manns mikla lestur. Maklega má og vidlíkt segja um þessa ydjumanns vendudu og prýdilegu útgáfu af Kóngs Skuggsjó, útkomna á mína, danska og látínska túngu 1768, undir umsjá Jóns Eirikssonar, á kostnad Kaupmanns Søren Pens's [393]; og ad miklu leiti um haus enn óprentudu Æfisögur Presta í Hóla stipti, nefndar blſ. 413. Á Hólum lét Lögmadur Bjørn Markússon 1756 14 Sögur prenta, og þó Gústavs Landkróns-sögu, edur hinn svenska Róbinson íslendskadann, og sögu af þeim enska Bertholð ad auki. Vóru hin-

[393]) Í látínskri rædu, prentadri framan vid Speculum regale 1768, en haldinni 1766, um þessa merkilegu bók, hefir Dr. Hannes Finnsson leidt líkur til, ad hún skrád se af Eindrida Unga, hellsta Rádgjafa Hákonar Norvegs Kóngs Herdabreida litlu fyrir edur sum 1160.

þinar 14 þessar: af Aunundi Tréfót og Grett-
ir Sterka, Bárdi Snæfellsás, Bandamönn-
um, Gésti Bárdarsyni, Hávardi Hallta,
eda Isfirdinga-saga, Iökli Búasyni, Þór-
halli Aulkofra, Þórdi Hrædu, Þorgrími
Prúda og Viglundi Væna og Ketilridi, í
4to, en í 8vo: Kjálnesinga-saga, Króka-
Refs, Hörds og Hólmverja, Gísla Súrs-
sonar, Vigaglúms. Þessa fornfræda lærdóma
vyrdtu þarhjá og fremudu mikid um þína tíd,
hvad ádur er áminnst, auk Þormóds Torfa-
sonar, Arna Magnússonar og Jóns Eirík-
sonar, þeir nafnfrægu densku menn: Gram,
Langebek, Schönning, Lüxdorph, Jacob
Edvard Colbjörnsen, en lángt yfir alla P.
F. Súhm. Jafnvel útlendar þjódir, einkum
Svenskir, heidrudu þessi mín huldu fræd-

 Þjó-

í Bjórneri Kámpedater útkomu 1737 ýmsar af minnar túngu sögum, svo sem: Uppruni Norvegs Kónga, Saga af Hrólfi Kraka, Alfi Kóngi, Hrómundi Greipssyni, Hálfdáni Brønufóstra, Ragnari Lodbrók, Norna-Gésti, Volsúngum, Fridþjófi Frækna, Samsoni Fagra, Hrólfi Svaita, Hálfdáni Kóngi Eysteinssyni, Saurli Sterka, Þorsteini Bæarmagn og fleirum. Auk þessa hefir Peringskjold ýmsar útgéfid, og Broekmann Jngvars Vidförla Sögu í Stockhólmi, 1762 [394]). Snorra Eddu útgaf Göransson á Svensku og Látínu 1746, Mallet á Frensku 1755. Minnist eg hér þó alls ekkert á þad

394) Sjá hjer um Formála fyrir þessari svensku útgáfu Jngvars-sögu bls. II. og Sciagraph. Hist. Lit. Isl. Sect. III, §. 4.

á þad marga af mínum fornfrædum, er Svenskir fyrir þiná tíd útgáfu, eptir þad Fornfræda Rádid (Collegium Antiqvitatum) var hjá þeim stiptad 1666—67, ecki heldur á ymisleg smárit annara hér ad lútandi[395]), eda sona minna í þessu efni, svo sem frá Jóns Eirikssonar[396]), Eggerts Olafssonar[397]),

Ak 4 Þor-

395) Sjá Sibbern Idea Hist. Literar. Isl. í Dreyer monum. Schlötzers isländische Literat: und Geschichte 1774. Joh. Stechau de fide Histor. monument. Island. Lund 1763.

396) De peregrinat. Islandor. & Philippia, Leipz. 1755, de nominibus & cognomin. Septentrional. 1753. Specim. de exposit. infant.; de Somniis & geniis.

397) Disput. 2. de ortu & progressu superst. circa ign. Isl. subterran. 1751. Tilraun og Lykil Landa-



Þorsteins Nikulássonar [398]), Jústits-ráds Thorlacii [399]) og annara høndum, sem hér yrdi oflángt ad thyna.

Stæra má eg mig annars af því, ad eg ein hefi svo fengid mitt málsæri vardveitt fram yfir flestar þjódir, frá því eg bygdist, árid 874, til þessa dags, ad þad enn má vyrdast sárlitid umbreytt eda gallad í munni og penna skynugra manna, á hvørju útlenda jafnvel furdad hefir, þegar t. d. franskt og þýdskt túngumál, eptir því, sem einhvor en ellstu skjøl í bád-

Landaskipunar og Rjett-rita-bók Islendinga, hvørttveggja enn óprentad.

398) De commeatu veterum Islandor, 1759-60.

399) Antiqvitatum borealium Observationes miscellaneæ, Specimina VI. smámsaman útkomin frá 1778-99.

bádum, vardveitt frá byrjun 9du Aldar, sýna svo ad hafa umbreyttst til útfarar þinnar, ad þeirra daga Frønsku og Þýdsku skilja nú ecki nema rétt vel lærdir menn í þeim túngum 400). Þó eg nú ecki neiti, ad í daglegt tal og skyndi-rit, lædist opt inn blendin ord eda talshættir hjá sumum, veitir þó mørgum allhægt, ad bjóda mál mitt hreint og vítalaust fram; því þó talshættir og ritgjørdir fái nú allopt nockud frábrugdnara form, leidir þad edlilega af

Kk 5 marg-

400) Sjá Uno von Troils Bref, rørande en Resa til Island 1772. Upsal. 1777. bls. 177-79, hvar hann telur íslendska málid enn þá hreint, og sama, sem talad var á 9du Øld í Svíþjód, Danmørk og Norvegi, og færir til eida Karlamagnúsar sona 806, og fólksins til þeirra á frønsku og þýdsku, til merkis um ólíka breytíngu þeirra túngumála.

margra lærdóms-greina og bjargrædis útrétt-inga margbrotnari innleidslu og betri dýrkun med tímanna byltíngum, enn á fornøldum, líkt breytíngu ens eldra danska túngumáls, til þess núverandi snylldar hjá Dønum. Veit eg ad sønnu nockra sérlundada, einkum þá, sem elska helst þad fráleita og forneskju, telja málfæri mínu alltaf fara hnignandi; kannast og vid skarpviturt snylli-qvædi þarum orkt[401]), enn prísa framar í því Skáldsins diktunar-gáfu, enn ad eg taki þar Skálda-Skjur fyrir full-vissa fráségu; þó hygg eg, ad beggja Skál-holts Biskupa, Jóns Vídalíns og Hannes-ar Finnssonar rit, med mørgum annara, ad eg ecki nefni til neina enn lifandi menn, dæm-ist

[401]) Sjá Eggerts Olafssonar Qvædi um Sótt og dauda Íslendskunnar.

ist af øllum rèttſhnum fullrètt ad málfæri, en gódum mun adgengilegri og ſnyllilegri, enn ó- vidfeldid forurðda - ħnod jafnvel í ſundurlauſri rædu, og figúru-klaſtur nockurra uhbærínga vid eptiropun forns qvedſkapar myrkvidris, fram úr hvørju ad eins verdi ratad med þýngſtu heilabrotum, laungum forufræda-leſtrum og á ſtundum ſpáſagnar-andans drauma vitrunum; veitir þeim þó ervidt ad troda þeirra þraunga hatti á allra høfud, er allar mætur hafa á eintómu myrkvidri í ordum, hvør þeir munu vilja ad feiti á ſtundum þánka-megurd í ſkáld- ſkap jafnt og ſundurlauſri rædu, en finna eck- ert ſvo andſtyggilegt, ſem ad ſkiljaſt af almenn- íngi [402]). Vik

402) Þeſſir óttaſt eg reidi ſig á Rahbeks ſannmæli í danſke Tilſkuer 1793 blſ. 344:

Saa

Vík eg þanninn til Lærdóms-Félag-anna, er eg fyrst tel mig eignast hafa í þinni tíd, mín Framlídna!

Þat

Saa mangen en Taabe fik Navnet af Stor,
Der praled' med tomme velklingende Ord.
Saa mangen en Digter fik udmærket Rang
Skjøndt faa eller ingen forstod hvad han sang;

en þar á mót allopt gleymi-höfud atridinu í Horatii skáldskapar kröfu, er hann segir:

— — — *Neqve enim concludere versum*
*Dixeris esse satis*, &c.

hvörju Forspracki allra Skálda hjer á 18du Öld, Eggert Olafsson, hefir þanninn snúid:

Þú skalt ei kalla Skáld þann hvern sem Vísu
Gjörir, edur eins og v.xr,
Yrkir sljettu tali nær.

Held-

Það fyrsta Lærdóms-félag mitt, er eg veit að tilnefna, varð til hjá mér hérum 1760, og nefndi sig það Ofhnilega Félag. Þess á-form og tilgángur var: að frama lærdóm yfir höfuð með sameiginlegum kreptum, en einkum mína egin sögu, og Norðurlandanna forn-fræða útgáfur. Það valdi fyrst af öllu til þess Speculum regale eður Kóngs Skugg-sjó, hvörja Rector á Hólum Mag. Hálfdán Einarsson tókst á hendur að útgéfa á døn-sku og látínu. Jústits-ráð Schönning hafði lengi að undanförnu haft sama í ráði og mik-ið til þess verks unnið, og í annann stað Bisk-up Dr. Hannes Finnsson skrifagi og þar til varið

Heldur heim, sem, hvaß að skyni, ræður
Guddóms hyggju og háleiks safn
Hljómar, gjefðu þetta Nafn.

varid laungu og mædusömu erfidi, sem var komid vel á veg, þegar í deunskum Tidindum 1764, var bodud væntanleg útgáfa fennu bókar frá Hálfdánar hendi. Bádir hinir hættu þar med, og vóru svo ærusamir, ad styrkja til þeirrar fullkomnunar hennar ecki alltid, med egin unnum störfum og upplýsingum, sem hún leks algjørlega ødladist vid Jóns Eiríkssonar umbót og vidauka[403]). Hvenær þetta Lærdóms Félag eginlega var stiptad, og af hverjum, eda nær þad med öllu undir lok leid, veit eg ecki med vissu, þó tel eg þess tilveru ecki lengri, enn frá 1760 — 1770; grunar, ad Mag. Hálfdán Einarsson hafi verid þess fyrsti hofundur; veit, ad Sýslumadur Bjarni Halldórs

[403]) Siá J. Erichsens Forberedelse til Speculum regale 1768 bls. XXVII.





brœson var einn í því félagi, en ad ødru leiti ecki annad um þess ydnir, enn hér er tilnefnt um Kóngs-Skuggsjó.

Annad Lærdóms-félag og miklu merkilegra, stiptudu stúdérandi synir minir vid Kaupmannahafnar Háskóla, þann 30ta Aug. 1779, undir nafninu: Islendskt Lærdómslista Félag, og undir Forstødu Conference-ráds Jóns Eiríkssonar, allt til hans dauda, þann 29da Mart. 1787, en sídan míns fyrrum Stiptamtmanns Lárusar Andréssar Thódals. Í allsháttar vísindum og nockrum handydnum útgaf þetta Félag 14 Bindi merkilegra Ritgjørda sinna, optast 1 á ári til 1793, en frá 1796, edur nú þegar í 10 ár, eckért; ánægt á medan med þángad til unnin Lárvidarkrans. Þann 22ann Júní 1787, gaf Kóng-

únguɾ minn því leyſi, að nefnaſt hið Konúng-lega Lærdómsliſta Félag.

Mitt þriðja Lærdóms-félag er hið Konúnglega íslendſka Lands-uppfræðingar Félag. Hólanóphilus heſir á undan mér líklega ſannaſt lýſt þeſs fyrſta og eginlega Höfundi[404]), en áſamt honum urðu þeſs Meðſtiptarar þann 19da Júlí 1794, Stiptamtmaður minn Olafur Stephánsſon, ſem valinn var þeſs Forſeti, Biſkup Dr. Hannes Finnsſon, Amtmaður Stephán Þórarinsſon, nú verandi Aſseſſor Stephán Stephenſen, Stipt-próſaſtur, Markús Magnúsſon og þáverandi egandi Leirárgarða Prentverks Björn Gottſkálksſon. Margir gjörðuſt þeſs Félagar

404) Sjá hans bréf í Minnisverð. Tíðinda I. B. blſ. 322-23.

ar í fyrstu, uns hallærin á ný dundu yfir, og gripafellir áminnti sérhvern að verja fyrstu og fremstri áhyggju fyrir útvegun daglegs brauðs. Þess útgéfnu rit til þessa, framtelja Minnisverð Tíðindi I. og II. Bindi, og III. B. 1ta Deild. Sjálf Tíðindin, lengst af skráð af Magnúsi Stephensen, og með honum framhaldin af Bróður hans Assessóri Stepháni Stephensen, og þeim gáfaða únga manni, Stúdíoso Finni Magnússyni, byrjuð af þeim fyrsta á mína túngu, frá Nýári 1795, ecki einúngis yfir minnisverðustu tilburði hjá mér, heldur hvar tilfréttst hefir um heiminn, á hverju ári, mættu vyrðast ecki ófróðlegur lestur sonum mínum og dætrum, og mörgum þeirra minníngar-auki; þar hjá stuðníngur til Aleggvari Eptirmæla Systur þinnar, með



sama

sama formi og framhaldi, hvörra hjálpar-med-ala eg nú svo sárlega má sakna um þína tíd, minn Framlidna! enn þótt nockur Annála-brot, ecki sem fullkomnust eda sum fulláreidanleg um hana finnist samin, en í fárra höndum[401]).

Fé-

[401]) Til þinna tída Annála tel eg helst:
Hests-annál, Benedicts Prests Peturssonar frá 1664-1724 siá bls. 432, hvörjum merkilega Annál, Stiptprófastur Jón Haldórsson framhielt til 1734. Hann giordi og ágætt ágrip af Lögréttumanns Odds Eiríkssonar á Fytjum laungu, en midur vöndudu Annálum, frá 1643-1719, embætti þá og lagfærdi vídast; hier nefni eg þó ecki þessa lærda manns nafnkiendu Rit: Hirdstjóra, Biskupa, Lögmanna, Fógeta, Lögþingis-skrifara, Rectóra og Skálholts Presta-æfum vidvikjandi, sem má svo skammt á þína tíd.

Haldó-



legt[450]); þó tel eg þá åkéfð mér enn skadlegri verid hafa, med hvörri hann, 1705 og 1706, fram-

[450]) T. d. 1703, ad Hreppstjórar í hvörjum hrepp haldi Examen, eda ransókn um og straffi húsaga og uppeldi; ad gjört se vid giptíngum latra, fá-tækra og adstodarlausra; ad fyrirbodid se allt Qvenn-sylfur hjá fátækum, og ad gefa festar-meyum sinum sylfurbellti; ad hardlega sektist innbyrdis vid-skipti Innbúa og sala á landaurum yfir taxtaverd. 1704. gyllir hann og telur sæslega í Compag-nie-kauphöndlun, sem besta; vill fá Handverks-fólk hingad hellst frá Hollandi. Segir ógjörlegt ad fjölga peningi í fiskihafna-hjerudum, nema vid Búdir, Styckishólm og Reykjavík; ad á Akur-yrkju se hjer ecki ad hugsa, af þvi eg se umflotin Ey-kona, en hafid orsaki kulda, sem med frosti, snjó, stormum og ódvedri fari í vöxt ár hvört, svo ecki se hjer hlýtt, nema í 6 vikur. Ad eg hafi ecki efni til

ad

framfylgdi Compagnie-kauphøndlun hjá mér, og forbodi mót allri innanlands kauphøndlun, mót hvørju Arni minn Magnússon skøruglega skrifadi, og band sig til ad sanna løglega fyrir Kóngi, ad Müller hefdi ólöglega haldid



ad eignast stærri skip, meiri veidarfæri, enn eg hafi, edar meira vidur-væri. Ad minn fiskur kunni vel ad seljast eins dýrt í Midjardarhafinu og hinn frá Terraneuve, en þó ofmikid vogad ad flytja hann svo lángt, hvada ábati, sem gefast kynni. Ad Fiskiduggna útgjørd frá hvørjum Fjórdúngi banni bág ár. og fátækt. Ad Hvala-veidi se hægri frá mjer undir Grænlandi, hvadan eg liggi einar 40 mílur, þó geti Franskir og Enskir komist þángad fyrr á vorum, enn skip hjer komist út fyrir Vor-ísum, því Heidemann hafi sagt honum, ad alla firdi leggi nema Straumfjørd. Ad hann ecki sjái gagn neitt ad Póstskipi hjer á milli, og ad Landpóstur se ómøgulegur vegna snjóa, storma og óvedra.

med Hendlunar-forpoktunrum, en undirokad almúgann. Þessu reiddist Müller, og qvartadi þann 4da Maji 1706 yfir varandi þverúd bænda vid Commissión þeirra Árna og Páls, svo naumlega faist hestar til fríflutnings á þíng, en — Árni Magnússon vitnadi þann 16da Sept. s. á. í þessu tilliti, ad einkanlega Amtmadur Müller misbrúkadi opt þenna fríflutníng, færi oflángt, svosem nockrar dagserdir med hesta fólks, héldi þeim lengi á sumrum, skiladi sumum laungu seinna, en sumum aldrei, og árid 1701 hafi hann krafid, ad Bændur feitt legdu sér til 96 hesta, sem allt gjerdi þá trega.

Þad er annars íhúgaverdt, sem Rentukammerid þann 15da Febr. 1702, þegar þad kadi Laurusar Gottrups fyrrnefndu (í 288 kirkngar-gr.) merkilegu Supplicátsíu fram fyrir Kóng,

Kóng, telur til orsaka um mín miklu bágindi um þau ár, hvörra gagnstædu náttúrlegu orsakir opinberlega má þó lesa[451]), þetta: 1.) Guds reidi og straff. 2.) Jardeigenda hardhdgi 3) Landprang og heima kaup. 4.) Yfirvalda gálausu Réttar medferd og 5.) ad ætld yrdi ad trúa því, sem sterkasti partúrinn frá Landinu framfærdi. Um 1ta póstinu innlæt eg geistlegum eptir ad dæma; 2ann póstinn held eg erfidt undir og eptir komu þína med rökum ad sanna til nockurra muna, en heldur má hann samtengja 4da póstinum med umbreytingu þeirri, ad Yfirvøld og Kauphøndlendur einir þá undirokudu alla, drápu opt alla dád og frelsi hjá sonum mínum og

Yy 5 reyndu

451) J Dr. H. Finnssonar Riti, um Mannfæckun af Hallærum, bls. 98-103.

reyrdu þeirra bjargrædis=vegu þrældóms-fjøtr-um. Auk nýstárlegu dæmanna í Müllers tíd (sjá bls. 595—600), læt eg hér nægja ad nefna til eitt frá árinu 1681. Þá var hér Jóhann Klein, Fógeti Bjelkes, en Laurus Gottrup, embættislaus, Umbodsmadur hans, sem gjørdi út sendimann og óskadi fyrir hann frí-flutnings hjá Asbyrni bónda Jóchumssyni yfir um fjørd; bóndi þeckti þad ecki skyldu-verk fyrir eckért, en vard hér um klagadur fyri Sigurdi Løgmanni Björnssyni, sem dæmdi honum og lét tvisvar hér fyrir á hann leggja svo alvarleg-ar húdláts refsingar, ad hann vid hverja þeirra leid í ómeginn[452]). Forpaktarar af Kóngs-gjøldum og Kaupþendluninni fengu 1691 med Rentukammer=leyfi útþryckilega innleidd Mans-lán

[452]) Sjá Kóngsbr. af 13da Maji 1797.

lán á Forléníngar; þeir máttu alls útgjöra 15 Kóngsins medteknu Fiski-skip, og á þau kalla Kóngs-landseta til ródurs, en — auk þeirra útgjördu þeir 80 til 100 skip, enn þá 1706, og tóku á þau flestalla, er sió sóktu í Gull-bríngu-sýslu, jafnvel úr ödrum hérudum, en bænda og annara innbúa skip fúnudu mannlaus upp í landi, hvad Arni Magnússon þ. 27. Apr. 1706 skrifaðt klagar fyrir Kóngi. Þok fylltust og nálægar veidistødur upp med latt og útsjúgandi ydjulaust þurrabúda-fólk, þenna krabba í minni, og sjóplátsa minna velmegun. Í 3ja pósts tilliti minnist eg á, ad svo höfdu þeir og Amtmadur Müller reynt ad drepa nidur innvortis-hræríngu og atorkusemi í nærings-ar útvegum, ad sonum mínum leysdist, ecki ad skiptast vid sín á milli um innbyrdis naudsyn-

jar

jar, ecki fátækum ad leita sér adstodar hjá þeim efnugri, því øll sala, hjálp og lán, eins á naudsynlegasta bjargrædi eda ødru í lífs naudsyn, hét Landpráng og heima-kaup, sem þessi póstur telur olla bágindum mínum. Já, Kaupmenn rígbundu svo alla verdslunar- og bjargar-útvegi, ad landsetar máttu ecki færa varnings afgjeld sín húsbændum í nærsta héradi, heldur kúgudust til ad selja þau Kaupmanni í því sama. Løgmadur Gottrup sigldi med Frú og fólk í mínar opinberu þarfir og med Kóngsleyfi 1701, en frá annari enn síns Kaupstadar-høfn, og fèck því med naudúng ad kaupa sér veganesti í því plátsi. Í 4da pósts tilliti, minnist eg loksins á: ad Løgmenn og Sýslumenn skáru úr málum og felldu dóma, sjaldnast eptir nockrum Løgum, heldur án røksemda løgdu

þá

þá sekt eda þann Urskurd á, sem Løggjafarar, er þeim sjálfum eptir egin hugþótta og hjartalagi gedjadist. Sú var og á stundum reglan í þinni fyrstu edur Fullmektuganna tíd, sem leyfdu sér med røksemdalausum sjálfteknum myndugleika, med djørfum úrskurdum ad fella gengna Dóma, jafnvel Synódalréttar Dóma úr gyldi. Og hvørr fær alla þá óhæfu, øll þau óløg talid, er Fullmektugir optar enn sjaldnar hafa sér heimildar-lítid leyft, af drambi edur til ad tyldra sér fram og sitja á hvørs manns hálsi! þeir hafa um tíma ridid uppi, sem ólgandi bodar, en sá mundi til mín og þeirra, sem á hentugum tíma sagdi einninn vid þá: Hingad, en ecki lengra! Í þessu tilliti læt eg nægja ad vísa til Odds Sigurdssonar og Beyers markverdu Æfisaga, þess fyrra, sem Fullmektugs þess



þess mikla og góða Stiptamtmanns Gyldenlöwes. en þessa, sem Fullmektugs Amtmanns Müllers[453]). Nockrum með átyllulitlum úrskurðum, en nockrum ásamt Commissariis Arna og Páli með miskynntum Dómum, steyptu þeir saklitlum frá embættum, að eg ecki nefni hér Eru-dóma. En—Hæsti-réttur dæmdi optastnær allt þetta ómerkt, og þeim afslagabornu allt aptur, á stundum með 300 til 400ordla útlátum af þeim Fullmektugu og Dómendunum. Amtmaður Müller sókti, svo að segja, ásamt Landfógeta Heidemanni, það bls. 597 nefnda mál á móti Biskupi Mag. Jóni Vigfúsyni, og ferðaðist því í 2 sumur norður 1688—89, en dæmdi sjálfur í því á eptir 1690, Jón Vigfússon dauðann, í 1100ordla bætur og 600ordla máls-

453) Skrásettir af Stiptprófasti Jóni Halldórssyni.

málskostnad til Heidemanns, hafdi og, ádur enn dómur geck lagt Arrest edur kyrrsetningu á Hóla Biskupsstóls Inntekt, en 1693 dæmdi Hæsti-réttur allt þetta og kyrrsetuinguna marklaust, og ad fyrr: Dómurinn ecki skyldi honum eda erfingjum til nockurs vansa eda útláta koma, ad undanteknum hérum 100rdlm. í málskostnad[454]). Oddur Sigurdsson vard svo svæsinn Fullmektugur, ad hann slaug á og bardi Biskupinn Mag. Jón Vidalín í Visitatiuferd hans 1713, svo hann um nótt vard ad flýja af bænum[455]), ætladi og ad gjøra sama vid Pál Løgmann Vidalín 1714 hefdi ecki Arni Magnússon þá skilid þá. Þanninn geck

mín

[454]) Sjá sømu Æfisøgur, Kóngsbr. þ. 14da Apr. 1694 og F. Joh. Hist. Eccl. Isl. T. III. p. 734, 36.
[455]) Sjá sømu rit.

mín innvortis stjórn fyrst í þinni tíd, mín Framlidna! ruglud, ærst og óvyrdt opt um þær mundir vid ofmikinn smeck af elfaungum! Sýslur vóru léntar, ecki þeim verdugasta, þeim duglegasta, sem baudst, heldur þeim, er mest til þeirra gaf, opt vid Auctión, í festu, eda þeim, sem í Ráð stód um sinn, hjá Amtmanni, Landfógeta, eda þeim Fullmektugu, þó íllfær væri til embætta. Þó var eckert, sem svo gjer-spillti minni innvortis-stjórn, sem flocka-drættir og sífelld sundurþyckja milli embættismanna fyrst um þína tíd og lengst af; Arni Magnússon bregdur Amtmanni Müller 1706 um óvild til Biskups Jóns Vídalíns, vegna þess hann sagdi ecki strax já og Amen, til sérhvers, sem hann uppástack; en — Arni Magnússon sjálfur átti sífelldt í deilum og málavastri um sína Com-

Commissións veru hér, enn þótt sér til litilla heilla, (sjá blſ. 240, 454 og 606); en — þeim eginlegu Commissións verkum midadi seint málastappsins vegna, svo 1708 rak Kóngur hardt eptir Arna ad koma því af. Rentukammerid þó enn hardara og beiskara 1710 og 1712; seinast þann 22ann Júlí s. á., brixlar þad Commissariis þúnglega um ad þeir veki misklidir og þeim alls óvidkomandi óþarfa málastapp, vígli Réttina, espi hvorn á móti ödrum, og vilji hafa hendur í hvörs manns hári, hvörs vegna þad strax kallar Arna Magnússon heim hédan og til reiknings fyrir sín Commissións verk, fyrir hvör alls engin skil vóru þó gjörd lengi þar eptir, eda fyrr enn eptir Arna dauda, vegna óvildar Rentukammers og hans á milli. Þad krafdi árlega nýju Jardabókina, en hún fékkst ecki, fyrr

enn úr sterfbúi hans, þó ófullbúin, 1730. Yfir þessum sífeldu flocka-dráttum og sundur-þyckju qvartar sá gódi Stiptamtmadur Gyldenlöwe þúnglega 1716, og segir þeir leidi af sér mína eydileggíngu: málavastur og orrahrídir hluti mig í sundur; fyrir nordan haldi Biskup Steinn, Løgmadur Páll Vídalín og þeirra áhángendur flock sér, en fyrir sunnan Fullmektugarnir Oddur og Beyer og þeirra fylgjarar, og allt sé í uppnámi; rædur því ad senda Fúhrmann híngad, þar Müller sé ervasa. Hann kom og híngad, breytti rádvandlega og fridsamlega vid mig og mína, sem fyrr segir í 319 skíríngar-grein, fékk mesta óróann sefad, og sama má segja um flesta hans Eptirmenn, ecki síst minn rádsetta og réttsýna Stiptamtmann Thódal, enn þótt undirferula og øfundsjúka, einkum medal egin

sona

koma minna, því midur! sjaldan vantad hafi, sem løgdu alúd á, seint og snemma, hiá hinum ad bakbíta og med ósønnum óhródri ad nída forþéntustu og bestu menn, til þess ad klra þá, eda steypa þeim sér úr vegi, hvar uppá ofmørg virdíngarlaus dæmi finnast fyrr og sídar. Hafa því lengst af flockadrættir vidhaldist, og þad vyrdist, sem ýmsir embættismenn hafi valid sér fyrir reglu, aldrei ad verda á eitt med ødrum sáttir, aldrei ad finna neitt nýtilegt í annara eda þeirra formanna gjørdum eda meiningum, heldur brjóta út med nýjar, opt undarlegri og almennings gagni engu þénanlegri, líklega í því skini, med ólíkri adferd ad fá ókunnugri, einkum almúga, leidt til ad eigna þeim vitsmuna og dugnadar yfirburdi, og þarvid koma hinum í rírd; en — med þessu



hefir þó einn, til óhamíngju, rifið það ofan, sem annar með mædu hafði byggt, í staðinn fyrir að byggja við og umbæta; nærstum eckért uppástúngið gagnlegt verk hefir því, vegna øsundar, sundurþyckju og flockadrátta, gétað komist í stánd[456]), og stundum af ókunnugum, sem ecki ætludu nema skamma stund við mig að búa, vegna þessa og ókunnugleika um minn hef-

[456]) Þegar á sinni tíd dreckur minn frægi Eggert Ólafsson Øfund hjá mjer þanninn til, í sínu merkilega Qvædi, Øfundar-elta, nefndu:

Vorrar þjódar það ólán er,
Að ætíð stormur kom úr þjer,
Móti þaunkum þeirra;
Svo ávallt veslist Ísaland,
En aldrei komist neitt í stand,
Heldur hrørni meira.

høfud-næríngar-veg, landyrkju og almúga bún-
adar-háttu, sumt midur gagnlegt verid uppá-
stúngid. Uppá allt þetta er þín Æfisaga, mín
Framlidna! ofvída blettud af sorglegum dæmum.

5ti Póstúrinn (bls. 601) hefir því mid-
ur! lengi verid sannmæli; þad er ecki hid minnsta
af mínu mótlæti. Stórlega villast þó menn,
sem halda kunnu, ad einúngis hjá fáum mønn-
um í embættum, ellegar í einu vissu standi, sé
lærdóm, reynslu, dugnad, fødurlands-ást eda trú-
festi vid leg og lýd ad finna. En — hvørjir
teiknast í framanskrifudu, sterkasti parturinn
frá landinu?

Vafalaust hygg eg þad verid hafa Amt-
mennina af embættis-mønnum, og þeirra flocks
áhángendur í hvert sinn, en — nærst þessum
Kauphøndlendur allt til fríhøndlunar tídanna,



ef eg ecki á ad halda þá gæta ått þetta nafn, jafnvel framundir útför þina. Þá þóktust þó nockrir gefa markverdar skirslur og åreidanlegar, en tidin hefir sidan upplyst einhvorra marklausa grundvell, hefir auglyst hulda hrecki. Einhvorjum var annars i fyrri tidum og eptir komu þina, einkum i Forpaktaranna og Compagnianna tid tamt ordid, ad álita sjálfa sig, ecki sem undirgéfna, heldur yfirbodna, ecki ad vyrda Yfirvøld, heldur setja sig ad nockru leiti i þeirra stad, þvi seldu nockrir mága út, þegar eitthvad þókti djarft i rádist og sęgdu: hélldur þú, ad þú sért Kóngurinn eda Kaupmadurinn, en Yfirvalda gjætti þá eckért. Orsøkin synist verid hafa: Syslumenn, sem vóru Yfirvøld á hvorjum stad, vóru þá sumir litt-lærdir, sumir breiskir, margir fátækir, og urdu ad

bygg-

þyggja á stundum vedsetníngu (Cautión) hjá Kaupmønnum fyrir Sýslu-afgjaldid, en allir fyrst í þinni tíd ad greida þeim afgjøldin, stódu líka margir í skuldum til þeirra, fyrir hverjar og Cautiónina þeir neyddust til ad láta allt liggja í Kauphøndlenda skauti, annars var øll þeirra vyrding og tímanleg velferd, og þeirra einasta uppheldi, enn þótt sár-møgur braud væru, í Kaupmanna valdi. Þadan má útleida Yfirvalda dádleysi, afskiptaleysi opt í málum, sem þeir vóru vidridnir, og þá litlu vyrdíngu, litlu tiltrú og þad litla lof, undir hverju þetta embættis-stand, sem annars á øllum tídum, ecki síst þinum seinni árum, hefir framleidt marga upplýsta, góda og dugandis menn, þó hefir, eptir einstøkum fáum dæmum, mátt lengi saklítid lída. Amtmennirnir blésu og hellst oftlengi

trúlega ad sømu kolum, med því ad nída þeirra gjerdir erlendis, og vid almúgann med audvyrdandi snuprunum, med afsetníngar- og fjárbóta- uppreiddu ógnunum vid mørg tæki- færi; med óhÿtlingu margra þeirra embættis- verka, opt í Lagaleysi, eptir rógi og óvissri á- kjæru einhvørra hlutadegenda, án þess ad heyra grant hinna eda annara hlutadegenda ástædur, allt til ad auka sér nafn, en hinum rírd hjá alþÿdu, og þeir vóru lengst af, sterkasti part- urinn frá landinu, sem 5ti póstur telur: ad ætíd hafi ordid ad trúa. Þeir tileinkudu sér lengi einka sannsøgli, sérlegt skynbragd hinum fremur, og hvad meira er, einka-rétt til ad þenkja og uppá-stínga sérhvad gagnlegt, eda ad mín- um naudsÿnjum lútandi. Dæmid er ljóst á Mül- ler med Gottrups undir hans dóm opinber- lega

lega framlegdu, en undir stól stúngnu Súpplícatsiu mín vegna (sjá 288 skírkugar-gr.). Þó er og verdur mér þad alla tíd óskiljanlegt, ad enginn megi eda orki ad útþenkja og frambera eitthvad til almennings-nota, sé hann ecki stimpladur med Yfir-embætta nafnbótum; og ecki er þad vilji minnar núverandi mildu og vitru ríkisstjórnar, sem gjarnan heyrir viturra manna rád, umdæmi og rekſemdir um sérhvad á allar sídur; og sem í þessum landsfødurlega tilgángi, leysti prent-pressunnar-fjøtra fyrir alla, er vilja brúka þau landi og lýdum til heidurs eda heilla.

Í hverjutveggja tilliti tel eg ad mín innvort's stjórn hafi ecki hvad minnstum framførum tekid, undir eins og betri þecking á og prófadur lærdómur í Løgum, betri og ytarlegri løg-gjøf og med henni fyrirbygdir hreckir og á-

ſælni, og med vaxanda aldri þínum, miſdadri og ſidadri þenkingar-háttnr manna, hafa géfid henni þá uſ́verandi miklu yfirburdi yfir ſyſtur þínar eldri og ſjálft úngdæmi þitt. Þó er hennar áſtand enn þá hvørgi nærri gott á medan ecki allt, ſem enn kann eptir ad elda af fyrrgreindum breſtum, ecki lagaſt; á medan Sýſlumadurinn, ſem Fógeti, má ſkélfaſt vid ad láta hegna ſérhverju íllvyrki, er í fángahalds og annann umſvifa koſtnad, ſviptir hann gjørvøllum embættis launum; máſké fyrir heilt ár; á medan hann ſjálfur opt er og Dómari um ſérhverja ágengni, eda órétt í tekjum, úrſkurdum og ymſum embættis-verkum, er hann grunaſt kynni um; á medan nockrir þeirra, likt Preſta minna fjølda, hafa ſvo ſár-litid vid ad lifa (en þó ymislegann ſtór-koſtnad), ad þeir, til ad framſleyta lífi

ſinu

sinu og sjølfkyldu sinnar, neydast til ad hafa embættis-verkin fyrir hjáverk, bleypa sem flestum hjá, en fara sem fljótlegast yfir nockur, til ad verja egin erfidi og umhyggju til Bóndavinnu og útdráttarsams búskapar, sem einka úrrædi ad finna einhvorja, optar vesæla, forsorgun vid[457]).

Uppá spurníngunа: er sidgjædi aukid hjá mér? mun eg og ega ad svara, já! ad minnsta kosti

[457]) Hjer datt mjer í hug, hvad Schytte segir um Spekinginn Aristippus í Staternes indvort. Regjer., T. 4. bls. 505. Hann átti ad kjenna heimsspeki syni efna-manns, en honum þókti Aristippus setja of-mikid kjennslu kaup uppá, nefnil. nálægt 50 rdlr, og sagdi: fyrir svo mikid get eg keypt mjer Þræl. Þad er og satt, svaradi Spekíngurinn, heldur tvo enn einn fyrir sama verd, bædi son þinn og þann, sem þú kaupir.

kosti hafa sidir sona minna feugid annad form, nýtt uppbrot eins eg Gellerts Hattur[458]). Þad búralegasta úr þeim hjá mørgum hafa margfaldadir titlar og bukt gjørt þegar útlægt[459]). Síni módurinn spennir árum saman æ fleiri fyrir sinn léttfæra plóg. Hann hefir ollad mér ólystar á mørgu því, er børnum mínum þókti ádur fullgott, af því þad var minn eginn ávøxtur, en fært mér framandi rétti, hvørra eg ádur ad miklu leiti gat án verid og bjargast vid mitt litla, fært mér margfaldt meira af mjøli og korni, margvíslegg grjón, allrahanda brand til sælgætis, sykur, fíkjur og margvísleg sætindi. Nú nægist mér ecki lengur góð gømul hressing af øli, mjød, víns og brennuvíns tári, því heldri manna

[458]) Sjá Gamans og Alvøru I. Hefti bls. 85.
[459]) Sjá sømu bók um Titla og Compliment.

manna bord verda víða að fljóta í Rommi, dýrmætum vínum og þeim ljúffengu dryckjum, Púnsi og Biskupi. Varla hefði eg trúað því við fæðingu þína, mín Framlidna! að þú undir skilnað ockar létir löndin Madera, Malaga, Champagne og Bourgogne veita þeirra dýrmætu vín-straumum inn á strandir mínar, jafnvel allt að bordum Bænda minna. Thee veittu hefdingjar mínir að eins til hátíða-brygdis allt að hálfnaðri veru þinni; Kaffe varð hér um þær mundir, svo að segja, fyrst þeckt að smeck, nú þambar það og Púnsið með ótæpt hvørr húsgángurinn í kapp við meiri menn, en skammast sín við Thee og skuldar uppá flestallt af þessu, jafnt hellsta bjargræði[460]).

En —

[460]) Af þessu má ráða hvørsu kostulega mjer í þessu tilliti hafi farið fram um seinni ár þín, síðan Egg-



En — þó mínum af Fína mødnum svona uppskúrúdu sjáfar-strøndum, ecki minnst vid hafnirnar og minn Høfudstad, þyki vanvyrda ad uppsveitanna rusta hætti, sem lítid enn þeckir á móti þinum til þessara sídbóta, heldur bjargast í mørgu vid gamlann einfáldlegleika í mat og fatnadi, er framantalid, ecki heldur allt, er þinar hafa ad hrósa sér af fram yfir þessar; nei, konstin ad gjøra enda á þeirri leidinlegu tíd, ad gjøra nætur bjartar sem daga og daga dymma sem nætur, ad strída med alebli vid 4 upp-
ert minn Olafsson í Qvædinu Island saung:

Hjálpudust ecki ádur, ellstu børnin mín?
Síst þau smacka nádu, Sykur, Brennuvín,
Ecki Tóbak eda Thee.
Vitlaus auldin verdur nú,
Nema vøkvud á því se.

uppmákud Kónga-veldi, ad sigra og inntaka og til herfángs ad gjörtæma dala-þýngur þeirra yfirunnu, og það med pólskum, frönskum, engelskum strids-brøgdum, það er nú mentin meiri og meistara stycki Fína módsins, sem smám-saman dreifist svo út medal sona minna, ad eg vid útfør nýfæddrar systur þinnar vona og ad gêta skammlitid raulad undir med Rahbek þar um[461]). Ahyggjusamlega læt eg mér einn-inn annt um í klædnadi, búníngi og ad svo miklu leiti, sem ég mest orka, í búsýlutum og háttalagi ad gjøra sjálfum þeim nýjasta franska mód, enga stór-minkun; því képpist eg vid ad apa náqvæmlega eptir øllu í þessu tilliti, sem eg ár-lega

[461]) Den Gud, hvis Alter alle stimli til,
Hvor de opoffre Velfærd, Liv og alt er — Spil.
I Danske Tilskuer 1793.



lega ſæ uppgøtvad, ad tídkanlegt ſé í ødrum ſtór-ſtødum, einkum ſjálfri Kóngsborginni. Mér þykir ecki mínkunin lítil ad hafa enn ſem ádur, vída unnid ſøt barna minna ſjálf, átt efnid í þau og litinn ſjálf til, en þó ſára óglorlegann á minn einfalda vefnad og á mitt prjón. Eng-inn er þó ſvo blindur ad ecki ſjái, hvørſu ſtór-um, ad dætrum mínum fari fram, er þær ſteypa ſér úr vodmáls- og einſkéftu-pilſinu, ſem í meſta lagi koſtar velvandad 4rdli, og birtaſt í alla-vega litu aptur úr ſínu klædi, díjrindis dúkum eda ſilki, marg-borda- og frunſu-lagdu á 16, 20 já 30rdli; ellegar pilltum mínum vid ſín-ar Treyjur og magalauſa Kjóla, eptir því allra-nýjaſta franſka klæda-ſnidi, í ſtadinn fyrir prjóna-peiſur, ſand-ſvartar belg-hempur, eda einfaldar ſortadar vodmáls-muſſur. Kaupmadurinn einn

held-

heldur máské af reikníngum sona minna í árslok hvør, ad lítid hafi hagur þeirra rífkast vid þetta, en hann þegir þó um þad sem steinn, medan hann enn hefir óseld klædi, silki, dúka, borda, frunsur, óþrjótandi breytilegustu silki og adra -klúta og ýmislegt af Sína módsins farmi ad vefja þá í og gjøra med ásjálegri. Þessi andmjúka undirgéfni undir módsins einvalds løg, sem fljótt megna ad umminda fásinnu í hyggindi, er mér samt ecki spá-ný, því Hallgrímur Prestur Pétursson, sem deydi 1674, kannast vid hana þegar á sinni tíd[462]). Þetta, sem nú hefi eg talid, er þó eiginlegast útvortis sidgædi snertandi, en, hvad mundi því innra lída? eg



462) Sjá hans Oflátúnga lýsingu í hans 1770 á ný útkomnu andlegu Psálmum og Qvædum, bls. 198-200.



verd fyrst ad nefna til hálfgleymdann pöst, sem eg tel vidkomi bædi þvi ytra og innra, bædi síns og óbreytta módnum, nefnil.: ad tala opt þvert um huga sinn, ad hræsna og smjadra, fladra, bakbíta, nída allt loflegt hjá forþéntari mennum, ad leggja snørur fyrir þá, ad drepa nidur lofsverdum fyrirtækjum, ad dæma illa um allt, nema sjálfann sig, og halda alla adra heimskingja, ad stipta flockadrætti, o! allt er þad meint, ecki med øllu vanrækt um þína tíd, sem ymisleg ad framan talin dæmi sýna, og sem eg snemma í eldri systra þinna tíd hefi gjør-þeckt, hvarum Hallgríms Prests Péturssonar Flærdarsenna og Aldarháttur og Annálar mínir nógu skorinordt vitna 463). Ad bryg̃da sin lofort, ad draga af réttum gjøldum til annara, er og meint, ecki enn úreldt.

463) Sjá sama Qvæda-safn.

eldt, Ófridhelgi eigna, saudfjár og veidarfæra, þjófnadur á morgu, sem hønd má áfesta, leti og ómennsko, lausa=mennsko og okur=prång, undirgéfinna þverúd og órádvendni, allt umqvartad sárlega á øllum tídum, einkum í hallærum[464]), og enn eldúngis óvidrétt eda ólagad, sjest í fullu gengi, því þó góð Húsaga=tilskipan af 3ja Júní 1746 útkjæmi, er henni hvergi framfylgt í neinu, og sá er ódara hjúa=laus, sem fer því fram. Einhvørr minn daglegasti og besti Biskup Dr. Hannes Finnsson hefir og opinberlega synt, ad fáir

Rr 2 í fjar=

[464]) Sjá Admiral Rabens fyrirskipun í þessu tilliti þann 10da Júlí 1720. í F Joh. Hist. Eccl. Isl. T. III. p. 523. og Vidalins Deo, Regi, Patriæ, p. 53-64. Dr. H. Finnsson um Mannfæckun af Hallærum, bls. 102, 177 skiringargr. og 8da póst af Commissións Instruxi Arna og Páls, þann 22ann Maí 1702.

 

' fjarlægd finni sig haldna vid, ad henda dóm yfir þrá-kálfum og órádvendum, sé ecki því meira í húfi, til þess med stórkostnadi ad koma þeim í mitt Tukthús[465]), enda þykir þessum sjálfum þad eckért fælu-efni, heldur líkleg rádstafan, sem þanninn opinberlega gjørir ad logum og þeirra hegníngu gis, og fælir jafnvel Yfirvøld frá, mót samvitsku sinni, ad unna skálkum svo heppinna vista-skipta[466]). Þetta, og daglega sannfæríngu, læt eg dúga til andsvars uppá spurníngunna: um sidgjædis framfarir hjá mér í þinni tíd.

Eg vík því strax til gledilegra umtals efnis og andsvars spurníngarinnar: hefir um mitt frelsi og mína bjargrædis-vegi rýmst í þinni tíd? og þacklát svara eg, já, stór-mikid! Frelsinu vid-

vík-

[465]) Sjá hans sama Rit, bls 206 í 321 skíríngargr.

[466]) Sjá hjer ad framan bls. 127.

vîkjandi, tel eg ecki hid minnsta, ad bønd minnar kauphøndlunar losnudu 1786. Adur vóru eigur mínar og børn, svo ad segja nidur reyrd vid fædíngar edur búnadar heimkynni, bundin vid einstek, opt ónáttúrleg hérød; rád yfir egin eignum þeim bønnud, þau siálf lengst af í þessu tilliti hardúdugri yfirdrottnun misjafnra undirokud; ell innbyrdis hræring í bjargrædis-vegum og vidskiptum fiøtrud (siá bls. 602 — 4). Hvorsu hér af ad nockru leiti leiddi Yfirvalda misbrúkada eda dádlitla vald, hefi eg þar sýnt, en — þacka má eg lausnina mildi míns besta Landsfødurs og Konúngs þess VII. Christjáns og hans konúnglega Sonar, ásamt hans heidrudu Rádgjafa óþreytanlegu umhyggju fyrir minni vidreisn. Med Admírali Gyldenlöwe, Greifa O. M. Rantzau, Stiptamtmanni L. A. Thó-

 dal,

dal, Conferentsráði Jóni Eiríkssyni, sem talsmönnum, var mín umsjón heppilega falin í minna hellstu fyrirráðenda hendur erlendis, ecki sîst í Greifa J. G. Moltkes og þó öllum framar Greifa Chr. Reventlows hendur. Kauphöndlunarinnar, bóndans, bjargrædis-veganna fullnadar-lausn og frelsi; Eignar-rétturinn til ábýla, á búendum lagdur í skatt med Biskupsstóla-góssanna þegar framqvæmdu sölu, og annara þá og þá á Kóngs og Kirkna-gótsum væntanlegri; Jafnan-jardar afgjalda eptir gleggvari vyrdingu jardar-nota, og svo margt annad mér til heilla, eru hvert um sig nóg efni í óforgengilega heidursminningu þessa mikla manns hjá mér.

En — í fleiru tilliti hefir mitt Frelsi aukist, mínir bjargrædis útvegir rýmst. Yfirvald mín sthra mér nú framar enn ádur, ecki eptir

eptir egin gódþeckni, egin mislagda lunderni, heldur optar eptir gódum, á Náttúru-rètti og raunsýni grundvølludum løgum; eg er ecki lengur álitin sem hertekid land, sem eptir skaplyndi stjórna megi, eda sem land, á hvørju hefna egi lidins órèttar, ófridar eda manntjóns, heldur sem vina og gódra med-þegna heimkynni, undir sama mildasta Landsfødur; synir mínir eru ecki lengur álitnir sem rèttlitil, ánaudug þý, ecki sem fènadur, vid hvørn ecki sè skyldu- eda sida-vandt í umgengni; mínir embættismenn medhøndlast, varla nú framar, af Yfirbodurum, sem hrakmenni, heldur med sidudum embættismønnum vel sómandi kurteysi og virdíngu Kauphøndlenda forna dramb, forakt og hardhýdgi, er umminnud í vingjarnlegheit, gódvild og ástsemd vid hvørn, sem sama jøfnud synir. Innbyrdis vidskipti og

 bjarg-

bjargrædis útréttíngar med ellu løglegu mótí verndadar, og þar vid margfaldadar, í von um einhvørn ávinníng. Kálgarda-rækt vída útdaud, siest þó sumstadar á nockurn fót komin, Rockar, danskir vefir, ýmislegar handydnir, þorska- og emnur net, Lagvadir fyrir hákalla, Saltfisks-verkan, Ædarvarps betri stundan og margt fleira, hafa vakid allmarga sonu mína og þeirra nærfíngar adburdi af laungum dvala til vongladara lífs, en — hvørt þad má þó þegar í ellu sælla heita eda affarabetra, því fyrra ánandugra, verdur enn skodunar-mál.

Um andlegs frelsis og umburdarlyndis auka í þinni tíd, mín Framlidna! er nockud, enn þó allt minna ad segja, nema ad bannfæríngar og særíngar lidu eldúngis undir lok, af því Kóngur minn svo útþryckilega baud; annars hefdu

hefdu þar víst hjá fjelda manna þókt eins ómissandi og látinu-saungurinn fordum í Grallaranum (sjá 407 skiríngar-grein), ellegar enn þá lélegir Sálmar frá 16du Öld, fyrir adra betri nýja; eins ómissandi og þvagl um djøfullegar útréttíngar hjá oss í mørgum Sálmi, margri andlegri bók og prédikun. Því dyrfist nockurr t. d. í Gaman-vísu ad vekja þá villu: "ad dýr-"um sem mønnum vera kunni annad líf ætlad "eptir þetta," hertýjast strax hópur; í hvørjum nockrir af heilagri vandlætíngu sundurrifa sín klædi, en adrir freyda æ nidgjælum, sjálfum sér og þjód sinni til smánandi minníngar um þeirra egin hrakmennsku, og þanninn er upplýsíngu, sidsemi og lærdóms frelsi, því midur! enn þá varid hjá fjøldanum.

Hefi eg efna=betra ástand grædt? er spurníng, hverri eg lengi hefi efad mig ad játa, og enn efa eg þad. Margfeld prakt, óhóf og eydslusemi hefir innleidt margfaldar þarfir og naudsynjar, margfaldann dýrleika, og uppsvelgt vída allt, nema munadar áhøldin ein. Veit eg, ad margir telja munadar=líf og óhóf almenníngs, sem merki og afleidíngu góds ástands, en lángtum vissari afleidíng módsins yfirdrottnunar eptir útlendra sid, og merki óráds hjá mér, mun þetta reynast. Dæmin og reynslan skulu þad sanna og hafa þegar sannad, ad jafnvel eptir 1 almennt bágt ár, víst eptir 2 í ræd, fellur fjøldi fólks í húngri og bágindum. Hafi einstakur madur peninga nockra grædt í blómlegustu árum, hafa þvílíkir ætíd verid til hjá mér, og miklu meiri efna=menn, enn nú medal

for=

forstands manna, en þeirra tala þó sára þunn, mót blá-magra fjøldans. Minar vorur mega þó kallast ad mestu stignar í verdi mót útlendum, svo jefnudur fengist og audlegd af auknum, mikillega auknum bjargrædis-útvegum. En — hvar er þá orsøkin? mørg ad minni hyggju; þá mestu tel eg almennt vaxandi óráð í búskapar breytingum, í kauphøndlun, og í uppheldi manna.

Óráð í búnadar-háttum tel eg: ad synir mínir hafa svo umbreytt allvída búskapar formi sínu frá mínu náttúrlega og gamla, ad ecki gæta nú lengur þrifist á innlendum matvæla- og fatnadar-fanngum, sem fyrri, og ad miklu leiti án verid útlendra útsjúgandi korn-vara, klæda- og kram-kaupa, vid hvør øll egin atorkusemi nidurkjæfist, en óhóf og ómennska

fylla

fylla hennar sess. Þetta vottar best si-vaxandi kornvara innflutníngur ár hvørt híngad til mín[467]), og kramsins sømuleidis, en undir eins armódur allra þeirra hérada, hvar þess mest vidþarf, eda venja krefur, þegar mørg sérlegra uppsveita hérød enn í dag sýna, ad litils, sárlitils af øllu þessu vidþurfi, af því þeir enn halda vid fornum búnadar-háttum, einkum gódri jardar- og fjár-rækt, halda vid spar- og hóf-semi, en hylla midur fína módinn. Þar kaupir gódur bóndi litid eda eckért af

mjøli,

467) Árid 1732 komu 1000 tunnur kornvøru alls á Reykjavíkur og Húsavíkur hafnir, sem Kóngur þá útreiddi, og 1 skip alls á Reykjavík; 1759, eptir hallærin, útreiddi Kóngurinn allar hafnir, komu hjer þad ár alls 5 skip, og hafdi 1 Kaupmadur 4 hafnir undir; nú tel eg, ad af þeim flytjist þángad margfaldt.

mjøli, krami og óþarfa. Mjólk og skyri, smjeri og kjøti, tólg, ullu og skinnum af búi sínu, ær hann árlega heima hvørgi nærri øllu eydt, m — auk þess litla, er hann til naudsynja vidarf (med hvørju þó ecki telst mjøl lítid eitt il branda, og dálítid af fiski til smecks, hvørtveggja þó hellst til umbreytingar), gétur hann øluverdt seldt og grædt til uppeldis, og til adlodar børnum sínum; med honum læra þau jálf ad vinna sín egin fuotru og þockalegu føt f. fénadarins ullu, og þau sóma þeim lángtum etur enn fína módsins fyrri, bls. 624, áminnti fatnadur, vid hvørn, og endalaus mjøls, rams og munadar-varnings kaup hinir aldrei, heima í velti-árum, ná heim, og eignast færstir aluar vyrdi afgángs; flestir armód og skuldir. Eckert hefir máské á fyrri og seinni árum framar

ar gagnad — ad eg eitthvørt pláts tilnefni — t. d. Húnavatns-sýslu minni, enn þad, ad Kaupstadur hennar í nockur ár samfleytt vard stundum ecki uppsigldur, sem kénndi almenningi ad spila uppá egin spýtur, ad laga sinn búnad sem skynsamlegast, og hagnýta allt sem bezt, kénndi þonum, ad pestinni umlidinni, ad velja sér saudféd fyrir adal-næringar-stofn, sem ardmest, en hægast ad eignast og vidhalda, í erfidra og opt ardlitilla kúa stad, og um leid setti þad allar hendur vid ullar-vinnu í ódá kapps erfidi til, og svo med því, ad ávinna björg og brand. Af sjónum ausa þessir allt fyrir þad, um vertidir í öllum bærilegum árum, sumu blessun sem adrir. Búsæld og ánægja krýnir þvílikra sveita skynsömu búnadar-hattu heillum og heidri, fyllir lönd sín fénadi og audlegd, fjölgar býlum, búendum, skatt-

ſkattbændum, jardegendum, ydjü- og atorku-
mennum, manneſkjum yfir höfud, og þær gëfa
hinum verdugt dæmi til eptirbreytnis, ſem med
gagnſtædri búnadar adferd ſetja alla þeirra von
til ens ſtopula ſjáfar-fengs, ſem jafnvel í gódum
árum gjörir ecki betur enn hröckva til fyrrgreindra
mjøls, krams og munadar-kaupa, en leyfir ſærſt-
um þá, enn ſidur í bágum árum, afgáng frá
ſkuldum. Menn lifa þar ríkmannlega um tíma,
margir bændur til Jóla, margir ſkëmur. Þar
ſetja þeir meſta von ſína til kúa, en halda fátt
ſaudfé og illa. Bregdiſt hinna burdur, heyja-
fengur eda heyja nýting, er mjólk og bjørg øll
farin, kýrnar ódar fallnar enn af veit; af fáu,
illa høldnu og ardlitlu ſaudfé, er ullin í kaup-
ſtad ſeld, lítid því eda eckërt af henni unnid.
Lífid eydiſt í ómenníku, ſnatti og ydjuleyſi;
ſult-



ſulturinn er þeim ſamferda; jardar- og pen-
ings rækt fellur nockrum þeirra erfid, þeir yf-
irgéfa þvi jørd og búſkap og flyckjaſt út ad
ſjó, i tómhús; ydja þar eckért, nema þá fáu
ródrar-daga, ſem géfaſt um árid á ſtuttum
vertídum. Þeirra litli og ſtopuli abli er þad
allt, af hverju takaſt á fædi og fatnadur hvørs
hyſkis. Hvad á breſtur, bætir nockrum út-
ſjúgandi kaupavinna hjá verkafólks-fáum búend-
um, frá hverjum hinir hlaupa úr viſtum í
þurrabúda ómenníſku og hægd, ſvo jardir verda
ecki, fyrir fólks-eklu, uppunnar eda fénadur
forſorgadur; hins abla nockrir med ydjulauſu
húſsgángs rølti í hópa-tali ſveit úr ſveit, um
beſta vinnutíma, betli, ſuhkjum og þjófnadi, og
þegar eitt ár til ſjóar misfellur, drepaſt þeir
ſjálfir útaf fyrſtir manna í hor, ſem flugur.
flock-

flockum saman, ellegar hlaupa eldúngis burt, og slengja óforsorgadri ómaga hrúgu uppá þann hrepp, hvar þeir, enn þótt í allri ómennsku, hafa þeirra ablad, án þess nockurntíma verulega adstodad hreppinn. Þanninn eydileggja þeir og eldúngis útarma adra jarda ábúendur í sjóplátsum med hyski sínu, sem hèr adauki verdur sjaldnast ad vidsæmandi mannesskjum. Flestallt ydjuleysíngjar, sem því nær eckért kunna eda nenna ad vinna, nema róa á sjó, og lítid annad í uppeldi lært hafa, enn sjóbúda lyga-þvadur, þjófnad og margvíslega brádvendni. Þad er því ecki um skor fram, þó eg, bls. 90 og 603, ecki hafi þurrabúdanna lifernisháttum hælt, því dagleg, árleg, já, þín æfilaung reynsla og eldri og nýrri Annálar sanna þetta allt nógsamlega.

Þurrabúda líf tel eg því í mørgum sveitum sunnan- og vestan-verdt nærstu eda adra stærstu orsök til míns armóds og báginda þar, nema í bestu árum, af því þad raunar er sjá sanna uppspretta til ydjuleysis og brádvendnis hjá mørgum, til lausa-mennsku, ómennsku, vinnu-hjúa skorts, kosta-vendnis og þvermódsku, sem vída bjóda byrgin og keppast ad styckjast verum saman í Þurrabúdanna hægd, til ad gëta þar børn á annara skaut, en undir eins gëta eydileggjandi stofn til afkomenda, er aldrei læra ad vinna sér ærlega braud, og færstir annad enn íllt eitt. Þetta Þurrabúdanna skadvæna líf, var ad sønnu þeckt í eldri systra þinna tíd, og undir eins þeckt mig útarmandi, sem Annálar votta, en — margfaldast hefir þad í þinni tíd, mín Framlídna! vid vaxandi útveg hvísra, sem

sem ástundad hafa, ad draga ad sér fólk úr sveitum til ad fleyta skipum sínum þeim til ards, en særri viljad sídan byrdina bera af þeirra eda þeirra hyskis framfæri, heldur flengt henni uppá fátæka hreppa, þeirra velmegun, gódri hússtjórn og uppeldi, ydjusemi, jardar- og peníngsrækt til þess meira nidurdreps.

Giptíngar þesshóttar Letimaga og óreiga til þesshóttar lífs, hafa því ásamt ollad armódi mínum. Veit eg samt vel, ad ríkisstjórnir leggja kapp á ad fjølga hjónabøndum, en ecki fæcka, allt til fólks-fjølgunar, er þær álíta landa ríkdóm og eg játa þad sama, því þegar gott uppeldi fæddra manneskja og líklegur næríngar-vegur gefur ardsama gagns-von af þeim, þá eru þær minn sanni ríkdómur, en

 upp-

uppaldar vid ydjuleysi, vid órádvendni, án bjarg-vænlegs næringar-vegs, og med undirokun jardar- og penings ræktar og gódrar hússtjórnar, verda þær mér sá þúngbærasti skattur og til hneckirs flestum manndóms fyrirtækjum.

Ad eckért straff hefir verid til hjá mér, sem svo megi nefnast fyrir neina órádvendni, (því þad í Tukthúsinu hefir stœlt marganu, skálk upp til ódáda sjá bls. 127, 185 og 628) og ad heimskulegt vana-umdæmi almúga hefir álitid þad, sem skyldu- og góð-verk, ad skjóta glæpamönnum undan laganna hegníngu, hefir og ollad margvíslegrar óreglu hjá mér, og þar-af leidanda tjóns og ófridhelgis á eigum manna. Þessvegna, þegar eg á ad svara uppá spurníngunа: hefi eg efna-betra ástand grædt? er mér

mér nærst gêdi ad halda, nei! sannur saman-burdur eigna manna nú og fyrri gêfur rok til þess. Þó minir bjargrædisvegir hafi stórum rýmst og fjølgad, þó t. d.: sjáfar útvegur á innnesjunn, hafi sidan netanna innleidslu margfaldt aukist, hefir hann frá fyrri tídum eins mikid minkad annarsstadar, svo sem í ollum útverum, kríngum Snæfells-jøkul og vídar, og votturinn ljósasti er fólks-fjøldinn nú og fyrri.

Eg hefi nú vid útfør þína ecki enn eignast þá tølu fulla er eg átti eptir hallærin um komu þína, og tvisvar sídan (sjá blf. 43), en — eptir henni fer þó tala sjófólksins. Stóra-bóla 1707 og seinni 3 bólur, 3 hallæris-bálkar, fern eldgos fjalla, og umfram allt fjárpestin, sóttir og hardæri onnur, hafa jafnódt

 eydt

eydt minni endurlifnudu velmegun, opt gjørfellt allt og fólkid med til sanninda-merkis; svo heppna kalla eg mig nú, gjæti eg vid útför þína sagt med sanni: eg hefi nád mér aptur og er nú jafn-rík af fólki og eignum, sem vid fædingu þína. En — þad efa eg mjøg, og hygg, ad mig jafnvel meira bresta muni á sauð-fjár og flestar eigur adrar mót hinum þá, enn mig audsjáanlega vantar uppá fólksfjøldann.

Hvad hefi eg þá hellst ad telja þér til gyldis og Ævruminningar? mín Framlidna! Uppá þessa sídustu spurníngu gét eg nú, ad lyktum, verid fáord, med því ad vísa til þess

marga,

marga, sem eg í undangengnum Eptirmæl-
um þínum, hefi þér til hróss upptalið, nefni-
lega: stórum aukna og sí-vaxandi upplýs-
íngu og hjátrúar-hnekkir; stórum endur-
bætta Lög-gjöf og Réttar-framqvæmd;
mildun siða og harðýðgis; mannkjærlegri
meðferð á sonum mínum, og sæmdarmeiri
umgengni við þá; almennt vaxandi frelsi
þeirra; mikilsverða lausn og rýmkun allra
minna bjargræðis útvega og nýrra inn-
leiðslu, en umfram allt: sífeldt óbreytta føð-
urlega Ríkisstjórn, hennar dæmalausu og
óþreyttu umhyggju, ørlæti og velgjørðir

 mér

mér til frelsis í øllum bágindum, og til vonar-fullrar vidréttíngar þess á milli, Erbyndа fridarins óvidjafnanlegu stødugu heillum, hvørjar aldrei hafa um þína tíd nád ad rafkast í nockru, ellegar mín hagsæld og ró, og fyrir hver øll ómetanleg gædi eg af hjarta prísa Guds fødurlegu forsjón, og fel mig ørugg enni sømu framvegis!

Far því vel, ástkjæra Atjánda Øld! Fridur sé æ med þinni loflegu Minníngu, mín Framlidna!



# Réttingar og hellstu Prentvillur í Eptirmælunum.

Blf. 16 í línu 1, bætist fremst: auk þeirra morgu, sem eg misti árid 1720 (sjá blf. 201), en svidasárast ꝛc. Blf. 25 l. 9, alla, les: oll. Blf. 46 Fólkstalan rjettist hjer eptir blf. 219, 20. Blf. 53 línu 8, les: Kóngur minn Fridrik V. Blf. 64 línu 3, er, les: se. Blf. 147 milli línu 8du og 9du, innbætist: Árid 1763 gaf Sýslumadur Bjarni Halldórsson jordina Medalheim med 4 kúgyldum til Kristfjár, og fyrirlagdi ad skipta afgjaldinu milli 12 hreppa í Húna-þingi. Þorsteinn Sýslumadur Sigurdsson gaf litlu sídar Annexkirkjunni ad Ketilstødum á Vøllum, Sørlastadi í Seidisfirdi 6 hundr., med 1 kúgyldi*), og Sýslumadur David Scheving 1792 Fátækum á Bardastrønd jordina Lægri-vadal 20 hndr. med 2 kúgyldum. Ibid. í línu 15 innbætist um Stifstrup: af Biblíum gaf hann

Ss 5 þing-

*) Sjá hans prentudu Ættar- og Æfi-minningu, blf. 23.

hingað 600, en af Nýja-testament. á íslendsku 1600 tals, sem Prófastar gefins útbita áttu þeim fátækustu í báðum stiptum*). Bls. 150 nót. 165, les: CLXX. Bls. 154 línu 13 þó, les þá. Bls. 156 í nótu 171 Riti, les: Rits. Bls. 258 línu 10 1776, les: 1773. Bls. 292 í nótu 239, 603 les: 232 - 33. Bls. 369 línu 5 les: fyrrnefndann. Ibid. línu 8 les: en hann gaf. Bls. 428 línu 10 hvorjum, les: hvornium. Bls. 491 línu 12, les 1789. Bls. 499 línu 4 hafdi les: hafi. Bls 500. línu 2 les: Stiptamtmann. Bls. 536 línu 3 Öll, les: Alla. Bls. 558 línu 10 les: uppfundid. Bls. 571 línu 15 les: 1762. Ibid. línu 17 - 18 les: Drottning. Bls. 573 línu 10 les: dauða. Bls. 583 línu 8 les: sveyndu. Bls. 601 línu 9 innlæt, les: læt. Bls. 623 línu 15 stimli les: stimle.

---

*) Sjá hjer um og um Stistrup, Mallings store og gode Handlinger, bls. 650.



Sam-

# Samtal
þeirrar
## Átjándu og Nítjándu Aldar,
um nóttina milli þess 31ta Decembr. 1800
og 1ta Janúarii 1801.

Átjánda Öld.

Mer er gladt í gëdinu, Dóttir!
Gömul stár eg hundrad ára;
Þeir hafa margir mínum fargad
Meyjardóm í æsku blómi;
Sjöl-lynd var eg, en fram mër þrundu
Fólkum djarfir mínir arfar;
Man eg þad af kosta kyni,
Komu Drengir, frægir lengi.

Vilda' eg yppa ærnu kappi
    Aa minna fyrrum knáu,
Mundu bóka-skafin ad stikum,
    Skorta-fell og papphyrs-bellur.
Margir jadrar minna fedra
    Mundudu slíkt, og lofstír fundu,
Þann hafa mínir sælu Synir
    Snúduglyndir og fengid prúdann.

Þad er víst: ad Lærdóms listum
    Lodir ei' blettur fegri' á hnetti,
Fólkum (vænn er feldar-dálkur!)
    Færrum settur, ad tölu réttri, —
Heldur enn Eyjan ockar kalda,
    Orpin hrími lánga tíma.
Gæt nú þess, ad gódur veitist
    Gamall hródur úngu Fljódi.

Nitján-

Nitjánda Öld.
Þecki eg hródur þennann ockar,
Og þad er ei' fjødur tekin af ødrum,
Þegar Sagna-rits vid reiknum
Réttann keim í Nordurheimi.
Og þér til kæti þess vil eg géta:
Þínir Fedur og líka mínir,
Ebla knáttu' um unnir brattar
Od og smeck hjá fleiri þjódum.

Atjánda Öld.
Runnid hafa til rifja minna
Raunir margar á vegum bjarga,
Sauda-pést mér svall hid næsta,
Og Sóttir bólu skædar dróttum.
Elldum skutu idurin foldar
Eyddu fjám, og mannkyn deyddu.
(Rek eg hnuggin svinnra Seggja
Saknad), Dóttir! vel mun rakna

Mørgum frædum mínir nídjar
Mentagjarnir lengi þéntu,
Vara munu vísdóms greina
Verkin dýr í miklum tíri.
Af þeirra snild hinar eptri aldir
Allar skulu mig sæla kalla.
Augun víss eg ad þér hvessi,
Einka Dóttir! á hinstu nóttu.

Nitjánda Óld.

Vel eg þykjumst þetta skilja,
Þúngum ódi varpar Módir;
Én grædi-stofn af gódum efnum
Sýna sjer eg frá skauti mínu,
Krønsum gøfigar bjarkir bifast,
Brums eru knappar sprúngnir á sumum
Tvinnar sjóna saman línur
Slúnginn runnur blómi þrúnginn.
Þann-

Þannig rétt við ægslum ættir
    Ockar hródigar, besta Módir!
Reyni' eg árla það af þínu
    Þroska tekur Meyjan roskna;
Veit eg ei', því vandt er að géta,
    Hvørt verð eg sling að ættar-springi,
En það er víst: af hrundum hraustum
    Hafa menn von um styrka Sonu.

Átjánda Öld.

Heyri eg lopt, til Edda giptu,
    Lostin gamms af fjaður-hamsi;
Vina kjósa Vættur mínar
    Vorri moldu tárum goldið.
Hlípnar breyta hverfum litum
    Heilla-dísir, því að rísa
Fagurgerð með foldar skørðum
    Fjøleg rod að miklum prísi.

Eystra kljár fyrir alda burum
    Ein á dyngju Gullinfingra
Vefjar hvel, en skaut-á stólum
    Skérdast brátt yfir liki Náttar.
Lid eg í burtu hálft med hjarta
    Hrygg og glød frá mínum stødvum.
Lifdu sæl! vér léttum tali,
    Lypti þér jafnan hálig gipta!

B. Grøndal.



